# Sagan
## af
# Egle Skallagrims Syne.





Þrentud á Hrappsey, 1782.
J [illegible] Kóngl. *Privilegerada* Bókþrykkerie, af *M. Moberg.*



# EIGILS Saga SKALLA-GRIMSSONAR.

## Cap. j.

Ulfur hiet madur son Bialfa, og Hallberu dotter Ulfs ins oarga, hwn var Syster Hallbiarnar Haalftrolls, j Rafnistu fødur Ketils Hængs, Ulfur var madur so mikill og sterkur, ad ei voru hanns jafningar. Enn er hann var aa unga alldri, laa hann i Vijkingum og hernadi. Med honum var i fielagskap saa madur er kall-adur var Berdlukáre, gofugur madur og hinn meste afrexmadur ad af-le og aarædi. Hann var Berserkur, þeir Ulfur aattu eirn siood baad-er, og var med þeim hin kiærasta vinaatta: Enn er þeir rieduft wr her-nadi, før Kári til Bws sijns i Berdlu, hann var madur stooraudigur. Kári aatte iij. born, hiet son hanns Eivindur Lambe, annar Aulver Hnufa Dotter hanns hiet Salbiørg, hwn var qvenna vænst, og skørungur mikill: hennar feck Ulfur, for hann þaa og til Bwa sinna. Ulfur var madur audugur, bædi ad Londum og Lausum aurum, hañ tok Lendsmanns riett, so sem haft høfdu Langfedgar hanns, og giordist madur rijkur, Svo er sagt ad Ulfur var bwsyslumadur mikill, Var þad sidur hanns ad rijsa upp aardeigis, og ganga þaa um Syslur mañа. eda þar er Sauder voru og siaa yfer fienad sinn og Akra: Enn stund-um var hann aa tali vid menn þaa, er raada hanns þurftu, kunne hann til alls good raad ad leggia, þvi ad hann var forvitri, Enn hvorn dag er

ad qvölldi leid, þaa giordist hann styggur miøg, so ad fæer meñ mættu ordum vid hann koma var hann qvölldsvæfur: Þad var maal manna ad hann væri miøg hamramur: Hann var þvi kalladur Kvølld-Ulfur. Þau Kvølld-Ulfur og Salbiørg ættu tvo sonu, hiet hinn elldri Þorolfur, en hinn yngri Grímur, Enn er þeir voxu upp, þaa voru þeir bæder menn miklir og sterker, so sem fader þeirra: Var Þorolfur manna vænstur og giorviligastur, hann var lijkur modurfrændum sijnum, gledimadur mikill, aur og ákafamadur mikill i ollum lutum, og hinn meste Kaupmadur, Var hann vinsæll af ollum monnum: Grímur var svartur madur og liootur, lijkur fødur sijnum, bædi ad yferlit og skaplyndi, giordist hann um sysslu madur mikill, hann var hagur madur a trie og jaarn, og giordiz hin meste Smidur, Hann for og opt a Vetrum i Silldfiski, med Lagnar-Skwtu, og med honum hwskallar marger, Eñ er Þorolfur var a tvitugs alldri, þaa biooft hann i hernad, fieck Kvølld-Ulfur honum Langskip, Til þeirrar ferdar riedz sijdann Berdlukáre, Eivindur og Aulver, þeir hofdu Lid mikid og annad Langskip, og voru um Sumarid i Vijking, og unnu sier fiaar og hofdu hlutskipte mikid. Þad var nockur sumur er þeir laau i Vijkingu, enn voru heima a Vetrum med fedrum sijnum og moodur. Var þaa bædi gott til fiaar og mannvirdingar. Kvølld Ulfur var þaa miøg a efra alldur komenn enn Syner hanns voru roskner.

# Cap. ij.

Bud-Biørn hiet þaa Koongur yfer Firdafilke: Hroalldur hiet Jarl hanns, Enn Þórer Son Jarlsins: Þar var Atle hinn mioöe Jarl, hann bioo a Gaulum. Hanns børn voru þau Hallsteirn, Holmsteirn, Þorsteirn og Solveig hin fagra. Þad var a einu hausti ad fiolment var ad Gaulum, ad Haustbloote. Þaa saa Aulver Hnúfa Solveigu, og giorde sier um tijtt. Sijdann bad hann hennar, Enn Jarlinum þotti mannamunur, og villde ei gipta hana, sijdann orte Aulver morg mañsongsqvæde. Og svo mikit giorde Aulver sier um Solveigu, ad hann liet af Herførum, Enn þeir voru samt i Hernade Þorolfur og Eivindur Lambe.

Cap.

# Cap. iij.

Haralldur Son Haldanar svarta, hafdi tekid Arf epter fødur sinn. Hann hafde þad heitstreingt, ad láta ei skera hár sitt nie kemba fyr enn hann væri Einvalldskoongur yfer Noregi, hann var kalladur Haralldur Lufa. Sijdann bardiz hann vid þá Koonga er næster voru og sigradi þá og eru þar um langar frásagner. Sijdann eignadist hann Upplønd, þadann for hann nordur i Þrándheim og átti þar margar Orustur ádur hann yrdi Einvalldskoongur yfer øllum Þrandaløgum. Sijdann ætladi hann ad fara nordur i Naumudal á hendur þeim Herløgi og Hrollaugi, Er þá vóru Koongar yfer Naumudal: Enn er þeir brædur spurdu til ferda hanns, þá geck Herlaugur i Haug þann med xij. menn er ádur høfdu þeir giora látid. Þrijr vetur voru sijdañ Haugurinn var aptur látin: Enn Hrollaugur Koongur velltist wr Koongdominum og took upp Jarls Riett, og foor sijdann á valld Haralldס Koongs, og gaf upp Riki sitt. So eignadiz Haralldur Koongur Naumudals fijlki og Hálogaland, setti hann þar menn yfer Rijke sitt. Sijdann biooſt Haralldur Koongur wr Þrandheime med Skipalide, og for sudur á Mære. Atte þar orustur vid Hunþióf Koong og hafdi sigur, fiell þar Hunþiófur, þá eignadist Haralldur Koongur Nordmære og Naumsdal. Enn Sølvi Klofe son Hunþiófs, hafde undannkomiz og foor hann á Sudurmæri til Arnvidar Koongs, og bad hann sier fulltijngis, og sagdi so: Þott þetta Vandrædi hafi nw borid oss ad hende, þá mun ecki langt til ad samt vandrædi mun til ydar koma, þvi Haralldur ætla eg ad skiott mun hier koma, þá er hann hefur alla menn þrælkad og þiád sem hann vill á Nordmæri og i Naumsdal, munu þier hinn sama kost fyrir høndum sem vær áttum, ad verja fie ydart og frelse, og kosta þar til allra þeirra manna er ydur er lids ad von, og vil eg bioodast til med mijnu lidi moote þessum ofsa og ojafnade. Enn ad ødrum koste munu þier vilja taka upp þad rád sem Naumdæler giordu, ad ganga med sialfvilia i ánaud, og giorast Þrælar Haralldס. Eñ þotti fødur mijnum sigur ad deya i Koongdoome med sæmd, eñ giørast undirmadur annars Koongs á gamals Alldri. Hygg eg ad þier mu-

mune ſꜳ þikia, og odrum þeim ſem nockur er ꜳ Bordi, og kappsmenn vilia vera. Af ſlijkum fortolum vard Koongur faſtrꜳdinn til þeſs ad ſafna lidi, og veria land ſitt: bundu þeir Sølvi þꜳ ſamlag ſitt, og ſendu ord Audbyrni Koongi er ried fyrer Firdafylki ad hann ſkylldi koma til Lids vid þꜳ. Enn er ſendimenn komu til Audbiarnar Koongs og bꜳru henum þeſsa Ordſending, þꜳ riedſt hann vid Vini ſijna og rꜳdu honum þad allir ad ſafna lidi, og fara til mots vid Mærer ſem honum voru ord tilſend. Audbiørn Koongur liet ſkera upp heror og fara herbod um allt Riki ſitt, Hann ſendi menn til Rikismanna ad boda þꜳ til ſijn: Enn er ſendimenn Koongs komu til Kvølldulfs og ſogdu honum ſijn erindi, og þad ad Koongur vill ad Kvølldulfur kome til hans med hirdſkarla ſijna: Kvølldulfur ſvarar ſo, þad mun Koongi ſkyllt þikia, ad eg fare med honum ef hann ſkal veria Land ſitt og ſie heriad i Firdafylki; Enn hitt ætla eg mier all oſkyllt, ad fara nordur ꜳ Mæri og beriaſt þar og veria Land þeirra: er ydur þad ſkiootaſt ad ſeigia, þꜳ er þier hittid Koong ydvarn, ad Kvølldulfur mun heima ſitia um þetta Herhlaup, og hann mun ei herlidi ſafna, og ei giøra ſijna þꜳ heimanferd ad beriaz i mooti Harralldi Koongi, þvi eg hygg hann hafe Byrder noogar og hamingiu er Koongur er, enn Koongur vor hafe ei kiepping fullann, foru ſendimenn heim til Koongs; og ſogdu honum Erindislokinn: Enn Kvølldulfur ſat heima ad Bwum ſijnum.

## Cap. iv.

Audbiørn Koongur for med lid ſitt þad er honum filgdi, nordur ꜳ Mæri og hitti þar Arnvid Koong og Sølva Kloſa og hofdu þeir aller ſamann her mikinn: Harralldur kemur þꜳ og nordann med ſijnu lidi, og vard fundur þeirra fyrir innann Salſkel, var þar oruſta mikil og mannfall ogurligt i hvorutvegia lidi: Þar fiellu wr Harallds lidi Jarlar ij. Asgavtur og Asbiørn, og ij. ſyner Hákonar Hladajarls Griotgardur og Herlaugur og margt annad ſtormenne. Enn af lidi Mæra Arnvidur Koongur og Audbiørn Koong: Enn Sølvi Kloſi komſt undann ꜳ flootta og var ſijdann Vijkingur mikill, og giørde opt ſkada mik-

mikinn ꝏ Rijki Haralldsd Koongs og var kalladur Sølvi Klofi. Epter þad lagdi Haralldur Koongur under sig Sudurmæri. Vemundur brooder Audbiarnar Koongs hiellt Firdafylki, og giordist þar Koongur yfer. Þetta haust giordu menn þad rꝏd med Haralldi Koongi, ad hann skylldi ei fara sudur um Stad ꝏ haustideigi. Þꝏ sette Haralldur Koongur Røgvalld Jall yfer Mæri hvorutveggiu og Raumsdal, og hafdi um sig mikid fiolmenne. Þad sama haust veittu syner Atla heimfor ad Aulver Hnufu og villdu drepa hann. Þeir hofdu lid so mikkid ad Aulver hafdi ongva vidstodu, og komst med hlaupi undann, for hann þꝏ nordur ꝏ Mæri og, hitti þar Harralld Koong og geck Aulver til handa hønum, og for nordur til Þrandheims med Koongi um haustid, og komst hann i mesta kiærleik vid Koong, og var med honum leingi sijdann og giordiz Skꝏlld hanns. Þann Vetur for Røgvalldur Jall id eystra um eidisioo sudur i fiordu, og hafdi niooſner um ferd Vemundar Koongs, og kom um nott þar sem heiter Naustdalur, og var Vemundur þar ꝏ veislum, took þar Røgvalldur Jall hws ꝏ þeim, og brendi Koongin inne med ixtygum manna. Epter þad kom Berdlukári til Røgvallds Jarls med Langskip alskipad, og foru þeir bꝏder nordur ꝏ Mæri. Took Røgvalldur skip þau er ꝏtt hafdi Vemundur Koongur, og allt þad lausafie er hann feck. Berdlukári for þꝏ nordur til Þrandheims ꝏ fund Harallds Koongs, og giordist hanns madur. Um vorid epter for Haralldur Koongur sudur med landi med Skipaher, og lagdi under sig Fiordu og Fialer, og skipadi þar til Rijkismønnum sijnum, og setti Hroalld Jall yfer Firdafylki. Haralldur Koongur var miog giorhugull, þꝏ er hann hafdi eignast þau Fylki er Nykomin voru i vernd hanns, um Rijka bændur og lenda menn, og adra þꝏ er honum var grunur ꝏ ad nockurar uppreistar var ad von, þꝏ liet hann hvorn giora annadhvort, ad gioraſt hanns Þioonustumadur, eda fara af Landi i burtt, enn ad þridia kosti sæta ofurkostum, eda lꝏta Lijfid, enn sumer voru hamlader ad hondum eda fotum. Haralldur Koongur eignadiz i hvoriu Fylki Odul oll, og allt Land, bygt og obygt, og jafnvel Sioolun og Votnin, og skylldu aller Bwendur vera hanns leiglendingar, so þeir er ꝏ Mørkinne ortu, og Salltkarlarner og aller Veidimenn bædi ꝏ Sioo og Landi, þꝏ voru aller þeir hønum Lydskyllder. Em

af þessari Aþian flydu marger menn af Landi a brott, og bygduſt þa margar Audner vijda bædi austur i Jamtalandi og Helsingalandi, og Vestur til Sudureyar Dyflinar Skydi Irland og Hialltland Færeyar, og i þann tijma Island.

## Cap. v.

Haralldur Koongur la med her ſinn i Fiordum, hañ ſende meñ þar um Landit a fund þeirra manna er ei hefdu komid til hanns, er hann þottiſt Erindi vid eiga. Hanns ſendimenn komu til Kvølldulfs og feingu goodar vidtokur: Þeir baru upp erindi ſijn, ſogdu ad Koongur villdi ad Kvølldulfur kiæme a fund hanns, hañ hefr ſogdu þeir ſpurn af, ad þw ert gofugur madur og ſtoorættadur, muntu eiga koſt af honum mikillar virdingar, er Koongi mikid kapp a þvi ad hafa þa menn med ſier ſem hann ſpir ad afreksmenn eru ad afli og hreyſte: Kvølldulfur ſeiger ad hañ var þa gamall madur, ſo hann var ecki herfær, ad vera wti a Herſkipum, mun eg nw heima ſitia og lata af ad þioona Koongum. Þa mællti ſendemadur, Lattu þa fara ſon þinn til Koongs, hann er madur mikill og garpligur, mun Koongur giora þig lendann mann ef þw villt þioona honum. Ecki vil eg ſeiger Grímur gioraſt lendur madur medañ Fader minn lifer, þviad hann ſkal vera yfermadur minn medan lifer. Sendimenn foru i burtt. Enn er þeir komu til Koongs, ſogdu þeir honum allt þad er Kvølldulfur hafde rædt fyrir þeim. Koongur vard vid ſtiggur, og mællti um nockrum ordum ſagdi ad þeir mundu vera menn ſtorlatir, eda hvad þeir mundu fyrirætlaſt: Aulver Hnufa var þa nærſtaddur og bad Koong ei vera reidann. Eg mun fara a fund Kvølldulfs, og mun hann vilia fara a fund ydvarn, þegar hann veit ad ydur þiki nockru male ſkipta: ſijdañ for Aulver a fund Kvølldulfs, og ſagdi honum ad Koongur var reidur, og ei mundi duga nema annarhvor þeirra fedga færi til Koongs, og ſeiger ad þeir mundu fa virding mikla af Koongi, ef þeir villdu hann þydaz, ſagdi frá mikit ſem ſatt var ad Koongur væri goodur

monnum sijnum bædi til fiaar og metnadar. Kvølldulfur seiger ad Þad var hugbod hanns, ad vier fedgar munum ei bera giæfu til Þessa Koongs, og mun eg eige fara a fund hanns: Enn ef Þorolfur kemur heim i sumar, Þa mun hann audbedinn Þessarar ferdar, og so ad gioraſt Koongsmadur: Seigdu so Koongi ad Eg mun vera vinur hanns, og adra menn Þa er ad mijnum ordum læta hallda til vinaattu vid hann. Eg mun og hallda hinu sama umſtiorn og umbod af hanns hendi, sem adur hafda eg af fyrra Koongi, ef Koongur vi'l ad so sie. Enn sijdar mun siaaſt hvornin ſemſt med ockur Koongi: Sijdan for Aulver aptur til Koongs og seiger honum ad Kvolldulfur mundi senda honum son sinn, og seiger ad sa var betur tilfallinn er Þa var ei heima: Liet Koongur Þa vera kyrt, for hann Þa um sumarid inni Sogn, Enn er hauſtadi, biooſt hann ad fara nordur i Þrandheim.

## Cap. vj.

Þorolfur Kvølld-Ulfsson og Eyvindur Lambi komu um Hauſtid he'm wr vijking og for til Fødur sijns; taka Þeir fedgar Þa tal sijn imilli, Spir Þorolfur epter hvad verid hefur i erindum Þeirra manna er Haralldur sendi Þangad, Kvølldulfur seiger ad Koongur hafdi til Þess ord sendt ad Kvølldulfur ſkylldi gioraſt madur hanns, eda Sonur hanns annarhvor. Hvornveg ſvarader Þu qvad Þorolfur: Eg sagdi so sem mier var i hug, ad eg mundi alldri ganga a hond Haralldi Koongi, og so mundu Þid giora bader ef eg ſkylldi um-raada, ætla eg ad Þær lykter munu a verda, ad vier munum Alldur tila hliota af Þeim Koongi. Þad verdur allmiog a annann veg seiger Þorolfur enn Þier seiger hugur um, Þviad eg ætla men ſkuli af honum hliota hinn meſta frama, og til Þess em eg faſtraadinn ad fara a fund Koongs, og gioraſt hanns madur, og Þad hef eg sannspurt ad hird hanns er ſkipud afreksmonnum einum, Þiki mier Þad allſyſelegt ad koma i Þeirra ſveit, ef Þeir vilia vid mier taka: Eru Þeir menn hallldner miklu betur en aller adrer menn hier i landi; Er mier so fraasagt ad hann sie hinn milldaſti af fie-

gios-

giøfum vid menn sijna, og so avr ad gefa þeim framgang, og veita Rijki, þeim sem honum þikia til þess fallner, Enn mier spyrst oa þann veg til um alla er bakhverfaz vilia vid honum og þydast ei hann med Vinættu sem aller verde eigi ad monnum, Stockva sumer wr landi oa brott, enn sumer gioraz Leigumenn, Þiki mier þad undarlegt fader um so vitran mañ sem þw ert, og metnadargiarnan, er þw villder ei med þockum taka vegsemd þa er Koongur baud þier: Enn ef þw þikiz vera forspaar um þad, vier munum hliota af Koongi þessum ofarnad, og mun vilia vera vor Ovinur, þvi forstu ei þa til orustu i moote honum, med Koongi þeim er þw ert ædr handgenginn. Nw þiki mier þad osæmiligaz ad vera hvorki Vinur hanns nie Ovinur. Epter geck þad seiger Kvøllds-Ulfur er mier baud hugur um ad þeir mundu øngva sigurfor fara nordur oa Mæri ad beriaz vid Harralld Koong. Enn slijkt sama mun þad vera satt, ad Haralldur Koongur mun verda ad miklum skada mijnum frændum: Enn þw Þorolfur munt ræda vilia athofnum þijnum: Ecki ottumst eg þat þottu komist i Sveit med Hirdmoñum Harallds Kgs ad ei þikir þw hlutgeingur eda jafn hinum fremstu i øllum mannraunum. Varast þw þad ad ei ætler þw hoof fyrir þier eda keppist vid þier meire menn, enn ei muntu fyr vægia ad helldur. Enn er Þorolfur biooft oa brott, þa leiddi Kvøllds-Ulfur hann ofann til Skips, hvarf til hanns, og bad hann vel fara og bad þa heila hittast.

## Cap. vij.

Biørgolfur hiet madur oa Halogalande Hañ bio i Torgum hañ var lendur madur, Rijkur og audugur Enn half bergrise ad Afle og vegste og kynferde, hann ætti Son er hiet Bryniolfur, hann var lijkur fodur sijnum, Biørgolfur var þa gamall, og ønduð kona hanns: og hafdi hann sellt i hendur øll ræd syni sijnum, og leitade honum Kvonfavngs: Bryniolfur ætti Helgu dottur Ketils Hængs wr Hrafnistu, Bárdur er nefndur son þeirra, hann var sneña mikill og frijdur sijnum, og hinn mesti atgiørfismadur. Þad var eitt haust

haust ad þar var Gilldi fiolmennt og voru þeir Biørgolfur fedgar i Gilldinu gofugaster menn. Þar var hlutadur tviminningur a Auptum sem sidvenia var til, Enn þar i gilldinu var sa madur er Høgni hiet, hann atti Bw i Leku, hann var madur stooraudigur, allra manna frijdastur sijnum, vitur madur og ættsmar, og hafdi hafist af sialfum sier, Hann atti dottur allfrijda er nefnd var Hilldridur. Hun hlaut ad sitia hia Biørgolfi, toludu þau margt um qvolldid, leitst hann Mærin fogr Litlu sijdar var slitid gilldinu. Þad sama haust giordi Biørgolfur gamli heimanfor sijna og hafdi Skutu er hann atti og a xxx menn, Hann kom fram i Leku, og gengu þeir heim til hws xx. Enn x giættu Skips: Enn er þeir komu a Bæinn, þa geck Høgni a moote honum og fagnadi vel, baud honum þar ad vera med sijnu føruneyte, Enn hann þetist þad og gengu þeir inn i stofu, Enn er þeir høfdu afklædst og tekid upp Yferhafner, þa liet Høgni bera inn Skaptker og munngat. Hilldridur boondadotter bar Øl gestum. Biørgolfur kallar til sijn Høgna Boonda, Og seiger honum ad Erinde er þad hijngad, ad eg vil ad Dotter þijn fare heim med mier og mun eg nw giora til hennar lausabrullaup, Enn Høgni sa ongvann annann sinn kost, enn lata allt so vera sem Biørgolfur villdi, Biørgolfur keypte hana med eyri Gulls, og gengu þau i eina reckiu bædi. For Hilldridur heim i Torger med Biørgolfi. Bryniolfur sonur hanns liet illa yfer þessare Raadagiørd. Þau Biørgolfur og Hilldridur attu tvo sonu, hiet annar Hárekur enn annar Hrærekur, Sijdann andadiz Biørgolfur: Enn þegar hann var uthafinn, þa liet Bryniolfur Hilldridur a brott fara med syni sijna, for hwn þa i Leku til fodur sijns, og fæddust þar upp synir Hilldridar, þeir voru menn frijder sijnum litler vexte, vel Vite borner lijker mooderfrændum sijnum. Þeir voru kallader Hilldridar syner. Lijtils virti Briniolfur þa og liet þa ecke hafa af fodurarfe sijnum; Hilldridur var erfinge Høgna og synir hennar, og tooku þau arf epter hann og biuggu þau i Leku, og høfdu aud fiar. Þeir voru miog jafnaldra, Bardur Bryniolfsson og Hilldridar synir. Þeir fedgar Bryniolfur og Biørgolfur høfdu leingi haft Finnferd og Finnskatt. Nordur a Halogalande heiter Fiordur Vesterfi, þar liggur Ey i firdinum og heiter Alost, mikil Ey og good, J henne heiter Bær a Sandnese, þar bio

madur er Sigurdur hiet, hann var audgastur madur nordur þar. Hann var lendur madur og spakur ad vite, Sigridur hiet Dotter hanns, og þotte kostur bestur aa Halogalandi, hwn var einbyrne hanns og ætte arf ad taka allann epter Sigurd fodur siñ, Bárdr Bryniolfzson gierdi heimannferd sijna, og hafdi Skutu, og aa xxx manna, hann for nordur i Aloft, og kom aa Sandnes til Sigurdar, Bardur hefur upp ord sijn, og bad Sigridar; þvi var vel svarad og blijdlega, og kom so ad Bardi var heitid Meyunne, ræd þau skylldu takast aa ødru sumri, skylldi þaa Bárdur sækia nordur þangad Rædid.

# Cap. viij.

Harralldur Koongur hafde þad sumar sent ord Rijkismoñum, þeim er voru aa Halogalande, og stefndi til sijn þeim er ædur høfdu ei verid aa funde hanns. Var Bryniolfur rædinn til þeirrar ferdar, og med hønum Bárdur son hanns, fooru þeir um haustid sudur til Þrandheims, og hittu þar Koong, took hann vid þeim allfeiginsamlega, gioriſt þaa Bryniolfur lendur madur Koongs, fieck Koongur hønum Veitslur miklar adrar eñ ædur hafdi hañ haft. Hañ fieck hønum og Finnferd, Koongs Syslu aa Fialle og Finnkaup, sijdann foor Bryniolfur aa burtt og heim til Bwa sinna, Enn Bárdur var epter og giordist Hirdmadur Koongs. Af øllum hirdmønnum virdti Koongur mest Skælld sijn, þeir skipudu annad aundveigi, þeirra sat innstur Audun Illskiællda, hann var ellstur þeirra, og hafdi verid Skælld Haldanar Svarta, fødur Harallds Koongs. Þar næst sat Þorbiørn Hornklofi, Enn þar næst sat Aulver Hnufa, Enn hønum id næsta var skipad Bárdi, hann var þar kalladur Bárdur hvíte, eda Bárdur sterki, hann virdist þar vel hvorium manne. Med þeim Aulfir hnufu var fielagskapur mikill. Þad sama Haust komu til Harallds Koongs þeir Þorolfur Kvølldulfson, Kári og Eivindur Lambi, son Berdlukára, feingu þeir þar goodar vidtøkur, þeir høfdu þangad Sneckiu tvitugsessu vel skipada er þeir høfdu ædur haft i Vijking, Þeim var skipad i Ge-

stas

staskala med Sveit sijna. Þa er þeir hofdu dvalist til þess er þeim þotti tijmi til ad ganga a fund Koongs, geck þar med þeim Berdlukári og Aulver Hnufa. Þeir qvedia Koong, þa seiger Aulver Hnufa ad þar sie kominn son Kvølldulfs sem eg sagdi ydur i sumar, ad Kvølldulfur mundi senda til ydar, mun ydur heit hanns øll føst, meigi þier nw sia sannar jarteigner ad hann vill vera Vin ydar fullkomin, er hann hefur sent son sinn hingad til þioonustu vid ydur, so skorulegan mann sem þier meigid sia. Er sw bæn Kvølldulfs og allra vor, ad þw takir vid Þorolfi vegsamlega, og giører hann mikinn mann med ydur. Koongur svarar vel male hanns, og qvadst so giora skylldi, ef mier reinist Þorolfur jafnvel mannadur sem hann er sijnum ſulldreingilegur, Sijdann gioriſt Þorolfur handgenginn Koongi og geck þar i Hirdlog: Enn Berdlukáre og Eivindur Lambe son hanns foru sudur med skip þad er Þorolfur hafdi nordur haft, for þa Kári heim til Bwa sijña og þeir Eivindur bæder, Þorolfur var med Koongi, og vijsadi Koongur honum til sætis milli þeirra Aulvis Hnufu og Bárdar, og giordiz med þeim ollum hinn mesti fielagskapur. Þad var maal manna um Þorolf og Bárd, ad þeir være jafner a frijdleik og a voxt a Afl og alla adgiorvi. Nw er Þorolfur þar i allmiklum Kiærleikum af Koongi og bader þeir Bárdur. Enn er vetur leid af og Sumar kom, þa bad Bárdur Koong orðlofs ad fara ad vitia Raads þess er honum hafdi heitid verid hid fyrra sumar: Enn er Koongur visse ad Bárdur atti skyllt Eirindi, þa lofadi hann honum heimferd. Eñ er hann feck ordlof þa bad hann Þorolf fara med sier nordur þangad, sagdi hann sem satt var ad hann mundi þar meiga hitta marga frændur sijna gofga, þa er hañ mundi ei firri sied hafa, eda vid kannaz. Þorolfur þootti þad sysełegt, og fa þeir til þess ordlof af Koongi, bwast sijdann og hofdu Skip gott og foruneyte, foru þa leid sijna er þeir voru bwner, Enn er þeir komu til Torgar, þa senda þeir Sigurdi menn og lata seigia honum, ad Bárdur muni þa vitia raada þeirra er þeir hofdu bundid med sier hid firra sumar. Sigurdur seiger ad hann vill þad allt hallda sem þeir hofdu mællt, giora þa akvedid um Brudkaupsstefnu, og skulu þeir Bárdur sækia nordur þangad a Sandnes. Enn er ad þeirre Stefnu kom, þa fara þeir Bryniolfur og Bárdur og hofdu med sier margt stormeñe,

 og

og frændur sijna og teingdamenn var þad sem Bárdur hafdi sagt ad Þorolfur hitti þar marga frændur sijna þa er hann hafde ecki ædur vid kannast. Þeir foru til þess er þeir komu a Sandnes, og var þar hin prydilegasta veisla. Enn er lokid var veislune for Bárdur heim med Konu sijna og dvaldist heima um Sumarid, og þeir Þorolfur báder. Enn um havstid komu þeir sudur til Koongs, og voru med honum vetur annan, a þeim vetre andadist Bryniolfur. Enn er þad spir Bárdur ad honum hefdi Arfur tæmst, bad hann sier heimfararleife, enn Koongr veitte honum þad, og ædur þeir skildu, giordist Bárdur lendur madur, sem Fader hanns hafde verid, og hafdi af Koongi veitslur allar þvijlijkar sem Bryniolfur hafde haft, Bárdur for heim til bwa sinna, og giordist brætt Høfdijngi mikill, Enn Hilldrídar syner feingu ecki af Arfinum þa helldur enn fyr. Bárdur ætti son vid qvinnu sinne og hiet sa Grímur. Þorolfur var med Koongi, og hafde þar virdijngár miklar.

# Cap. ix.

Haralldur Koongur bavd wt Leidangre miklu og dro saman Skipa her, og stefndi til sijn lidi vijda um lond. Hann for um Þrandheim og stefndi sudur i land, Hann hafde þad spurt ad her mikill var samanndreiginn um Agder og Rogaland, og Hørdaland, og vijda til safnad, bædi ofann wr Landi og avstann wr Vijk, og var þar margt stormeñi samann komid, og ætlar ad veria Land fyrir Haralldi Koonge. Haralldur Koongut hiellt nw nordur Lidi sijnu, hann hafdi sialfur Lid mikid med skipahird sinne: Þar var i stafni Þorolfur Kvølldulfsson og Bárdur Hvíte og syner Berdlukára, Avlver Hnufa og Eivindur Lambi. enn Berserker Koongs xij. voru i soxum. Fundur þeirra var sudur a Rogalandi i Hafursfirdi, var þar nw hin mesta orusta er Haralldur Koongur hafdi ætt, og mikid mannfall i hvorutveggia lidi. Lagde Koongur framarlega skip sitt, og var þar straungust orustann, Enn so lavk ad Haralldur Koongur fieck sigur, Enn þar fiell Þórer Høkulangur Koongur af Augdum, enn Kiøtvi hinn Audgi flydi, og allt lid hanns þad er uppi stood, nema þad er til handa geck Haralldi Kgi.

epter

epter orustuna, þaa er kannad var Lid Haralldz Koongs var margt fallid og marger voru miøg saarer, Þorolfur var saar miøg, enn Bárdur meiri og eingi var osaar aa Koongs skipinu fyrir framann siglu, nema þeir er ei bitu jarnin aa, þad voru Berserkerner. Þaa liet Koongur binda saar manna sinna, og þackadi mønnum framgøngu sijna og veitte giafer, og lagdi þar mest lof til er honum þotti maklegir, og hiet þeim ad avka virdijng þeirra, nefndi til þess Skipstioornarmenn, og þar næst Stafnbwa sijna, og adra frambyggiara, Þaa orustu aatte Haralldur Koongur sidast innann Lands, Og epter þad fieck hann ongva vidstødu, og eignadist hann sijdann Land allt. Koongur liet græda menn sijna, þaa er lijfs var audid, enn veita umbud davdum mønnum sem þaa var sidvenia til, Þorolfur og Bárdur laau i saarum, tooku Saar Þorolfs ad grooa, enn Saar Bárdar giørdust banvæn. Þaa liet hann kalla Koong til sijn og seiger honum, Ef so verdur eg dey wr saarum þessum, þaa vil eg þess bidia ydur ad þier laatid mig raada fyrir Arfi mijnum. Enn er Koongur hafdi þvi jaatad, þaa seiger hann, Arf minn allann vil eg ad eignist Þorolfur fielagie minn og frændi, Lond og lavsa avra, honum vil eg og gefa konu mijna, og son minn til uppfædslu, þvi ad honum trwe eg til þess best allra manna, Hann fester þetta maal sem Løg voru til ad leife Koongs. Sijdann andadist Bárdur og var honum veittur umbwnadur, og var hann harmdavde miøg. Þorolfur vard heill saara sinna og filgdi Koongi um sumarid, og hafdi feingid allmikinn ordstijr. Koongur for um havstid nordur til Þrandheims, Þaa bidur Þorolfur orlofs ad fara nordur aa Hæalogaland ad vitia giafar þeirrar er hann hafdi þeigid um sumarid ad Bárdi frænda sijnum, Koongur lofar þad, og giører med ordsendijng jardtegner, ad Þorolfur skuli þad allt saa er Bárdur gaf honum, Lætur þad, ad sw giøf var giør med raadi Koongs, og hann vill so verá laata, giører Koongur Þorolf þaa lendann mann, og veiter honum þaa allar Veitslur þær er Bárdur hafdi aadur haft, sær honum Finnferdina med þvilijkum skilmaala sem aadur hafde haft Bárdur. Koongur gaf Þorolfi Langskip gott med reida øllum og liet bwa ferd hanns þadann sem best. Sijdann for Þorolfur þadann ferdar sinnar, og skildist þeir Koongur med hinum mesta Kiærleik. Enn er Þorolfur kom nordur i Torger þaa var honum þar vel

 fag=

fagnad, sagdi hann þaa fraafall Bárdar, og þar med ad Bárdur hafdi gefid hønum epter sig Land og lausa avra, og þad Konfang er hann hafdi aadur aatt, ber hann fram ord Koongs sijdann og jardtegner, Enn er Sigridur heyrdi þesse tijdindi, þaa þotti henne skadi mikill epter mann sinn, Enn Þorolfur henne aadur miøg kunnugur, og visse hun ad hann var hinn mesti merkismadur, og þad giaford var allgott med þvi ad þad var Koongsbod, þaa saa hun þad raadi, og med henne Viner hennar, ad heitast Þorolfi, ef þad væri fødur hennar ei amoote skapi. Sijdann took Þorolfur þar vid foraadum øllum og so vid Koongs sysslum, Þorolfur giørdi heimannferd sijna og hafdi Langskip, og a lx. manna, og for sijdann þaa er hann var bwinn nordur med landi, Og einn dag ad qvøllde kom hann i Alost, a Sandnes lagde skip sitt til hafnar: Enn er þeir høfdu tialldad og umbwist for Þorolfur upp til bæar med xx. menn Sigurdur fagnadi hønum vel og bavd hønum þar ad vera þviad þar voru aadur kunnleikar mikler med þeim sijdann er mægd hafdi tekist med þeim Sigurde og Bárdi. Sijdann geingu þeir Þorolfur inni stofu, og tooku þar gisting, Sigurdur settist a tal vid Þorolf, og spurdi ad tijdindum, Þorolfur seiger fraa orustu þeirre er verid hefdi um sumarid sudur a Landi, og fall margra manna þeirra er Sigurdr visse deile a. Þorolfur seiger ad Bárdur maagur hanns hafdi andist wr saarum þeim er hann feck i orustunne, þotte baadum þeim hinn mesti skadi. Þaa seiger Þorolfur Sigurdi hvad verid hefdi i einkamaalum med þeim Bárdi aadur hann andadist: og so bar hann fram ordsendingar Koongs ad hann villdi þad allt halldaz laata og synde þar med jardtegner, Sijdann hof Þorolfur upp bonord sitt vid Sigurd, og bad Sigridar dotter hanns, Sigurdur tok þvi maale vel, seiger ad marger hluter hielldu til þess, saa first ad Koongur vill so vera laata, so þad ad Bárdur hafdi þess bedid, og þar med Þorolfur var hønum kunnugur, og hønum þotti dotter sijn vel gipt, Var þad maal avdsott vid Sigurd. Foru þaa fram festar, og aqvedinn Brudkavps stefna i Torgum um havsted. for þaa Þorolfur heim til bws sijns og hanns forunavtar, og bioo þar til veislu mikillar, og bavd þar til fiølmenne miklu, Var þar margt frænda Þorolfs gøfugra, Sigurdur biooft og nordann og hafde Langskip mikid og mannval gott, Var ad þeirre veis-

lu

lu'hid'mesta fiolmenne. Brætt fannst þad, Þorolfur var ør madur, og stoormenni mikid, hafdi hann um sig sveit mikla, enn brætt giordist kostnadar mikid, og þurfti soug mikil, þa var ær gott, og avdvellt ad afla þess er þurfte. A þeim vetre andadist Sigurdur æ Sandnese, og tok Þorolfur arf allann epter hann, var þad allmikid fie. Þeir Hilldridar Syner fooru æ fund Þorolfs, og hofu upp tilkall þad er þeir þoottust eiga um fie þad er ætt hafde Biørgolfur fader þeirra, Þorolfur seiger so: Þad var mier kunnugt noog um Brynjolf og enn kunnugra um Bárd, ad þeir voru manndooms menn so miklir, ad þeir mundu hafa midlad uckur þad af Arfi Biørgolfs sem þeir vissu ad Riettinde væri til. Var eg nær þvi er þier hofdud þetta sama tilkall vid Bárd, og heyrdist mier so sem honum þætte þar eingi sanninde til, þvi ad hann kalladi yckur frillusonu. Hárekur seiger, ad þeir mundu vitne til fæ ad mooder þeirra var munde keypt. Enn satt var þad ad vid leitudum ecki fyrst þessa mæls vid Bryniolf. Var þar og med skylldum ad skipta, Enn af Bárde væntu vid ockur sæmdar i alla stade, urdu og ei long vor vidskipte. Enn nw er Arfur þesse kominn under vandalavsa menn ockur, og meigu vier ei þeigia med ollu. ysermissu ockari: Enn vera kann enn sie sem fyr ofrikismunur, so vid fæum ei riett af þessu mæle fyrir þier ef þw villt eingin vitni heyra þav er vid hofum fram ad flitia um þad vid sieum menn odalborner. Þorolfur svarar þæ stiggliga: þvi sijdur vil eg yckur arfborna, ad mier er sagt mooder yckar væri med valldi tekin, og her nwminn heimhofd, Epter þad skildu þeir þessa rædu.

## Cap. x.

Þorolfur giørde um veturinn ferd sijna æ fiall upp, og hafdi med sier Lid mikid ei minna enn xc. manna. Enn ædur hafdi vande æ vered ad Syslumenn hofdu haft xxx. menn, stundum færi, hann hafdi med sier Kavpskap mikinn, hann giordi brætt stefnulag vid Finna, og took af þeim skatt, og ætte vid þæ Kavpstefnu: foor

med

med þeim allt i makendum og i vinskap, enn sumt med hræslugiædi; Þorolfur foor vijda um mørkina. Enn er hann sotti avstur œ fialslid, spurdi hann ad Kylpijngar voru avstann komner, og fooru þar ad Finnkavpum, enn sumstadar med ræanum. Þorolfur sette til Finna ad nioosna um Kylpijnga, Enn hann foor epter ad leita þeirra, og hitte i einu bole xxx. manna og drap alla, so ad eingin komst undann, enn sijdann hittu þeir samann xxxv. so alls dræpu þeir nær C. manna, og tooku þar Ogrinne fiær og komu so aptur um vorid, foor Þorolfur þæ til bws sijns œ Sandnes og sat þar leingi um vorid, Liet hann giora Langskip mikid og œ Drekahøfud, liet hann þad bwa sem best, hafdi þad so nordann med sier. Þorolfur soopast miøg føng þav er þæ voru œ Hælogalandi. Hafde hann menn sijna i Sildvere og so i Fiskvere, Selver vooru og noog og Eggver, liet hann þad allt ad sier flitia, hann hafdi alldrei færa frelsingia enn C. Hann var ør madur og giøfull, og vijngadiz miøg vid stoormenne, eda þæ menn er honum voru i nænd, hann giørdist rijkur madur og lagdi mikinn hug œ um skipabwnad sinn og vopna.

## Cap. xj.

Haralldur Koongur foor þad sumár œ Hælogaland, og vooru giørvar veislur i moote hønum. bædi þar er hanns bw voru, og so giørdu lender menn og rijkir bændur. Þorolfur bio veitslu i mooti Koongi, og lagdi œ kostnad mikinn, Var þad ækvedid nær Koongur skylldi þar koma, Þorolfur bavd þangad fiølda manns, og hafdi þar allt hid besta mannval þad er kostur var. Koongur hafdi nær CCC. manna er hann kom til veitslunnar, Enn Þorolfur hafdi firir D. manna. Þorolfur hafdi lœtid bwa Kornhløđu mikla er þar var, og lœtid leggia becke i og liet þar drecka, þvi ad þar var eingi stofa so mikil ad slijkt fiølmenne mætte allt inne drecka. Þar voru og fester Skilld umhverfis i hwsinu, Koongur settist i Hæsæti, Enn er alskipad var hid efra og hid fremra, þæ sæst Koongur um og rodnadi, og mællti ecki ord, og þottust menn finna

ad

ad hann var reidur. Veisla var hin prydilegasta og oll fong hin bestu. Koongur var helldur Okaatur og var þar iij. nætur sem ætlad var, Þann dag er Koongur skylldi aa burt fara, geck Þorolfur til hanns og bad ad þeir skilldi fara ofann til strandar, Koongur giordi so, þar flavt firir Landi Dreke saa er Þorolfur hafde giora laatid, med Tiolldum og ollum Reida, Þorolfur gaf Koongi skipid, og bad ad Koongur skylldi svo virda sem honum hafdi til gengid, ad hann hafdi firir þvi haft fiolmeñe so mikid ad þad væri Koongi vegsemd, enn ecki firir kapps saker vid hann. Koongur took þaa vel ordum Þorolfs og giordi sig þaa blijdann og kaatann. Lǫgdu þaa marger good ord til. sǫgdu sem satt var ad veisla var hin vegsamlegasta, og utleidsla hin skoruglegasta, og Koongi var styrkur mikill ad slijkum monnum, skildust þeir þaa med kiærleik miklum, foor Kongur nordur aa Haalogaland sem hann hafdi ætlad, og snere aptur sudur er aaleid sumarid, foor þaa enn ad Veislum þar sem honum var bwid.

## Cap. xij.

Hilldridar Syner fooru aa fund Koongs, og budu honum heim til iij. naatta veislu, Koongur þektist bod þeirra, og qvad aa nær hann mundi þar koma, Enn er ad þeirre stefnu kom þaa kom Kongur þar med lid sitt, og var þar ecki fiolmenne firir, Enn veisla foor fram hid besta. var Koongur allkaatur. Hárekur kom sier i rædu vid Koong, og kom þar ræda hanns ad hann spur um ferdir Koongs þær er þaa hofdu verid um sumarid, Koongur sagdi slijkt er hann spurdi, qvad alla menn hafa sier vel fagnad, og miog hvorn epter fongum sijnum, mikill munur mun þess hava verid seiger Hárekur, ad i Torgum mundi veisla fiolmennust, Koongur seiger ad so var. Hárekur seiger þad var vijs von þviad til þeirrar veislu var mest aflad, og baaru þier Koongur þar stoorlega giæfu til er so sneriſt ad þier komud i ongvan Lijfsvoda, foor þad sem liklegt var ad þw varst vitrastur og hamingiumestur, þviad þw grunader þegar ad ei mundi allt af heilu vera er þw saast fiolmenne. þad id

mikla er þar var samanndreigid: Enn mier var sagt ad þw lieter allt lid þitt jafnann med alvæpni vera, eda hefder vardhalld ørugt bædi nott og dag. Koongur sa til hanns og mællti: þvi mæler þw slijkt Hárekur, eda hvad kanntu þar af ad seigia, hann seiger hvort skal eg mæla i ordlofi Koongs þad er mier lijkar, mæl þw seiger Koongur. Þad ætla eg seiger Hárekur, ef þw Koongur visser hvors manns ord er menn mæla heima, epter hugþocka sijnum, hvor oþioan þad er þier veitid øllu mannslke. Enn ydur er þad sannast ad seigia Koongur, ad alþyduna skorter ecki annad til mootgiorda vid ydur, enn dyrfd og forstioora. Enn þad er ei undarlegt seiger hann, vid slijka menn sem Þorolfur er ad hann þikist umfram hvorn mann, hann skorter ei afl eda frijdleik, hann hefur hird um sig sem Koongur, og hefur mergd fiaar þott hann hefdi þad eina er hann ætte sialfur. Enn hitt er meira ad hann lætur sier jafnheimillt annara fie sem sitt, Þier hafid og veitt hønum stoorar veislur, og var nw bwid til ad hann munde þad ei vel launa, þviad þad er ydur sannast um ad seigia, þaa er spurdiz ad þier foorud nordur aa Haalogaland med ei meira Lid enn CCC. manna, þaa var þad hier raad manna ad her skylldi samannkoma og taka þig af lijfe Koongur og allt lid þitt og var Þorolfur høfdijngi þeirrar raadagiordar, enn hønum var þad tilbodid, ad hann skyllde vera Koongur yfer Haleigia fylke og Naumdæla fylke, foor hann sijdann wt og inn med hvorium firde og um allar Eyar, og droo samann hvorn mann er hann fieck, og hvort vopn, og foor hann þaa ecki leynt ad þeim her skyllde stefna i moot Haralldi Koongi. Enn hitt er satt Koongur þott þier høfdud lid nockuru minna þaa er þier fundust, ad bwandi Korlum skaut skelk i brijngu þegar þeir saau siglijng ydra; Var þaa hitt raad teked ad ganga mot ydur med blijdu, og biooda ydur til Veislu. Enn þaa var ætlad ef þier yrdud druckner og lægsud sofandi ad veita ydur adgøngu med elld og vopnum: Og þad til jardtegna ef eg hefi riett spurt, ad ydur var fylgt i Kornhløduu eina þvi ad Þorolfur villde ei brenna stofu sijna nya og vandada miøg. Þad var enn til jardtegna, ad hvort hws var fullt af vopnum og herklædum. Enn þvi þeir feingu øngvum vielrædum vidkomid, tooku þeir þad raad sem heilst var til, drapu øllu aadreif um þessa firirættlann, ætla eg þad alla kunna ad dylia þessara raada, þviad fæer hygg eg ad viti sig saklausa ef

hid

hid fanna kemur upp. Nw er þad mitt Raad Koongur, ad þw taker Þorolf til þijn, læter hann vera i hird þinne, bera merke þitt og vera i stafni a skipi þijnu, til þess er hann fallinn allra manna best. Enn ef þw villt hann sie lendur madur, þa fa honum veislur sydur i fiordum, þar er ætterni hanns allt, meigu þier þa siga yfer ad hann gioriſt ei of stoor. Enn fa hier syslu a Hælogalandi þeim monnum er hofs menn sie, og ydur munu med Trwleik þioona, og hier eigu frn og þeirra frændur hafa hier adur hast, Þvilijks starfs skulu vid brædur vera bwner og boduer til slijks sem þier vilied ockur til nyta. Hafdi fader ockar hier leingi Koongs Syslu, Vard honum þad vel i hondum. Er ydur Koongur hier vandsetter menn yfer til foraada, þviad hier munu þier sialldann koma sialfer, hier er lijtid Landsmeigiñ til þess ad þier farid med her ydvarn, og munud þad ei optar giora ad fara hijngad med fiolldi, þviad hier er avtrygt Lid margt. Koongur reiddiſt miog vid rædur þessar, og mællti þo stillilega sem hann var vanur jafnann þa er hann frietti þav tijdindi sem mikils voru verd. Hann spurdi þa hvort Þorolfur væri heima i Torgum. Hárekur seiger ad þess var eingi von, er Þorolfur so viti borinn ad hann mundi kunna sier ad vera ei firir Lidi ydru Koongur þvi ad honum mundi þess von ad ei skylldi aller vera halldinorder ad þw Koongur munder var verda vid þesse tijdindi, foor hann nordur i Aloſt, þegar hann spurdi ad þier vorud nordann a leid komner. Koongur rædi fatt um þessi tijdindi firir monnum Enn fannst þad a, ad hann mundi Trwnad festa a þessa ordrædu er honum var sagt, for Koongur sijdann ferdar sinnar. Leiddu Hilldridar syner hann virduglega a brott med giofum, enn hann hiet þeim vináttu sinne. Þeir brædur gaafu sier Erindi inn i Naumudal, og fooru svo i svig vid Koong ad þeir hittu hann ad odru hvoru, took hann jafnann vel maale þeirra.

## Cap. xiij.

Þorgils Giallande hiet madur Þorolfs, hann var heimamadur Þorolfs og hafde af honum mestu virdijng, hann hafdi fijlgt honum þa hann var i Vijking, og var þa Stafnbwi hanns, og merkismadur.

Þorgils hafdi verid i Hafursfirdi i Lidi Haralldz Koongs, og styrdi þaa skipe þvi er Þorolfur atti og hann hafde i Vijking. Þorgils var ramur ad afle og hinn meste hreystimadur. Koongur hafdi veitt hönum vingiafer epter orustuna, og heitid Vinattu sinne. Þorgils var forstioore firir bwi i Torgum þaa er Þorolfur var ei heima. Hafdi Þorgils þaa þar raad: Enn er Þorolfur hafdi heimannfarid, þaa hafdi hann tilgreitt Finnskatt þann allann er hann hafdi haft af fialle og Koongur atti, og fieck i hendur Þorgilsi, og bad hann færa Koongi ef hann kiæmi ei heim adur enn Koongur færi nordann og sudur um, Þorgils bioo Birdijng mikinn og goodann er Þorolfur atti, og bar þar a Skattinn, og hafdi nær xx. menn, sigldi sudur epter Koongi og fann hann inn i Naumudal, Enn er Þorgils kom a fund Koongs, þaa bar hann Koongi qvediu Þorolfs, og sagdi ad hann foor þar med Finnskatt þann er Þorolfur sendi hönum. Koongur sa til hanns og svarar öngvu; og saau menn ad hann var reidur: geck þaa Þorgils a brott, og ætladi ad sia betra dagraad ad hitta Koong, hann for a fund Avlvis Hnúfu og seiger hönum allt sem farid hafde. Og spurdi ef hañ visse nockud til hvoriu gegnde, eigi veit eg þad seiger hann, Enn hitt hef eg fundid ad hann þagnar hvort sinn er Þorolfs er getid, sijdann er vier vorum i Leku, og grunar mig af þvi hann mune rægdur vera. Þad veit eg um Hilldrídarsyne ad þeir eru löngum a eintælum vid Koong, Enn þad er avdfundid a ordum þeirra, ad þeir eru Oviner Þorolfs, Enn eg mun þessa bratt vijs verda af Koonge. Sijdann foor Avlver til fundar vid Koong og mælti: Þorgils Giallandi er hier kominn vinur ydar med skatt þann er kominn er af Finnmork og þier eigid og er Skatturinn miklu meire enn fyr hefur verid, og miklu betre vara, er hönum tydt um ferd sijna, gior so vel Koongur, gack til og sia, þviad eingin mun sied hafa jafngooda Gravoru, Koongur svarar öngvu og geck þo þar til er skipid laa, Þorgils bar þegar upp Voruna og syndi Koongi, Enn er Koongur saa ad þad var satt ad Skatturinn var miklu meire og betre enn fyr hafdi verid, þaa hooist hönum helldur upp brwn, og matti Þorgils þaa tala vid hann. Hann færdi Koongi Biorskiñ nockur er Þorolfur sendi hönum, og enn fleyri dyrgripi er hann hafdi feingid a fialle. Koongur gladdist þaa og spir hvad til tydinda hafdi

ord

ördid um ferd Þeirra Þorolfs, Þorgils sagdi Þad allt greinilega, Þaa mællti Koongur: Skadi mikill er Þad ef Þorolfur skal ei vera tryggur mier eda vera banamadur minn, Þaa svorudu marger er hiaa voru, og aller aa eina Lund, sögdu ad vera mundi roog illra manna ef Koongi væri slijkt sagt, enn Þorolfur mundi osannur ad vera, kom Þaa svo ad Koongur qvadst ei mundi helldur af trwa. Var Koongur Þaa liettur i öllum rædum vid Þorgils, og skildust sætter: Enn er Þorgils hitte Þorolf sagdi hann honum allt hvorsu farid hafdi.

## Cap. xiv.

Þorolfur foor Þann vetur enn aa morkina, og hafde med sier nær C. manna, foor hann enn sem hinn fyrra vetur, aatti Kaupstefnu vid Finna og foor vijda um Morkina. Enn er hann sotte langt avstur og Þar spurdist til ferdar hanns, Þaa komu Kvener til hañs og sögdu ad Þeir voru sender til hanns, og Þad hafdi giort Faravid Koongur af Kvenlande, Þvi Kyrjalar heriudu aa Land hanns. Enn hann sendi til Þess ord, ad hann bad Þorolf lidveislu aamoote Kyrjalum, og filgdi Þad med Ordsending, ad Þorolfr skylldi hafa jafnmikid hlutskipti sem Koongur enn hvor mann hanns sem Kvener; Enn Þad voru lög med Kvenum, ad Koongur skilldi hafa wr hlut Þridiung vid Lidsmenn, enn umfram ad uppnaami Biorskinn öll og Safala og Otskroka. Þorolfur bar Þetta fyrir lidsmenn sijna og bavd Þeim kiosa, hvort fara skylldi eda ei, Enñ Þeir keru flester ad hætta til, fyrst fiefang laa vid so mikid, og var Þad afraadid ad Þeir fooru avstur med sendimoñum. Finnmork er stoorlega vijd, gengur haf firir vestann, og Þar af firder stoorer, so og firir nordann og allt avstur um; Enn firir sunnann er Norege, og tekur morkinn naalega allt hid efra sudur um, sem Haalogaland hid ytra, Enn avstur fraa Naumudal er Jamtaland og Þaa Helsingialand, og Þaa Kvenland, Þaa Finnland, Þaa Kyrjalaland, Enn Finnmork liggur firir ofann Þesse öll Lond, og er vijda fiallbigd uppaa morkinne sumt med dölum, enn sumt med vötnum: A Finn-

 mork

mörk eru vötn furdulega stoor, og þar med Vötnunum Marklönd stoor, enn Hæfioll liggia epter endilangri mörkinne og eru þad kallader Kyrjalar. Enn er Þorolfur kom avstur til Kvenlands og hitte Faravid, þa bwast þeir til ferdar, og hofdu CCC. manna, enn nordmenn þad fiorda og foru id efra um Finnmork, og komu þar fram er Kyrjalar voru a fialle þeir er fyr hofdu heriad a Kveni. Enn þeir hofdu ordid varer vid Kveni og þeirra Ofrid, sofnudust þeir samann og foru i moot, og væntu sier enn sem fir sigurs, Enn er orusta tookst, gengu Nordmenn hart fram, hofdu þeir Skiolldu miklu troustare enn Kvener, sneri þa mannfalli i lid Kyrjala fiell margt enn sumer flydu, feingu þeir Faravid Kongr og Þorolfr Ogrinne fiar og sneru aptur til Kvenlands. Enn sijdann foor Þorolfur og hanns lid a mörkina, skildu þeir Faravid Koongur med vinaattu. Þorolfur kom af fiallinu ofann i Vefsif, foor þa fyrst til Bws sijns a Sandnes, og dvaldist þar um hrijd, for nordur med Lide sijnu um vorid til Torga. Enn er hann kom þar var honum sagt ad Hilldridar syner hofdu verid um veturinn iñi Þrandheime med Haralldi Koongi, og þad med ad þeir mundu ecki sparra ad rægia Þorolf vid Harallд Koong. Var Þorolfi margt sagt fra þvi hvört efni þeir hofdu i um rooginn. Þorolfur svarar so, Ei mun Koongur trwa þvi, þott slijk ligi sie uppborenn fyrir hann, þviad hier eru eingi efni til þessa, ad eg mune svikia hañ, þviad hann hefur marga lute giort vel til mijn, enn ongvann lut jlla, og er þad fiæri ad eg munda vilia giora honum mein, þo ad eg ættu þess kosti, ad eg vil miklu helldur vera lendur madur hañs enn heita Koongur, og væri annar samlendur vid mig sa er mig mætti giora ad Þræli sier ef villdi.

## Cap. xv.

Hilldridar syner hofdu verid þann vetur med Haralldi Koongi, med xij. menn og hofdu med sier heimamenn sijna og nabwa. Þeir frændur voru optlega med Koongi a tali, og fluttu enn a somu

leid

leid mæl Þorolfs. Hárekur spurdi, lijkadi ydur vel Finnskatturiñ Koongur, er Þorolfur sendi ydur: Vel seiger Koongur, þa mundi ydur margt umfinnast seiger hann, ef þier hefdud allann þann sem þier ættud, Enn nw foor þad fiæri, var hitt miklu meire hlutur er Þorolfur droo under sig. Hann sendi ydur ad giøf Biorskinn iij Enn eg veit vijst ad hann hafdi epter xxx. þeirra er þier ættud, og hygg eg ad slijkañ mun hafi farid um annad. Satt mun þad Kgr ef þw fær Syslurnar i hendur ockur brædrum, ad meira fie skulu vid fæera þier. Enn allt þad er þeir sogdu a hendur Þorolfi þar bæru forunavtar hanns vitne med þeim, kom þa so ad Koongur var hinn reidasti.

## Cap. xvi.

Þorolfur for um sumarid sudur til Þrandheims a fund Harallds Koongs, og hafdi Þorolfur med sier Skatt allann, og mikid fie annad, xc. manna, og alla vel bwna: Enn er hann kom til Koongs var þeim skipad i Gestaskæla, og veitt þeim hid stoormannlegasta. Epter um daginn geck Avlver Hnufa til Þorolfs frænda sijns, toluduz þeir vid, seiger Avlver ad Þorolfur vor þa hroopadur miøg, og Koongur hlyddi a slijkar fortølur. Þorolfur bad Avlver byrja mæl sitt vid Koong, þviad eg mun sagdi hann vera skamtaladur fyrir Koongi ef hann vill helldur trwa roogi vondra manna enn sañindum og einord er hann mun reina ad mier. Annann dag epter kom Avlver til mots vid Þorolf og seiger ad hann hefdi rædt mæli hanns vid Koong, veit eg nw ei seiger hann, gior enn ædur hvad honum er i skape. Eg skal þa sialfur ganga til hanns seiger Þorolfur, giordi hann so, geck til Koongs þa er hann sat yfer bordi: Og er hann kom inn heilsadi hann Koongi. Koongur took qvediu hanns, og bad ad gefa Þorolfi ad drecka. Þorolfur seiger ad hann hafdi þar Skatt þann er Koongur ætti, er kominn var af Finnmork, og enn fleyri lute hef eg til minningar vid ydur Kgr. þa er eg hefi ydur ad færa. Veit eg ad þier munud mier ollu bester vera, er eg hefi giort til þocka ydara, Koongur seiger ad hañ

mun

mun ecki vænta af Þorolfi nema gods eina, Þviad eg er seiger hann, einskis annars af verdur, Enn Þo seigia menn miklo sneitt til hvorsu varfær Þw munt um vera, hvorn veg mier skal lijka. Ei er eg Þar firir sonnu hafdur seiger Þorolfur ef nockur seiger Þad, eg hafi o=trwleik lyst vid ydur Koongur, higg eg ad Þeir muni vera Þijner viner meir enn eg, er slijkt hafa uppborid firir Þier. Enn hitt er liooft, ad Þeir munn vilia vera Oviner mijner fullkomner, Enn Þad er og lijkast ad Þeir komist Þar ad keiptu ef vier skulum einer vid eigast. Sijdann geck Þorolfur a brott; Enn annann dag epter greider Þorolfur skattenn af hendi, og var Koongur vidstaddur, og er Þad var allt greidt, Þa bar Þorolfur fram Biorskinn nockur og Safala, og seiger ad Þad vill hann gefa Koongi, marger menn er Þar voru hia stadder seigia ad Þad var vel giort, og var Vinattu firir vert, Koongur seiger ad Þorolfur hafdi Þad sialfur sier lavnad og skipt, Þorolfur seigis ad hann hefdi med trwleik giort allt Þad er hann kunni til skaps Koongs, og ef eñ lijk=ar honum ei Þa mun eg ei fa adgiort, Var Koongi Þad kunnigt Þa er eg var med honum og i hanns=sveit, hvoria medferd eg hafda, Enn Þad Þike mier undarlegt ef Koongur ætlar mig nw annann mann enn Þa reynde hann mig, Koongur seiger vel foor Þier Þorolfur med Þijn=um hattum er Þw varst med oss, ætla eg Þad nw enn best af ad giora ad Þw farir til Hirdar minnar, tak vid merki mijnn og ver firir odrum Hirdmonnum mijnum, mun Þa eingi madur rægia Þig ef eg ma yfer=sia nott og dag hvoria medferd Þw hefur. Þorolfur sa til beggia handa sier ad Þar stoodu hwskarlar hanns, hann mællte, Travdur mun eg af hendi lata sveit Þessa, muntu rada Koongur nafngiptum vid mig, og Veislum Þijnum, Enn sveitunga mijna mun eg ecki af hendi lata, medann mier endaz fong til, Þott eg Væla um mijna kosti eina. Er hitt bæn mijn og vilie Koongur, ad Þier farid ad veislubodi til mijn, og hey=rid Þa ord Þeirra manna er Þw trwer, hvort Vitni Þeir bera mier um Þetta mal, giorid Þa epter Þvi sem ydur finnast sannindi til. Koongr seiger ad ei mun hann optar veislur Þiggia ad Þorolfi, geck Þorolfur Þa i burt og bioost sijdann til heimferdar. Enn er hann var i brott farinn, Þa feck Koongur i hond Hilldridar sonum syslu Þa a Haalo=galande er adur hafdi Þorolfur haft, og so Finnferd, Koongur kast=

adi

ꜳdi eigu sinne ꜳ bw i Torgum, og allar þær eigner er Bryniolfur hafde ꜳtt, og feck þad allt til vardveislu Hilldridar sonum, Koongur sendi menn med jardtegnum ꜳ fund Þorolfs ad seigia honum þessa tilskipañ er Koongur hafdi giort. Siijdann took Þorolfur skip þau er hañ ꜳtti, og bar þar ꜳ Lavsafie allt er hann mꜳtti med fara, og hafdi med sier alla menn sijna, bædi Frelsingia og Þræla, for sijdann nordur ꜳ Sandnes til bws sijns, hafdi Þorolfur þar ei minna fiolmenni og ei minne ravsn.

## Cap. xvij.

Hilldridar syner tooku nw vid Syslu ꜳ Hꜳlogalande, mælte eingi madur i mooti firir Rijki Haralldz Koongs. Enn morgum þootti þessi skipte miog i moote skapi, þeim er voru frændur Þorolfs eda viner. Þeir Hilldridar syner fooru um Veturinn ꜳ fiall og hofdu med sier xxx manna, þotti Finnum miklu minne Vegur ad þessum Syslumonnum, enn þꜳ er Þorolfur foor, greiddiz nw allt miklu ver gialld þad er Fiñar skylldu greida. Þann sama vetur foor Þorolfur upp ꜳ fiall med C. manna, foor þꜳ þegar avstur ꜳ Kvenland og hitti Faravid Kong giordu þeir þꜳ rꜳd sitt, og redu þad, ad fara ꜳ fiall enn sem hinn fyrra vetur og hofdu CCCC. manna, og komu ofann i Kyrjaland, hlupu þar i byggder er þeim þotti sitt færi vera firi fiolmennis sakir, herjudu þar og feingu ofur fiꜳr: fooru þꜳ aptur, er ꜳleid veturinn upp ꜳ morkina. Foor Þorolfur heim um vorid til Bws sijns, hann hafdi þꜳ menn i skreidfiski i vogie, enn suma i silldfiske, og leitadi allskonar fanga til Bws sijns. Þorolfur ꜳtti skip mikid, þad var lagt til Hafs, þad var vandad ad ollu sem mest. Steint miog firir ofann Sioofilgdi þar segl Stafad med Vendi blꜳm og ravdum, Allur var reidi vandadur miog med Skipinu, þad skip lætur Þorolfur bwa og fiek til hwskarla sijna med ad fara, og liet þar ꜳ bera skreid og hwder og voru lioosa. Þar liet hann filgia Grꜳvoru mikla og adra skinnavoru, þꜳ er hann hafdi haft af fialle og var þad fie stoormikid. Skipe þvi liet hañ hallda Vestur til Einglands, og kavpa sier Klædi og onnur fong þav er hann þurfti, hielldu þeir Skipi sudur med Landi og sijdann i haf, og

komu fram a England, feingu þar gooda Kavpstefnu, hloodu Skip-id med Hveiti og Hunangi, Vijni og Klædum, og hielldu aptur um havstid, þeim byrjade vel, komu ad Hordalandi. Þad sama havst foo-ru Hilldridar synir med Skatt, og færdu Haralldi Koongi. Enn er þeir reiddu Skattinn af hendi, þa var Koongur sialfur vid og sa, hann mælti: er nw allur Skatturinn af hondum reiddur, sa er þid tookud vid a Finnmork, so er sogdu þeir. Bædi er nw seiger Kon-gur, skatturinn miklu minne og ver af hendi greiddur enn þa er Þorolfr heimte, og sogdu þier ad hann færi jlla med Syssluna. Vel er þad Koongur seiger Hárekur, er þw hefur hugleidt hvorsu mik-ill skattur er vanur ad koma af Finnmork, þviad þa veistu gior hvorsu mikils þier missid, ef Þorolfur eider med ollu Finnskattin-um firir ydur. Vier vorum med xxx. manna a morkinne so sem fir hefur verid vandi Sysslumanna, sijdann kom þar Þorolfur med C. manna, spurdu vier þad til orda hanns, ad hann villdi taka ockur bada af lijfi brædur, og alla þa menn er ockur filgdu: og sann hann þad til saka, er þw Koongur hafder sellt ockur i hendur sysslu þa er hann villdi hafa, Þa sau vær þann hellst vorn kost ad fyrrast fund hanns og forda oss, og komu vær firir þa sok skamt fra bygdum a fiallid: Enn Þorolfur foor um alla morkina med her manns, og hafdi hann kavp oll, gulldu Finnar honum Skatt. Enn hann bæst i þvi ad Sysslumenn ydar skylldu ei koma a Mor-kina, ætlar hann ad gioraft Koongur yfer nordur þar, bædi yfer Morkinne og Haalogalandi: Og er þad undur er þier lætid honum hvervetna lijdaz. Munu hier sonn vitni til finnaz um fiedraatt þann er Þorolfur hefur af morkinne, þviad Knor sa er mestur var a Haalogalande, var bwinn i vor a Sandnesi, og var sagt ad Þor-olfr ætti eirn farm allann þann er a var, Hygg eg ad nær væri hladenn af grávoru, og þar higg eg ad finnast munde Bioor og Safalaskinn, meir enn þad er Þorolfur færdi þier, og for med þetta Þorgils Giallandi, ætla eg hann hafi siglt vestur til Einglands. Enn ef þw villt vita sannindi af þessu, þa halldid til nioosn um ferd Þorgils þa er hann fer avstur, þviad eg higg ad a eckert Kavpskip hafe komid jafnmikid fie a vorum dogum, ætla eg þad

sann

samnast ad seigia ad þier Koongur eigid hvorn pening þann er þar var a, þetta sonnudu Forunavtar hanns allt er Hárekur sagdi, enn hier voru ongver til mooti ad mæla.

## Cap. xviij.

Sigtriggur Snarfare og Hallvardur Hardfare hietu brædur ij þeir voru med Haralldi Koongi Vijkverskermenn, var moodurætt þeirra a Vestfolld, og voru þeir i frændsemis tolu vid Harald Koong. Fader þeirra hafdi kyn ætt tveim̃meigin Gavtelfar, hann hafdi Bw ætt i Hysing, og var madur stooravdigur, Enn þa hofdu þeir tekid vid arfi, epter fodur sinn. Þeir voru jv. brædur, hietu hiner Þórdur og Þorgeir, og voru þeir yngri. Þeir voru heima og riedu firi bwe. Þeir Sigtriggur og Hallvardur hofdu sendeferder Koongs allar bædi innann Lands og utann, og hofdu margar ferder farid er hæskasamlegar voru, bædi til aftoku manna, eda fieupptekta firir þeim mon̄um er Koongur lætur heimferder veita, Þeir hofdu Sveit mikla um sig, Ei voru þeir vingader Alþydumonnum, enn Koongur mat þa mikils, og voru þeir allra manna best færer bædi a fæte og a Skijdum, so og i Skipforum voru þeir hvatfæri enn adrer menn, hreystimenn voru þeir og miklir, og forsialer um flest, þeir voru þa med Koongi er þetta var tydinda. Um havstid foor Koongur ad veitslum um Hordaland. Þad var eirn dag ad Koongur liet kalla þa brædur Hallvard og Sigtrigg Enn er þeir komu til hanns sagdi hann þeim, ad þeir skylldu fara med sveit sijna og hallda nioosn um skip þad er Þorgils Giallandi for med, og hann hafdi i sumar vestur til Einglands, færid mier Skipid og allt þad er a er nema mennina, latid þa fara i brott leid sijna i fridi ef þeir vilia ecki veria skipid. Þeir brædur voru þess albwner, og tok sitt Langskip hvor þeirra, fara sijdan̄ ad leita þeirra Þorgils, og spurdu ad hann var vestann kominn, og hafdi hann sigltnordur med Landi. Þeir fara nordur epter þvi og hitta þad i Furusunde, kendu bratt skipid og logdu annad skipid a wtborda,

borda, enn sumer gengu a Land upp, og wt at Skipid af Briggiunum. Þeir Þorgils vissu sier einskis Otta ad von, og voruduft ecki, fundu þeir ei fir enn fioldi manns var uppa skipinu med Alvæpni, og þeir voru aller handtekner og leidder sijdann a land upp vopnlauser, og hofdu ecki nema Klædi ein, Enn þeir Hallvardur skutu wt briggiunum sloogu streingium, og droogu wt skipid snwa sidann leid sijna og sigldu sudur þar til þess er þeir fundu Koong, færdu honum Skipid og allt þad er a var. Enn er farmurinn var borinn af skipinu þaa saa Koongur ad þad var stoorfe, og ei var þad lijgi er Hárekur hafdi sagt um þad. Enn Þorgils og hanns fielagar feingu sier flutningar, og leita þeir a fund Kvølldulfs, og þeirra fedga, og sogdu sijnar ferder ei sliettar, feingu þar þo goodar vidtokur, sagde Kvølldulfur ad þaa mundi þar til draga sem honum hafdi hugur um sagt, ad Þorolfur mundi ei til alsendis giæfu til bera um Vinaattu Haralldz Koongs, og þætti mier ecki mikils vert um fielaat þetta er Þorolfur hefur mist nw, ef nw færi hier ei meira epter, Grunar mig enn sem fir ad Þorolfur mun ei gior kunna ad sia efne sijn vid ofurefli slijkt sem hann a ad skipta, og bad Þorgils so seigia Þorolfi, ad mitt raad er þad seiger hann ad hann fare wr lande a brott, þviad vera kann ad hann kome sier betur ef hann sæker a hond Einglands Koongi, Dana Koongi edа Svia Koongi. Sijdann feck hann Þorgilsi roodraskutu eina, og þarmed reida allann og so tiolld og vister og allt þad er þeir þurftu til ferdar sinnar, sijdann fooru þeir og liettu ei firre ferd sinne enn þeir komu nordur til Þorolfs og sogdu honum þad er til tijdinda hafdi ordid. Þorolfur vard vel vid Skada sinn, sagdi so ad hann mundi ecki fie skorta, er gott fielag ad eiga vid Koong. Sijdann keipte Þorolfur Miol og Mallt og þad annad er hann þurfte til framflutningar Lide sijnu, sagdi hann hwskarlar mundi ei so fagurbwner nw sem hann hefdi til ætlad um hrijd. Þorolfur selldi jarder sijnar enn sumar vedsette hann, enn hiellt upp kostnadi ollum sem fir, hafdi hann þaa og ecki færra Lid med sier enn hina fyrri vetur, helldur hafde hann nockud fleyri manna. So og um Veislur og heimbod vid Vine sijna, þaa hafdi hann meira efne um þad allt enn fyr: Var hann heima þann vetur allann.

Cap.

# Cap. xix.

Þaa er vor kom og snæ leisti og Ifa, þaa liet Þorolfur framsetia Langskip mikid er hann aatti, og liet þad bwa, og skipadi hwskorlum sijnum, og hafdi med sier meir enn C. manna, Var þad Lid hid frijdasta og vopnad allvel: Enn er byr gaf hiellt Þorolfur Skipinu sudur med landi: Og er hann kom sudur um Byrdu, þaa hielldu þeir wt leid firirutañ Eyar allar, enn stundum so ad sioor var i midium hlydum, lietu so ganga sudur firir Landid, og hofdu ei tijdindi af monnum fir enn þeir komu avstur i Vijk, þaa spurdu þeir ad Haralldur Koongur var i Vijkinne, og hann ætladi um sumarid ad fara til Upplanda: Ecki visśu Landsmenn til um ferder Þorolfs: Honum biriadi vel, og hiellt hann sudur til Danmerkur, og þadann i Avsturveg og heriadi þar um sumarid, og vard ecki gott til fiaar. Um havstid hiellt hann avstann til Danmerkur, i þann tijma er leistist Eyrarflote, þar hafdi verid um sumarid sem vant var fioldi skipa af Noregi, Þorolfur liet þad lid sigla allt firir, og giorde ecki vart vid sig. Hann sigldi einn dag ad qvølldi til Mostrasunds, þar var firir i hofninne Knør einn mikill komenn af Eyri, Þórer Þruma hiet madur sa er stijrdi honum, hann var Armadur Haralldz Kongs. Hann red firir Bwi hanns i Þrumu, þad var mikit bw, sat Koongur þar longum þaa er hann var i Vijkinne, þurfti þar stoor fong til bwsþess. Hafdi Þórer farid firir þaa sok til Eyrar ad kavpa þar Mallt og Hveite og Hunang, og varid þar til fe miklu er Koongur aatti: Þeir logdu ad Knerrinum, budu þeir Þórer kost aa ad veriast: Eñ firir þvi ad þeir Þórer hofdu ongvann Lidsafla ad veriaz moote fiolmenne þvi er Þorolfur hafdi, gaafuz þeir þvi upp, Took Þorolfur skip þad med ollum farme, enn setti Þórir upp i eyna; Hiellt Þorolfur þaa skipum þeim baadum nordur med Landi: Enn er hann kom firir Elfina, þaa laau þeir þar og bidu nætur: Enn er mirkt var, reru þeir Langskipinu upp i Ana, og logdu til bæar þess er þeir aattu Hallvardur og Sigtriggur. Komu þeir þar firir dag og slou mañhring uñ hwsin, æptu sijdañ Heroop, og voknudu þeir vid þad er iñe voru, og hliupu sijdañ upp til Vopna sinna, flydi Þorgeir þegar wt wr Svefnskemmunne,

Skijdgardur hær var um bæinn, Þorgeir hlioop ad Skijdgardinum, og greip hendinne um gardstavrinn, og kastadi sier wt yfer gardenn, þar var nær staddur Þorgils Giallandi, hann sveifladi til sverdinu epter Þorgeire, og kom æ hondina og took af vid gardstavrinn, hlioop Þorgeir sijdann til skoogar; Enn Þórdur brooder hanns var þar felldur, og meir enn xx. menn, sijdann ræntu þeir þar fie ollu og brendu bæenn, fooru sijdann wt epter Anni til hafs, þeim byriadi vel og sigldu nordur i Vijkina, þæ hittu þeir enn firir sier Kavpskip mikid er ættu Vijkveriar, hladid af Mallti og Miole. Þeir Þorolfur logdu ad skipi þvi, Enn þeir er firir voru þottust eingi fong hafa til varnar, og gæfust upp, gengu þeir æ Land upp slipper, Enn þeir Þorolfur tooku farminn med skipinu, og sigldu leidar sinnar, Hafdi Þorolfur þæ iij. skip er hann sigldi avstann um folldina og sigldi þæ þioodleid til Lijdandines, fooru þæ sem skyndilegast, enn hofdu ætid nioosner þar sem þeir komu vid, og hinggu strandhogg. Enn er þeir sigldu nordur fræ Lidandisnese, fooru þeir meir wr leid, Enn þar sem þeir komu vid Land þæ ræntu þeir. Enn er Þorolfur kom nordur firir fiordu þæ snere hann inn af leid, og foor æ fund Kvollduls fodur sijns og feingu þar goodar vidtokur; sagdi Þorolfur fodur sijnum hvad til tijdinda hafdi ordid i ferdum hanns um sumarid: Þorolfur dvaldiz þar litla hrijd, og leiddi Kvolld-Ulfur og þeir fedgar hann til skips, enn ædur þeir skildu toluduz þeir vid. Seiger Kvolldulfur, Ei hefur þvi fiæri farid Þorolfur sem eg sagdi þier þæ er þw foorst til Hirdar Haralld Koongs, ad þier mundi so utganga, ad hvorki mundi þier nie oss frændum þijnum hamingia at verda, Hefur þw nw þad ræd uptekid er eg varadi þig mest vid, er þw etur Kappi vid Haralld Koong. Enn þo þw siert vel bwinn ad hreysti og allre atgiorfi, þæ hefur þw þo ecki til þess giæfu ad hallda til jafns vid Haralld Koong, er ongvum hefur odrum endst hier i landi, þoott ædur hafi haft Rijki mikid og fiolmenni, er þad mitt hugbod ad þetta sie fundur ockar hinn sijdasti. Enn þad væri þo ad skopum firir Alldurssaker, ad þw lifder leingur ockar, Enn annann veg ætla eg ad verdi. Sijdann skildu þeir, steig Þorolfur æ skip sitt og hiellt æ burt leid sijna, er þæ ecki sagt fræ ferd hannsad til tijdinda yrdi ædur hañ kom æ Sandnes heim, og liet flitia til Bæar herfang þad allt er hann

haf

hafdi heim haft, enn setia upp skip sitt, skorti þa ei fong ad fæda lid sitt um veturinn, sat Þorolfur heima jafnann, og hafdi fiølmenni ei minna enn hina fyrri vetur.

## Cap. xx.

Madur hiet Jngvar, rijkur og avdugur, hann hafdi verid lendur madur hinna fyrri Koonga: Enn sijdann er Haralldur kom til Rijkis settist Jngvar heima, og þioonadi ecki Koongi. Jngvar var madur kvongadur, og ætti dottur er hiet Bera. Jngvar bioo i Fiordum. Bera var einbyrni hanns, og stood til Arfs epter hañ. Grimur Kvølld-ulfsson bad Beru til handa sier og var þad ad rædi giørt, fieck Grimur Beru þann Vetur er þeir Þorolfur høfdu skilid ædur um sumarid, var Grimur þa half þritugur ad alldri, og var þa skolloottur, sijdann var hann kalladur **Skalla-Grimur.** Hann hafdi þa forræd øll firi bwi þeirra fedga og tilsiun alla, Enn þo var Kvølld-Ulfur hress madur og vel fær. Margt høfdu þeir frelsingia med sier, og marga þa menn er heima þar høfdu uppvaxid, og voru nær jafnalldrar Skalla-Grims, voru þeir marger afrexmenn miklir ad Afli, þviad Kvølldulfur og þeir fedgar voldu menn miøg ad Afli til filgdar vid sig, og tomdu vid Skaplijnde sitt. Skalla Grimur var lijkur fødur sijnum ad Voxt og ad Afle, so og ad yferlitum og skaplinde.

## Cap. xxj.

Haralldur Kongur var i Vijkinne þa er Þorolfur var i hernadinum, og foor um havstid til Upplanda, og þadann til Þrandheims, og sat þar um Veturinn, og hafdi fiolmenne mikid; þar vooru þa med Koongi Hallvardur og Sigtriggur, og høfdu spurt hvornveg Þorolfur hafdi bwid ad Herbergium þeirra i Hysing, og hvorn mannskada og fiærskada ad hann hefde giørt þar, þeir mintu

Koong

Koong opt á þad, og so þad med ad Þorolfur hafdi rænt Kg. og þegna hanns, og farid med hernade þar innanlands. Þeir bádu Koong ordlofs til go þeir brædur skilldu fara med lidi þvi er vant var þeim ad filgia, og sækia heim ad Þorolfi. Koongur seiger, Vera mä so ad yckur þike saker til vid Þorolf, ad ræda hann af lijfi, Enn eg ætla ad yckur skorti mikid Hamingiu til þess verks, er Þorolfur ecki yckar make, þo ad þid þikist vera menn hravster eda vel ad yckur giørver. Þeir brædur seigia ad brått munde þad reint verda, ef Koongur vill þeim lof til gefa, og seigia ad þeir hafe opt lagt á hættu mikla vid þá menn er þeir áttu minna i ad hefna, og hefdi þeim optast ordid sigurs audid. Enn er voradi, þá biugguft menn ferda sinna. Þá var enn sem fyrr var sagt ad þeir Hallvardur og Sigtriggur brædur hielldu á þvi mále ad fara til og taka Þorolf af lijfe. Koongur seiger færid mier Þorolfs hofud ef þid vinned hann, þeir sogdust mundu hætta á þad, og hofdu C. manns med sier vel bwed, og sigldu á stad þá leidi siell, Nw er ad seigia frá þvi ad Haralldur Koongur sat þá á Hlodum er þeir Hallvardur biugguft nordur, og jafnskiott biooft Koongur sem skyndilegast og geck á skip med CCCC. manna og reru inn epter Firdinum, og so um Beitesiá inn til Elldueids. Liet hañ þar epter skipinn og fooru nordur um heidi og til Naumudals, Og took hann þar Langskip er bændur áttu geck hann þar á med lid sitt, hafdi hann hyrd sijna og nær CCC. manna. Hann hafdi mikenn hast á ferdenne. Þeir tooku Andvidri hvast og reru Nott og dag so sem gauga mátti, Nott var þá farlioos. Þeir komu aptann dags til Sandnes epter Solarfall og sáu þar firi bænum fliota Langskip mikid tialldad og tilbwid. Kendu þeir ad þad var skip þad er Þorolfur átti, Hafdi hann þad látid tilbwa, þviad hann ætladi af Lande i burtt. Enn þá hafdi hann heita látid Fararmuñgát sitt. Koongur bad menn alla ganga af skipum giorsamlega, liet hann færa upp merke sitt, Skamt var ad ganga til bæarinns, Enn Vardmenn Þorolfs sátu inne vid dryckiu, og vooru ei gengner á vordinn, og var eingi madur wte sat allr Lid inne vid drickiu. Koongur liet slá mannhring um stofuna, lustu þeir þá upp

herz

heroope, og var blaasid i Koongs ludur Herblaastur: Enn er þeir Þorolfur heyrdu þad, hlupu þeir til vopna, þviad hvers manns alvæpne hieck yfer rume hanns. Koongur liet kalla ad stofunne, og bad wtganga Konurnar og Ungmenne og Gamalmenne, Præla og Ambatter. Sijdann geck wt Sigridur hwsfreya, og med henne konur þær ed iñe voru, og adrer þeir menn er wtgongu var leift. Sigridur spurdi epter ef þeir væri þar syner Berdlukára, þeir geingu fram bader og spurdu hvad hwn villde þeim, filgid mier til Koongs seiger hwn, þeir giordu so enn er hwn kom til Koongs seiger hwn: skal mikid adgiora, maa ei fast ad sefest Ydar Reide, Eg vil sa vægd firer Boonda minn, Koongur svarar: vilie hann giefast a vora Naad, og vera minn Underdaane, þaa maa hann lifa ef hann vill; Epter þad gieck Avlver Hnúfa til Þorolfs og sagde honum hvorn kost Koongur giæfe honum, Þorolfur svarar, fir vil eg falla med Dreingskap, enn vera Koongsinns Underlæga alla mijna Lijfsdaga. Seig þw Koonge, seiger Þorolfur: ad eg bidie hañ ad lofa mier ad ganga wt, og veria mig med vopnum, og vit hvort eg hef ei mann firer mig. Avlver innte Koonge Andsvor Þorolfs, Koongur mælte: berid Elld ad Stofune, þvi eg vil ei tijna Lide mijnu, ætla eg Þorolfr mune giora oss mikinn mannskada ef hann kiemst wt. Sijdann var Eldur borenn ad Stofune og logade flioott, þvi tymbred var þurt og brædder Veggerner enn Næfrum þaked Ræfrid; Þorolfur bad menn sijna briota upp þilid, enn er þeir naadu tymburstocknum þaa tooku þeir marger eirn Stockinn sem a feingu hallded, og skutu odrum Endanum wti Hirninguna so hart ad næverner hrutu af firerutann og hlupu i sundur Veggerner, so þar vard wtgaangur mikill. Þorolfur gieck wt firstur, þaa Þorgils Giallande, þaa hver ad odrum, tokst þaa bardage og varade þad uñ hrid ad Stofann giætte ad bake þeim. Enn er hwn took ad brenna þo sookte Eldurinn ad þeim, fiell þaa margt lid, þaa sookte Þorolfur frañ og hioo til beggia handa og sookte þangad sem merke Koongs var, i þvi fiell Þorgils Giallande; Enn er Þorolfur kom fram ad Skialldborginne, þaa lagde hann igiegnum þann mann med Sverde er merke Koongs bar, þaa mælte Þorolfur nw geck eg þrem fotum til skamt, þaa stoodu a honum bæde Sverd og Spiot, Enn Koongur veitte honum banahogg, og fiell hann so daudur

 nidur

nidur. Koongur seiger hættum nw þessu slæge, þvi vier hofum feingid Sigur, talar sijdann til Avlvers Hnúfu, bijd þw hier epter, og grept-ra Þorolfs Lijk, og þeirra sem hier fiellu, enn græd þaa sem lijst er.

## Cap. xxij.

Harralldur Koongur liet græda þaa er lijfvæner voru, Enn ecki skal hier ræna seiger Koongur, þviad þetta er mitt fe, sijdann geck Koongur ofann til skipa sinna og flest Lid med honum. Enn er þeir vooru aa Skip komner, þaa tooku menn ad binda saar sijn. Kong-ur geck um skipid og leit aa Saar manna, hann saa hvar madur batt svodusaar eitt, Koongur seiger, ad ecki hefdi Þorolfur veitt þad saar, og allt bitu honum annann veg vopninn, þviad faaer ætla eg ad binde þau saarinn er hann veitte, og mikill skade er epter menn slijka. Enn þegar ad morgne dags liet Koongur draga segl sijn upp og sigldi sudur sem aftook, Enn er aa leid daginn, þaa fundu þeir Koongur rodrarskip mørg i hvoriu Eyarsundi, og hafdi lid þad ætlad til fundar vid Þorolf, þviad niooßner hanns høfdu verid allt sudur i Naumudal og vijda um Eyar, Høfdu þeir ordid vijser ad þeir Hallvardur brædur vooru komner sunnann med lid mikid og ætludu ad Þorolfi Høfdu þeir Hallvardur haft jafnann Andvidri, og høfdu þeir dvalist i ymsum høfnum til þess niooßn hafdi farid ef-ra um Land, og høfdu þess ordid varir niooßnarmenn Þorolfs, og hafdi þetta Herhlavp firir þaa sok vered, Koongur sigldi hardbiria til þess er hann fann skip sijn, sem hann hafdi epterlaatid, hiellt þaa þadann wt til Hlada. Spurdiz brautt þesse tijdindi, og komu firir þaa Hallvard þar er þeir laau sneru þeir þaa aptur til Koongs, og þootti þeirra ferd helldur hædileg. Þeir brædur Avlver Hnúfa og Eyvindur Lambi dvølduſt um hrid aa Sandnese, Lietu þeir bwa um val þennann er þar hafdi fallid, biuggu þeir um Lijk Þorolfs epter sidvenju, so sem tytt var ad bwa um lijk gøfugra manna, settu epter hann Bautasteina. Þeir lietu græda siwka menn, þeir skip-udu eignin til bws med Sigridi, var þar epter allur fiaarhlutr, enn

mest

mest hafdi innibrunnid hwsbwnadur og bordbwnadur og klædnadur manna. Enn er þeir brædur vooru bwner, þa fooru þeir þadann, og komu a fund Haralldꝰ Koongs er hann var i Þrandheimi, og vooru med honum um hrid. Þeir vooru hliooder og mælltu fꜳtt vid menn. Þad var einhvørn dag ad þeir brædur gengu firi Kong, þa mællti Aulver: þess ordlofs bidium vier þig brædur Herra Koongur, ad þw lofer ockur heimferd til bwa ockara, þvi hier hava þav tijdindi giorst, ad vid berum ei skaplindi til ad hafa drickiusess vid þa menn er baaru vopn a Þorolf þvi hann var frændi ockar. Koongur leit vid honum og mællte reiduglega: þid skulud samt, vera kirrer i hird minne og þiggia somu koste og adur hofdud, þeir geingu aptur til sijns sætes, og svorudu avngvu. Annann dag seiger Koongur vid þa, Nw skulu þid sꜳ seiger Koongur, þad er þid beidiz af mier, þviad þid hafid verid hier um hrijd med mier og verid vel sidader, og jafnann vel dugandi, hefur mier til yckar um alla lute jafn vel hugnad. Nw vil eg Eyvindur ad þw farer nordur a Haalogaland og vil eg gipta þig Sigridi a Sandnese konu þeirre er Þorolfur atti; Vil eg gefa þier fie þad allt er Þorolfur atti, skalltu þar hafa vinattu mijna ef þw kant til ad giæta. Eñ Aulver skal mier filgia, vil eg hann ecki missa nie lavsann lꜳta saker iþrootta hanns. Þeir brædur þockudu Koongi þann sooma er hann veitti þeim, sogdu ad þeir villdu þad fwslega þeickast. Bioost Eyvindur þa til ferdar, feck sier gott skip, þad er honum hæfdi. Feck Koongur honum jardtegner sijnar til rꜳds þessa, greiddist ferd Eyvindar vel og kom fram nordur i Aulost a Sandnese. Sigridur took vel vid þeim. Sijdann bar Eyvindur fram jardtegner Koongs, og erindi sijn firi Sigridi og hoof boonord sitt vid hana, seiger ad þad var Koongs ordsending ad Eyvindur nædi rꜳdi þessu. Enn Sigridur sꜳ þann eirn sinn kost so sem þa var komid ad lꜳta þa firir rꜳda, fooru þau rꜳd fram ad Eyvindur feck Sigridar, took hann þa vid bwi a Sandnese, og vid fie þvi ollu er Þorolfur hafdi att. Var Eivindur gofugur madur, Sonur þeirra var Finnur Skiálgi, fader Eyvindar Skálldaspilles og Geirlavg er atti Sigvatur Ravdi. Finnur hinn Skiálgi atti

 Gunn-

Gunnhilldi dootter Haldanar Jalls. Mooder hennár var Ingebiørg dootter Haralldz Koongs hins Hárfagra. Eyvindur Lambi hiellst i vinættu vid Koong medann þeir lifdu.

## Cap. xxiij.

Ketill Hængur hiet madur son Þorkels Naumdælajarls og Hrafnhilldar dootter Ketils Hængs wr Hrafnistu. Hængur var gofugur madur og ægiætur, hann hafdi verid hinn mesti vinur Þorolfs Kvølldulfssonar, og var hønum skylldur. Hann var þaa i wthlaupi þvi er lidsafnadur var a Haalogalandi, og menn ætludu til lids vid Þorolf so sem fyr var ritad. Enn er Haralldur Koongur foor nordann og menn urdu varer vid ad Þorolfur var af lijfi tekinn, þaa rufu þeir Safnadinn. Hængur hafdi med sier lx. maña, og snere hann til Torga, Enn þar vooru firir Hilldridar syner og høfdu mikid rijki; Enn Ketill Hængur kom a bæinn og veitte haū þeim Adgongu, fellu þar Hilldridar syner og þeir menn flester er þar vooru, Enn þeir Ketill Hængur tooku sie allt þad er þeir feingu: Epter þad tekur Hængur Knorru tvo þaa er hann feck mesta, liet þar bera wtaa sie þad allt er hann atti og hann maatti med komaz; hann hafdi med sier konu sijna og børn, og so þaa menn alla er ad þeim verkum høfdu verid med hønum. Baugur hiet madur fostbrooder Hængs ættstoor madur og audigur, hann stijrdi ødrum Knerrinum, Enn er þeir vooru bwner og bir gaf, þaa sigldu þeir i haf wt. Faam Vetrum adur høfdu þeir Ingolfur og Hiørleifur farid ad byggia Island, og vard mønnum þaa alltidt umrædt þessa ferd, sogdu menn þar vera Landskosti allgooda. Hængur sigldi vestur i haf og leitadi Islands, Enn er þeir urdu vid Land varer, þaa voru þeir firir sunnan Land adkomner. Enn firir þvi ad vedur var hvast enn brim a Landid og ecki hafnligt, þaa sigldu þeir vestur um Landid firi sandana, Enn er Vedrid took ad minka og lægia brim, þaa vard firi þeim Aroos mikill, og hiellду þar skipinu upp i Aana og løgdu vid hid Eystara Landid, su A heiter nw Þioorsaa, fiell hun þaa miklu þravngra og diwpara enn nw. Þeir ruddu skipinn, tooku þaa

ad kanna Landid firir Avstann Ana og fluttu epter sier Bwse sitt. Var Hængur hin fyrsta vetur firir Avstann Rangaa hina itri, Eñ um vorid kannadi hann Avsturlandid, og nam þaa Lond milli Þiosaar og Markarfliots a milli fialls og fioru, og bygdi ad Hofi vid Rangaa hina Eystre, Ingun kona Hængs fæddi barn um vorid þaa er þau hofdu þar verid hinn fyrsta Vetur, og hiet þad barn Rafn. Enn er hws voru þar ofann tekinn voru þar sijdann kalladar Hrafnatopter. Hængr gaf Bavgi Land i Fliootshlijd ofann fraa Merkiaa til Arinnar firir utañ Breidabolstad, og bioo hann ad Hlydarenda. Fraa Bavgi er kominn mikil kynslood i þeirre sveit. Hængur gaf Land Skipverium sijhum, eñ selldi sumum vid litlu verdi, og eru þeir Landnaamamenn kallader. Storolfur hiet son Hængs, hann aatti Hvolin og Storholsvoll, hañs son var Ormur hinn sterke. Heriulfur hiet annar son Hængs, hann aatti Land i Fliootshlijd til mots vid Bavg, og wt til Hvolslækar, hañ bioo under Breckum. Sonur hanns hiet Sumarlidi fader Veturlida Skaallds. Helge var hinn þridie son Hængs, hann bioo aa Velle, og aatti land til Rangaar id efra ofann til mots vid brædur sijna. Vestri hiet fiorde son Hængs, hann aatti Land firir avstann Rangaa milli Þver aa, og hinn nedra lut Storholsvallar, hann aatti Ulbeidi dotter Hilldis wr Hilldisey, þeirra dotter var Asny, er aatti Ofeigur Grettir. Vestre bioo ad Mooeidarhvoli. Helgi Hængsson aatti Mobil, dotter Hallgeirs wr Hallgeirsey, þeirra dotter var Helga er aatti Oddbiørn Askasmidur, er Oddbiarnarleid er vid kend. Hrafn var hinn fimte Hæng son, Hann var fyrsti Løgsøgumadur aa Islande, hann bioo ad Hofi epter fodur sinn. Þorlavg var dotter Hrafns er aatte Jørundur Góde. þeirra son var Valgardur ad Hofe. Hrafn var gøfugastur sona Hængs.

## Cap. xxiv.

Kvøllds-Ulfur spurdi fall Þorolfs sonar sijns, vard hann hryggur vid þesse tijdindi, so ad hann lagdist i Reckiu af harmi og elli, Skalla-Grimur kom opt til hanns og taldi um firi honum, bad hann hressa sig. sagdi ad allt var annad adhæfilegra firi hann enn græta og leggiaz i kor.

Er hitt hreystiligra ad vier leitum til Hefnda epter Þorolf, Maa vera ad vier komum i færi vid nockra þaa menn er verid hafa ad falli Þorolfs Enn ef þad er ei þaa munum vier drepa þaa menn er vier munum naa, og Kongi þikir nockur skadi i, og sier moti skapi. Kvølldulfur qvad visu

Nú frá eg nordann uidra Norner eru grim til sumra,
Þundur fiell þremia vandar, Þorolf und lok fórum.
Krimur þúng-ad þíngi, Þorsfang vina ad ganga, Skiótt
mun ad heffnt þótt hvette, Hugur meglunar brugdid.

Harralldur Koongur foor þad sumar til Upplanda, og um havstid vestur aa Valldurnes og allt aa Vors. Avlver Hnúfa var opt med Koongi og kom opt aa maal vid Koong, hvort hann villdi ei bæta Þorolf, veita Kvølld-Ulfi og Skalla-Grime fiebætur eda mannsooma þann nockurn er þeir mætti vid una, Koongur varnadi þess ei med øllu ef þeir fedgar færi aa fund hanns, sijdann foor Avlver nordur i fiordu, lietti ei fyr enn hann kom ad qvolldi dags til þeirra fedga, tooku þeir þackſamlega vid honum dvaldist hann þar nockra hrijd. Kvølldulfur spurdi Avlver fraa atburdum þeim er giorst høfdu aa Sandnese þaa er Þorolfur fiell, svo ad þvi hvad Þorolfur vann til frama aadur hann fiell, svo og hvorier vopn baaru aa hann eda hvar hann hafdi mest saar, eda hvorn veg fall hanns yrdi: Avlver seiger allt þad er hann spurde, so þad ad Harralldur Koongur veitti honum saar þad er ærid mundi eitt til bana og Þorolfur fiell nær aa fætur Koongi aa grufu. Þaa svarar Kvølldulfur: Vel hefur þu sagt, þviad þad hafa gamler men mællt, ad þess manns mundi hefnt verda ef hann fielli aa grufu, og þeim nær koma hefndinn er firir yrdi er hinn fielli, Enn olijklegt er ad oss verdi þeirrar Hamingiu avdid, Avlver seiger þeim fedgum ad hann vænti ef þeir villdu fara aa fund Koongs, og leita epter bootum, ad þad mundi soomafør verda, og bad þaa til þess hætta, og lagdi mørg ord til; Kvølldulfur seigir: ad hann væri hvorgi fær firir Ellisaker, mun eg vera heima seiger hann. Villtu fara Grímur seiger Avlver: Eckert Erindi ætla eg mig eiga seiger Grímur: mun Koongi þikia jeg ecki ordsniallur, ætla eg mig ecki leingi muni bidia bootanna; Avlver seiger ad hann mundi þess ei þurfa: skulu vier mæla allt firir hønd þijna slijkt er

vier kunnum. Enn nw þvi ad Avlver sotti þad maal miøg, þaa hiet Grímur ferd sinne þaa er hann þættist bwinn, kvaadu þeir Avlver aa med sier þaa stund er Grímur skilldi koma aa Koongs fund, Foor þaa Avlver fyrst aa brott og til Koongs.

## Cap. xxv.

Skalla-Grímur bioost til ferdar þeirrar er fyr var fraasagt; Hann valdi sier Lid af heimamønnum sijnum og naabwum, þaa er vooru sterkaster ad afli og hravstaster þeirra er til vooru. Madur hiet Ani boondi eirn avdugur, annar hiet Grani, þridie Grímolfur og Grímur brooder hanns, og þeir bræditr Þorbiørn Krumur og Þórdur Beigalldi þeir vooru kallader Þorunnar syner, hun bioo skamt fraa Skalla-Grími og var fiolkunnug. Beigalldi var Kolbitur. Eirn hiet Þórer Þuss, og brooder hanns Þorgeir Jardlangur. Eirn hiet Oddur Einbúi, og Gris Lavsingi. xij. Voru þeir til fararinnar og aller hiner sterkustu menn og marger Hamramer, þeir hofdu roodrarferiu er Skalla-Grímur aatti, fooru so sudur med Landi logdu inn i Ostrar-fiord, fooru þaa landveg uppaa Vors til Vatns þess er þar verdur firir, Enn leid þeirra bar so til, ad þeir skylldu þar yfer fara, feingu þeir sier roodrarskip þad er vid þeirra hæfi var, reru sijdann yfer vatnid, Enn þaa var langt til bæar þess er Koongur var aa veislu. Komu þeir Skalla-Grímur þann tijma er Koongur var geingenn til borda, þeir hittu menn ad maali wti gardinum, og spurdu hvad þar var tijdinda, Enn er þeim var sagt, þaa bad Skalla-Grímur kalla til maals vid sig Avlver Hnúfu. Saa madur geck inni stofuna og þar til er Avlver sat, og seiger honum: Menn eru hier komner wti xij. samann ef menn skal kalla, eñ lijkare eru þeir þussum ad vexti og syn enn mennskum mønnum, Avlver kende þaa þegar og geck wt, þottist hann vita hvorier komner mundu, fagnadi hann vel Grími frænda sijnum, og bad þaa ganga inni stofu med sier, Grímur seiger forunavtum sijnum, þad mun hier vera sidur ad menn gangi ei miøg fiolmenner firir Koong, skulu vier ganga inn vj, enn adrer vj. skulu vera wti og giæta Vopna vorra, sijdann ganga þeir

inn, geck Avlver firir Koong, Skalla-Grímur stood a baki honum. Avlver took til maals: Nw er Skalla-Grímur hier kominn so Kvølldulfs, erum vier nw aafwsaster Koongur ad Þier giörid hanns for gooda hiedann, so sem vær væntum ad Þier munud giöra, Eru Þeir marger af ydur sæmder miklu er til innna eru komner enn hann, og hvorgi nær eru jafnvel ad sier giörver um flestar iÞrootter sem hann mun vera, Muntu Þvi og Þad giöra Koongur ad mier Þikir mestu maali skipta ef vel er giört. Avlver taladi langt og sniallt, Þviad hann var ordfær madur. Marger adrer viner Avlvis geingu firir Koong og fluttu Þetta maal. Koongur litadiz um hann saa ad madur stood a bake Avlvis hofdi hæri enn adrer menn og skolloottur. Er Þetta hann Skalla Grímur seiger Koongur hinn mikli madur; Skalla-Grímur seiger ad hann kendi riett. Eg vil Þaa seiger Koongur ef Þw beidiz boota firir Þorolf ad Þw giörist minn madur, og ganger hier i hirdløg, og Þiooner mier, maa mier so vel lijka Þijn Þioonusta, ad eg veite Þier bætur epter brooður Þinn eda adrar sæmder ecki minne enn eg veitti honum Þorolfi broodur Þijnum, og skyllder Þw betur kunna ad giæta enn hann ef ad eg giörda Þig ad so miklum manne sem hann var ad mier. Skalla-Grímur svarar: Þad var kunnugt hvorsu miklu Þorolfur var framar enn eg ad sier giör um alla luti, og hafde hann ei giæfu til ad Þioona Þier Koongur. Nw mun eg ecki taka Þijn raad, og ei mun eg Þioona Þier, Þviad eg veit ad eg mun ei giæfu til bera ad veita Þier Þaa Þioonustu sem eg mundi vilia og vert væri, hygg eg ad mier mune verda meiri muna vant enn Þorolfi. Koongur Þagdi, og setti hann dreyrraudann a ad sia, Avlver snere Þegar i brott, og bad Þaa ganga wt Þeir giördu so, geingu wt og tooku vopn sijn, bad Avlver Þaa fara i brott sem skiootast, Geck Avlver a leid med Þeim til vatnsins og marger menn med honum, aadur Þeir Skalla-Grímur skildu mællti Avlver: Annann veg var for Þijn Grímur frændi til Koongs enn eg munda kioosa; Fysta eg Þig hingad fararinnar, enn nw vil eg hins bidia ad Þw farer heim sem skyndilegaz, og Þad med ad Þw komer ei a fund Haralldz Koongs, nema betre verdi saatt yckar enn mier Þiker nw a horfaz, og giæt Þijn vel firir Koongi og hanns monnum, Siidann fooru Þeir Grímur yfer vatnid: Enn Þeir Avlver geingu Þar til er skip Þau vooru er upp vooru sett vid

Vat-

Vatnid og hiuggu þau so ad ofær vooru, þviad þeir sau mannafor ofann fra Koongsbænum, voru þeir menn marger samann og vopnader miøg, og fooru æsilega, þa menn hafdi Haralldur Koongur sent epter þeim til þess ad drepa Grim. Hafdi Koongur tekid til orda litlu siidar enn þeir Grimur hofdu wtgeingid og sagt svo: Þad sie eg a Skalla þeim hinum mikla ad hann er fullur upp ulfudar. og hann verdur ad skada þeim monnum nockrum er oss mun þikia afnaam i ef hann næer, meigi þier þad ætla þeir menn sem hann mun kalla ad i sokum sie, þvi ad sa Skalli mun ongvum þeim vægia edur ydur spara, ef hann kemst i færi. farid nw þvi epter honum og drepid hann. Siidann fooru þeir og komu til vatnsins og feingu þar eingi skip þau er fær væri, fooru aptur siidann, og sogdu Koongi siina ferd, og so þad ad þeir Skalla-Grimur mundi komner yfer vatnid. Skalla-Grimur foor leid siina, og foruneite hanns, til þess er hann kom heim. Sagdi Skalla Grimur Kvolld-Ulfi fra ferdum þeim, Kvølld Ulfur liet vel yfer þvi er Grimur hafdi ei farid til Koongs þess Erindis ad ganga til handa honum, sagdi enn sem fyr ad þeir mundi af Koongi hlioota Skada eirn enn ongva uppreisn.

Kvølld Ulfur og Skalla Grimr ræddu opt um raadagiord siina og kom þad allt ásamt med þeim, søgdu so ad þeir mundu ecki meiga vera þar i Landi helldur enn adrer menn þeir er i Osætt væri vid Koong, og mundi þeim hitt raad ad fara af landi brott, og þotti þeim þad sisilegt ad leita til Islands, þviad þa var sagt þar vel fra Landskostum, þar vooru þa komner viner þeirra og kunningiar Ingolfur Arnarson og forunautar hanns, og tekid sier landkosti og bwstadi a Islandi, maattu menn þar nema sier lond okeipis, og velia bwstadi. stadfestist þad hellst med raadagiord þeirra, ad þeir mundu bregda bwi siinu og fara af landi brott. Þórer Hróalldsson hafdi, verid i barnæsku a foostri med Kvølldulfi, og voru þeir Skalla-Grimur miøg jafnalldra, var þar allkiært i foostbrædralagi. Þórer var ordinn lendur madur Koongs er þetta vard tiidinda, Enn vinaatta þeirra Skalla-Grims hiellst avallt.

Snemma um vorid bwggu þeir Kvølldulfur skip siin, Þeir hofdu mikinn skipakost og goodann, biuggu tvo Knorru mikla og hof-

 du

du a hvorium xxx. manna þeirra er lidfærer vooru, umfram konur og ungmenne; Þeir hofdu med sier lavsafie allt þad er þeir mættu med komaz, Enn jarder þeirra þordi einginn madur ad kavpa firir Rijki Koongs. Enn er þeir vooru bwner þaa sigldu þeir i brott. Þeir sigldu i Eyar þær er Solunder heita, þad eru margar eyar og stoorar, ogso miøg vogskornar ad þad er mællt ad fæer menn muni vita þar allar hafner.

## Cap. xxvj.

Guttormur hiet madur son Sigurdar Hiartar Hann var moodurbrooder Harallds Koongs og fosturfader Koongs og raadamadur firir lidi hanns, þviad Koongur var þaa a barnsalldre, fyrst er hann kom til Rijkis. Guttormur var Hertogi firir lidi Harallds Koongs, þaa er hann vann lønd under sig og var hann i øllum orrustum þeim er Kongur aatti þaa er hann geck til Lands i Noregi. Enn er Haralldur var ordinn Einvallds-Koongur yfer landi øllu og hann settist um kyrt, þaa gaf hann Guttormi frænda sijnum Vesturfolld, Austuragder og Hrijngarijki og Land þad allt er aatt hafdi Haldan Svarti fader hanns. Guttormur aatti sonu ij. og dætur ij. Syner hanns hietu Sigurdur og Ragnar, enn dætur hanns Ragnhilldur og Aslavg. Guttormr took soott, Enn er ad hønum leid, þaa sendi hann a fund Harallds Koongs og bad hann siaa firir børnum sijnum og firir Rijki sijnu. Litlu sijdar andadist hann. Enn er Koongur spurde andlaat hanns, þaa liet hann kalla til sijn Hallvard Hardfara og þaa brædur, sagdi ad þeir skilldu fara sendifør hanns avstur i Vijk, Koongur var þaa staddur i Þraandheime, þeir brædur bigguz til ferdar sem veglegaz, vøldu sier lid og høfdu skip þad er þeir feingu best þeir hofdu þad skip er aatt hafdi Þoorolfur Kvølldulfsson, og þeir hofdu tekid af Þorgilsi Giallanda. Enn er þeir vooru bwner ferdar sinnar, þaa seiger Koongur þeim erindi ad þeir skilldi fara avstur til Tunsborgar, þar var þaa Kavpstadur, þar hafdi Guttormur haft adsetur, skulu þier seiger Koongur: færa mier sonu Guttorms enn dætur hanns skulu þar uppfædaz til þess er

eg gipte þær. Skal eg fá menn til ad vardveita Rijkid og veita meyiunum foostur. Enn er þeir brædur vooru buner, þa fara þeir leid sijna og biriadi þeim vel komu þeir um vorid i Vijk austur til Tunsbergs og bæru þar fram Erindi sijn: tooku þeir Hallvardur vid sonum Guttorms og miklu lavsasie, fara þeir þa er þeir vooru bwner aptur a leid, biriade þeim þa nockrum mun seirna, og vard ecki til tijdinda i þeirra ferd firr enn þeir sigldu nordur um Sognsæ bir goodann og biartvedur, og vooru þa allkæter.

# Cap. xxvij.

Kvølld-Ulfur og þeir Skalla-Grímur hielldu nioosnum jafnann um sumarid inn a þioodleidinne. Skalla-Grímur var hvorium manne skignari, Hann sa siglijng þeirra Hallvardar, og kendi skipid, þviad hann hafdi þad skip sied firr, þa Þorgils foor med. Skalla-Grímur hiellt vord a um ferd þeirra hvar þeir logdu til hafnar um qvolldid, sijdann fer hann aptur til lids sijns, og seiger Kvølld-Ulfi þad er hann hafdi sied, svo þad hann hafdi kent skipid, þad er Hallvardur hafdi tekid af Þorgilsi og Þorolfur hafde ætt; Og þar mundi þeir menn nockurer filgia er veidur mundi i vera. Sijdann bwaz þeir a tveimur bætum, og hofdu xx. mēn a hvorium: Styrdi odrum Kvølld-Ulfur enn odrum Skalla-Grímur rooa þeir sijdann og leita skipsinns, Enn er þeir komu ad þar er skipid la, þa logdu þeir ad landi; Þeir Hallvardur hofdu tialldad yfer skipe sijnu og hofdu þa lagst til svefns. Enn er þeir Kvølld-Ulfur komu ad þeim, þa hlupu Vardmenn upp er vooru vid briggiusporoinn, og kolludu a Skip wt, bædu menn uppstanda sogdu ad Ofridur foor ad þeim. Hlupu þeir Hallvardur til vopna sinna Enn er þeir Kvølld-Ulfur komu ad briggiusporoi, þa geck hañ wt ad Skutbriggiu, enn Skalla-Grímur geck fram briggiuna. Kvølld-Ulfur hafdi i hende bryntroll, Enn er hann kom a skipid þa bad hann menn sijna ganga id itra med bordum og hoggva tiolldinn wr klofum, Enn hann od aptur til Liptingarinnar, og so er sagt ad þa

F 2 ham

hamadist hann, og fleire vooru þeir forunavtar hanns er þa hømuduſt, þeir dræpu menn þa alla er firir þeim urdu, slijkt hid sama giørdi Skalla-Grímur þar ed hann foor, lettu þeir fedgar ei fyrr eñ hrodid var skipid. Enn er Kvølld-Ulfur kom aptur ad Liptingunne reiddi hann upp Bryntrollid og hoggur til Hallvards igegnum Hiælminn og Hofudid, og sock allt ad Skapte, hnikte hann þa so hart ad sier, ad hann bra Hallvardi a lopt og slengdi honum wtbordis. Skalla Grímur ruddi fram stafnin og drap Sigtrigg, margt hlioop manna a kaf, Enn menn Skalla-Gríms tooku bætinn er þeir hofdu þangad hast og reru til, og dræpu þa alla er a sundinu vooru, þar lieſt alls maña Hallvards meir enn 50. menn. Enn þeir Skalla-Grímur tooku skipid það er þeir Hallvardur hofdu þangad hast og fe allt sem a var, þeir tooku Hondum menn ij. eda iij. þa er þeim þotte sem minster vera firer sier, og gæfu grid, og hofdu tidindi af þeim, freittu hvorier menn hefdu verid a Skipinu, og so hvornveg ferd þeirra hefdi verid hættud, Enn er þeir vooru vijser ordner alls hins sanna þa konnudu þeir Valinn þañ er a skipinu læ, fannst þeim það þa a, ad meire hlutur manna hafdi firir bord hlavpid og hofdu tijnst enn það er fallid hafdi a skipinu, þeir syner Guttorms hofdu firirbord hlavpid, og høfdu tijnst, þa var annar þeirra xij vetra enn annar x. og hiner vænleguſtu menn. Sijdann liet Skalla-Grímr lavsa fara þa menn er hann hafdi grid gefid og bad þa fara a fund Haralldz Koongs og seigia honum vandlega fra þeim tijdindum er þar giørduſt og so hvorier þar høfdu ad verid, skulu þier seiger hann: bera til Koongs qvedlijng þennann.

Nú er Herſis heffnd vid Hilmir effnd. geingur Ulfur og
Ø:n, Of Inglings børn flugu Hoggvinn Hræ, Hallvards
á Sæ, grár slítur under are Snarfara.

Sijdann fleyttu þeir Grímur Skipinu wt til skipa sinna med farminum skiptu þa Skipunum, Hloodu þetta er þa hefdu þeir feingid, eñ ruddu hitt er þeir høfdu ædur og minna var, bæru þar a grioot, og brutu þar a ravfar og soktu nidur sigldu sijdann a haf wt þegar byr gaf.

So er sagt ad þeim monnum væri varid er hamramer vooru eda þeim er Berſerksgangur var a, medann það var framid þa voru þeir so

so sterkir ad eckert hiellst vid þeim, Enn first er af var gengid þa vooru þeir Omatkare enn ad vanda. Kvølld-Ulfur var og so þa er af honum geck hamremmin þa kendi hann mædi af sookn þeirre er hann hafdi veitt og var hann þa af øllu samann Omættigur, so ad hann lagdist i reckiu, Enn byr bar þa i haf wt, Kvølld-Ulfur red firir skipi þvi er þeir høfdu tekid af Hallvardi, þeim biriadi vel og hielldu miøg samfloti so ad hvorer vissu løngum til annara, Enn er soottist hafid, þa ølnar soott a hendur Kvølld-Ulsi: Enn er dróo ad þvi ad hann var bauvænn, þa kalladi hann til skipmanna sinna og seiger þeim ad hønum þootti lijklegt ad þa mundi brátt skilia vegu þeirra, hef eg seiger hann: ecki kvellingasamur verid, Enn ef so fer sem nw þiki mier liklegast, ad eg anndumst, þa giorid mier kistu og latid mig fara firir bord, og fer þetta annann veg enn eg hugda ad fara mundi, ef eg skal ecki koma til Islands og nema þar Land, þier skulud bera qvediu mijna Skallagrime syni mijnum, þa er þier finnist, og seigia hønum þad med, ef so verdur ad hann kemur til Islands, og bere so ad þoott þad meigi olijklegt þikia, ad eg sie þar firri, þa take hann sier þar Bwstad sem næst þvi er eg hefi ad Landi komid. Litlu sijdar andadist Kvølld-Ulfur, giørdu skipveriar so allt sem hann hafdi firirsagt, ad þeir løgdu hann i kistu og lietu sijdann firir bord. Grimur hiet madur son Ketilssonar Kiølfara, kynstormadur og audugur, hann var Skipverie Kvølld-Ulfs, hañ hafdi verid alldavinur þeirra fedga og hafdi verid i ferdum bædi med þeim og Þorolfi, hafdi og feingid reidi Koongs firir þa sok, ad hann took til forada skipid, epter þad Þorolfur var daudur. Eñ er þeir voru komner vid Island, þa sigldu þeir sunnann ad landinu þeir sigldu vestur firir landid þviad þeir høfdu þad spurt ad Ingolfur hafdi sier þar bwstad tekid. Enn er þeir komu firir Reikianes, Og þeir sau firdinum uppluka, þa stefna þeir inn i fiordinn baadum skipum, Vedur giørdi hvast og væta mikil og þoka, skildiz þa skipiñ sigldu þeir iñepter Borgarfirdi til þess er þravt sker øll, kostudu þa Ackerum til þess er vedur lægdi og lioost giorde, þa bidu þeir flædar, Sijdann fluttu þeir Skipid upp i Aroos nockurn su er nw er kollud Gufua. Leiddu þar skipid upp epter Aune so sem geck, baaru sijdann farm af skipinu, og bigguz þar um hinn fyrsta vetur, þeir konnudu Landid med sæ, bædi upp og ut.

Enn er þeir høfdu skamt farid, þa fundu þeir i Vijk eirne hvar upp var komin kista Kvølldulfs, fluttu þeir Kistuna a nes það er þar var settu hana þar nidur og hloodu ad grioote.

## Cap. xxviij.

Skalla-Grímur kom þar ad Landi er nes mikid geck i sioo wt, og eidi mioott firir ofann nesid, og bꜳru þar farm af, það kolludu þeir Knarrarnes. Sijdann kannadi Skalla-Grimur Landid, og var Myrlendi mikid, og Skoogarvider, Langt var i milli Fialls og Fiora Selveidar gnoogar og Fiskifang mikid. Enn er þeir kønnudu Landid sudur med sioonum, þa vard firir þeim fiørdur mikill. Enn a þeir fooru inn med firdi þeim, þa liettu þeir ei firr ferdinne, enn þeir fundu førunauta sijna, Grím hinn Hꜳleiska og þa hina, vard þar fagnadarfundur, søgdu þeir Skalla-Grimi ad Kvølldulfur var þar til lands kominn og þeir høfdu hann jardad, sijdann filgdu þeir Skalla-Grími þar til og syndu honum sosem þadann mundi skamt a brott það er boolstadargiørd good mundi vera, foor Skalla-Grímur þa i brott og aptur til skipveria sinna, og satu þar hvorer um Veturinn sem þeir høfdu ad komid. Þa nam Skalla-Grímur þar land mille fialls og fioru, Mijrar allar wt til Selalons og hid efra til Borgarhravns, Enn sudur til Hafnarfialla og allt það Land er Vatsfoll deila til Siooar. Hann flutti um vorid epter skipid sudur til fiardarins, og inni vog þann er næstur var þvi er Kvølldulfur hafdi til Lands komid, og sette þar Bæ, og kalladi hann Borg, Enn fiørdinn Borgarfiord, ogso Hieradid uppfra kendu þeir vid fiørdinn. Grime hinum Hꜳleiska gaf hann bwstad firi sunnann Borgarfiord þar ed kallad var a Hvanneyri, þar skamt wt fra skarst inn vijk ein ei mikil, fundu þeir þar Ander margar, og kolludu Andakijl, Enn Andakilsa er þar fiell til siooar, uppfra a þeirre til þeirrar aar er kollud var Grijmsa, þar i milli atti Grímur Land. Um vorid þa er Skalla-Grímur liet reka kvikfie sitt utann med sioo, þa komu þeir a nes eitt, og veiddu þar Alpter

ter nockrar, og kolludu Alptanes. Skalla-Grímur gaf land Skipverium sijnum, Ana gaf hann Land milli Langaar og Hofslækiar og bioo hann ad Anabrecku, son hanns var Avnundur Sióne. Grímolfur biggdi fyrst a Grimolfstodum, vid hann er kend Grimolfsfit og Grimolfslækur. Grímur hiet son hanns er bioo firir sunnann fiord, hanns son var Grimar er bioo a Grimarstodum, um hann deilldu þeir Þorsteirn og Túngu Oddur. Grani bioo ad Granastodum i Digranese, Þorbirne Krum gaf hann land upp med Gufua og Þórdi Beigallda, bioo Krumur ad Krumshoolum, enn Þordur ad Beigallda. Þórer Þuss og þeim brædrum gaf hann land upp fra Einkunnum, og hid itra med Langa. Þorer Þuss bioo ad Stodum, hanns dootter var Þordís Støng er bioo i Stangarhollte sidann, Þorgeir bioo a Jardlangstodum. Skalla-Grímur kannadi land um hierad, foor first inn med Borgarfirdi, til þess er fiordinn þravt, enn sijdann med Anni firir vestann, er hann kalladi Hvijta. Þviad þeir forunavtar hofdu ei fyrr sied Votn þav, er wr Joklum hofdu fallid. Þootti þeim Ainn undarlega lit. Þeir fooru upp med Hvita þa kolludu þeir Nordura, og fooru upp med þeirre a til þess er enn vard A firir þeim, og var þad lijtid Vatnsfall, fooru þeir yfer A þa og enn upp med Nordura, sa þa brꜳtt hvar hin litla Ainn fiell wr glwfrum og kolludu þa Glwfur a, sijdann fooru þeir yfer Nordura, og fooru aptur enn til Hvitaar og upp med henne, vard þa enn brꜳtt A su er þvers vard firir þeim og fiell i Hvita, þa kolludu þeir Þvera: Þeir urdu þess varer ad þar var hvort Vatn fullt af fiskum, sijdann fooru þeir wt aptur til Borgar.

## Cap. xxix.

Skalla-Grímur var idiumadur mikill, hann hafdi med sier jafnann margt manna liet sækia miog føng þav er firir vooru, og til atvinnu monnum voorn, þviad þa fyrst hofdu þeir fꜳtt kvikfiꜳr hia þvi sem þurfti til fiolmennis þess er var. Enn þad sem var Kvikfiꜳrins, geck øllum vetrum siꜳlfala i skoogum. Skalla-Grímur var Skipasmidur mikill, enn rekavid skorte ei vestur firir Myrar. Hann liet giora bæ a Alpt-

Alptaneſe og ætte Þar bw annad, liet Þadann ſækia utrodra og ſelveidar og Eggver en̄ Þar vooru gnoog fong Þav oll, ſo rekavid ad læta ad ſier flitia, Hvalakvomur vooru Þar og miklar. Skioota mætti ſem villdi Þar edſtood, er Þad var ovant manne. Hid Þridia bw ætti hann vid ſiooinn æ veſtanverdum Myrum, var Þar enn betur komid ad ſitia firir rekum, og Þar liet hann hafa i ſele, og kalladi ad Avkrum. Eyar læu Þar uti firir er hvalur fannſt i, og kolludu Þeir Hvalseyar. Skalla-Grimur, hafdi og menn ſijna uppi vid Laxærnar til veida. Odd Ein-búa ſette hann vid Gliufuræ ad giæta Þar Laxveidar, Oddur bioo under Einbwæbreckum, vid hann er kent einbwanes, Sigmundur hiet madur er hann ſette vid Nordura, hann bioo Þar er kallad var æ Aſ-mundarſtodum, Þar er nw kallad ad Havgum, vid hann er kent Sig-mundarnes, ſijdann færdi hann bwſtad ſinn i Munadarnes, Þotti Þar hægra til Laxveidar. Enn er fram̄ geck miog kvikſe Skalla-Grims, Þæ geck fied upp til fialla allt æ ſumrum, hann fann mikinn mun æ ad fied vard betra og feitara er æ heidum geck, ſo Þad ad ſavdſie gieck æ vetrum i fialladolum, Þott ei væri ofanrekid, ſijdann liet Skalla-Grimur giora bæ upp vid fiallid, og ætti Þar bw, og liet Þar vardveita ſavd-fie ſitt. Þad bw vardveitti Gris, og er vid hann kend Griſartwnga, ſtood Þar æ morgum footum fiærafle Skalla-Grims. Stundu ſijdar enn Skalla-Grimur hafdi utkomid kom Skip af hafe i Borgarfiord, og ætti ſæ madur er kalladur var Oleifur Hallti, hann hafdi med ſier konu ſijna og born, og annad frændlid ſitt, og hafdi ſo ætlad ferd ſijna ad fæ ſier bwſtad æ Iſlandi. Oleifur var madur avdigur og kynſtor, og ſpakur ad vite. Skalla-Grimur bavd Oleifi heim til ſijn til viſtar med lidi hanns ollu, enn Oleifur Þeckti ſt Þad og var hann med Skalla-Grimi um veturinn, Enn epter um vorid vijſadi Skalla-Grimur ho-num til Landskoſtar firir ſunnann Hvitæ, upp fræ Grimsæ til Floka-dalsær, Oleifur Þektiſt Þad og foor Þangad bwferle ſijnu, og ſette Þar Bwſtad er heiter ad Varmalæk, hann var goſugur madur, Hanns ſyner vooru Ragi i Lavgardal, og Þorarinn Ragabrooder, er Log-ſogu took æ Iſlandi næſt epter Rafn Hængsſon. Þorarinn bioo ad Varmalæk, hann ætti Þordiſe deotter Olafs Feilands, Syſter Þordar Gellis.

# Cap. xxx.

Haralldur Koongur hinn Hárfagri lagdi eign sijna a allar þær jarder er att hafdi Kvølldulfur og Skalla-Grimur i Norege, og allt þad fie annad er hann nadi, hann leitadi og miog epter þeim monnum er verid høfdu i radum og vitordi eda nockrum tilbeina med þeim Skalla-Grime um verk þav er þeir unnu adur enn þeir fooru wr Landi brott, og so kom sa fiandskapur er Koonge var a þeim fedgum, ad hann hatadist vid frændur þeirra, eda adra navdleita menn, eda þa menn er hañ visse ad þeim høfdu allkiærer verid i vinattu, sættu sumer af honum refsingum og marger flydu undann og leitudu sier hælis, sumer innannlands enn sumer flydu med ollu af Landi a brott. Ingvar Magur Skalla-Grims var eirn af þeim monnum, er nw var frasagt, took hann þad rad ad hann varde fie sijnu so sem hann matte, og lavsaeyri og fieck sier hafskip, ried þa menn til, og bioo ferd sijna til Islands, þviad hañ hafdi þa spurt ad Skalla-Grimur hafdi tekid þar stadfestu, og ei mundi þar skorta Landskosti med Skalla-Grime. Enn er þeir vooru bwner og byr gaf, þa sigldi hann i haf, og greiddist ferd hanns vel kom hann til Islands fyrir sunnann Landid, og hiellt vestur firir Reikianes, og sigldi inn a Borgarfiord, og hiellt inni Langa og upp allt til foss, baru menn þar Farminn af Skipinu. Enn er Skalla-Grimur spurde adkomu Ingvars, þa foor hann þegar a fund hanns og bavd honum til sijn, ogso morgum monnum sem hann villdi, Ingvar þektist þad, Var Skipid uppsett. Enn Ingvar foor til Borgar med marga menn, og var þann vetur med Skalla-Grime: Enn ad vore bavd Skalla-Grimur honum Landakosti; Hann gaf Ingvari bw þad er hann atti ad Alptanese og Land inn til Leirulækiar og wt til Stravmfiardar, sijdann foor hann til wtbws þess er hann took þar vid, og var hann hinn nytasti madur og hafdi aud fiar. Skalla-Grimur giorde þa Bw i Knarrarnese, og atti þar bw leingi sijdann. SkallaGrimur var Jarnsmidur mikill og hafde ravdablastur mikinn a Vetrum hann litt giora smidiu med sioonum, ei miog langt wt fra Borg, þar sem heiter Ravfarnes, þotti honum Skoogar þar nalæger. Enn er

hann feck þar øngvann Steinn þann er so være hardur eda sliettur ad horum þætti gott ad lya jaarn vid, þviad þar var ecki malargrioot, eru þar smaaer sandar allt med sæ. Þad var eitt qvolld þaa er adrer menn fooru ad sofa, ad Skalla-Grimur geck til Siooar, og hratt fram skipi aattæru er hann aatti, og reru wt til midfiardareya, Liet þaa hlavpa nidur stioera firir stafn aa Skipinu, sijdann steig hann firir bord og kafadi, og hafdi upp med sier Steinn i skipid, sijdann foor hann siaalfur upp i Skipid og rere til Lands, og bar steininn til smidiu sinnar, og lagdi nidur firir smidiu dyrnar, og ludi þar sijdann jarn vid, liggur saa steirn þar enn og mikid sindur hiaa, og sier þad aa steininum ad hann er bardur ofann, og þad er brimsorfid Grioot, og ecki þvi griootе lijkt ødru er þar er, og munu nw ecki meira hefia fioorer menn. Skalla-Grimur sotti fast smidiuverkid: Enn hwskarlar hanns vøndudu um og þootti snemma risid. Þaa orti hann vijsu þessa.

Miøg tekur ár sá er avra, Isatrys madur ad rysa, vader vedrar broder, vedur leggiar skal Kvedia, giallaleidar Gulle, ger módur medal þióda, hitu hrærer bitra, hreggum frekar sleggiur.

# Cap. xxxi.

Skalla-Grimur og þav Bera aattu børn miøg mørg, og var þad fyrst ad þav øll øndudust, þaa aattu þav son og var Vatni avsin, og hiet Þorolfur. Enn er hann fæddist upp var hann snemma mikill vexte, og hinn vænsti sijnum, Var þad allra manna maal ad hann mundi verda hinn lijkasti Þorolfi Kvølld-Ulfsøyne, er hann var epter heitinn. Þorolfur var langt um fram sijna jafnalldra, snemma var hañ so fullkominn ad Afli ad hann þootti vel Lidfær med ødrum mønnum, var hañ og vinsæll af Alþydunne, og einkum elskadur af fødur og moodur. Skalla Grimur aatti dætur tvær hiet ønnur Sæunn enn ønnur Þorunn, vooru þær og efnilegar i uppvexte: Enn aattu þav Skalla-Grimur son og var saa vatni avsinn, og nafn gefid, og kalladur **Eigill.** Enn er hann ox upp, þaa maatti þad brátt sia aa hønum, ad hann mun-

mundi vera miøg svipliikur fodur siinum svartur á hár: Eñ þá er hann var þrevetur þá var hann mikill og sterkur so sem þeir sveinar adrer er vooru vj. vetra eda vij, hann var bráátt málugur og ordviis, helldur var hann illur vidureignar er hann var i leikum med ødrum ungmønnum. Þad vor foor Jngvar til Borgar, og var þad ad Erindi, ad hann bavd Skalla-gríme til bods wt þangad til siin, og nefndi til þeirrar ferdar Beru dottur siina og Þorolf son hennar og þá menn adra er þav Skalla-Grimur villdu ad færi. Skalla-Grimur hiet sør sinne, Foor Jngvar þá heim og bioo til veitslunnar og liét þá aul heita. Enn er ad þeirre stefnu kemur ad Skalla-Grimur skal til Bodsins fara og þav Bera, þá bioost Þorolfur til ferdar med þeim og Hwskarlar, so ad þav vooru xv. samann. Eigill rædddi um vid Fodur sinn, ad hann villdi fara med, og sagdiz mundi þar sliikt kunna sem Þorolfur son hanns. Ecki skalltu fara seiger Skalla-Grimur þviad þw kant ecki firi þier til neins, þar sem samdrickiur eru miklar, Enn þw þiker eigi goodur vidskiptis, þo siert Odruckinn, steig þá Skalla-Grimur á hest sinn og reid i brott, Enn Eigill undi illa vid sinn Hlut. Hann geck wr Gardi, og took Eikhest eirn er fader hanns átti, og reid so epter Skalla-Grime, honum vard Ogreidfært um myrarnar, þviad hann kunne ongva leid: Enn hann sá miøg opt reid þeirra Skalla-Grims þá er ei bar firir hollt eda skooga. Er þad ad seigia frá ferd hanns, ad siid um qvolldid kom hann til Alptanes þá er meñ sátu þar ad drickiu, geck hann inni stofu, Enn er Jngvar sá Eigill þá took hann vid honum feiginsamlega, og spurdi þvi hann hefdi so seint komid. Eigill seiger hvad þeir Skalla-Grimur høfdu um mælst. Jngvar setti Eigil hiá sier, sátu þeir gágnvart þeim Skalla-Grimur og Þorolfur, þá var þad haft ad Aulteiti ad meñ qvádu viisur. Þá qvad Eigill viisu.

Komen em eg til erna, Jngvars bede lingva, hañ
var eg fús ad finna franþveingiar gefur dreingum muner
ei þú þæger, þrevetran mier betra Lióſundinna Landa,
Linns eidar mier finna.

Ingvar hiellt upp vijsu þeirre og þackadi vel Eigli vijsuna: Enn um daginn epter særdi Ingvar Eigli ad skálldskapar Lavnum, Kufwnga iij. og Andaregg: Enn um daginn epter um dryckiu qvad Eigill adra vijsu um bragarlavn.

Siþavgla gaf soglum, Sarágagls þriá Eigle, Herdimeidur vid Hródre, Hagur brimrotar gagra, og berksidris blacka, bordvallar gaf fiórda, Kenne medur sá er kunne, Kavrbed Eigil gledia,

Vel lagde Eigill i þock Skálldskap sinn vid marga menn. Ecki var þá fleira til tydinda i ferd þeirra, foor Eigill heim med Skalla-Grime.

## Cap. xxxij.

Biørn hiet Herser rijkur i Sogni er bioo á Aurlandi hanns son var Bryniolfur er arf allann took epter fødur sinn. Syner Bryniolfs vooru þeir Þordur og Biørn, þeir vooru menn á ungum alldre er þetta vard tijdinda, Biørn var Farmadur mikill stundum i Vijking, enn stundum i Kavpferdum, Biørn var hinn giørvilegasti madur. Þad barst ad á einhvoriu sumri, ad Biørn var staddur i Fiordum ad veislu nockri fiolmennri, þar sá hann Mey fagra þá er hønum fannst mikid um, hann spurdi epter hvorrar ættar hwn var, hønum var sagt ad hwn væri syster Þoris Þuss Hróalldsonar, og hiet Þóra Hladhorn. Biørn hof upp bonord sitt, og bad Þóru, Enn Þórer synjadi hønum raadsins, og skildu þeir ad so giørdu. Enn þad sama havst feck Biørn sier lids, og foor med Skwtu alskipada nordur i fiordu og kom til Þóris, og so ad hann var ei heima. Biørn nam Þóru á brott og hafde heim med sier á Aurland. Vooru þav þar um veturinn og villdi Biørn giøra Brwdkavp til hennar. Bryniolfi fødur hanns lijkadi þad illa er Biørn hafdi giørt, þotti svivirding i þvi, þar sem aadur hafdi løng vináatta verid med Þórer og Bryniolfi. Þvi sijdur skalltu Biørn seiger Bryniolfur Brwdkavp til Þóru giøra hier med mier

ad Oleifi Þóris broodur hennar, ad hwn ſkal hier ſo vel ſett ſem hwn væri mijn dotter, enn ſyſter þijn, Enn ſo vard ad vera allt ſem Bryniolfur qvad a, þar i hanns hibylum, hvort er Byrni lijkadi vel eda illa. Bryniolfur ſendi menn til Þóris ad biooda honum ſætt og fyrerbætur fyrir for þa er Biørn hafdi farid. Þórer bad Bryniolf ſenda heim Þóru, ſagdi ad ecki mundi af ſætt verda ella, Enn Biørn villdi fyrir ongvan mun læta hana brott fara, þo ad Bryniolfur beiddi þeſs, leid ſo af veturinn, Enn er vora took, þa ræddu þeir Bryniolfur og Biørn eirn dag um rádagiørder ſijnar, ſpurdi Bryniolfur hvad hann ætladiz firir, Biørn ſeiger þad lijkaz ad hann mundi fara af Landi brott, er mier þad næſt ſkapi ſeiger hann, ad þw fæer mier Langſkip og þartil lid med, og fari eg i Vijking; Eingin von er þeſs ſeiger Bryniolfur ad eg fai þier i hendur herſkip og Lid mikid, þvìad eg veit ei nema þw komer þa þar nidur er monnum er oll varfwſa á, og ſtendur nw þo ædur ærinn oſſi af þier. Kavpſkip mun eg fa þier i hendur, og þarmed Kavpeyri, fardu ſijdann ſudur til Dyflinar, ſu er nw ferd frægſt. Mun eg fa þier foruneite gott, Biørn ſeigir ſo ad hann mundi verda þad upp ad taka ſem Bryniolfur villdi, Liet hann þa bwa Kavpſkip gott, og fieck menn til, biooſt Biørn þa til þeirrar ferdar, og vard ecke ſnembwinn: Enn er Biørn var albwinn og byr rann á, þa ſteig hann á bát med xijta mann og reru inn á Avrland, og gengu upp til bæar, og til dingiu þeirrar er mooder hanns átte, ſat hwn þar inne, og konur miøg margar, þar var Þóra. Biørn ſeiger ad Þóra ſkylldi med honum fara, leiddu þeir hana á brott. Enn mooder hanns bad konurnar vera ei ſo diarvar, ad þær giorde vart vid inni Skálann, ſagdi ad Bryniolfur mundi illa i hondum hafa ef hann viſſe, og ſeiger ad þá var bwid vid geig med þeim fedgum. Enn Klædnadur Þóru og griper hennar vooru þar aller lagder til handargagns, og hofdu þeir Biørn þad allt med ſier, fooru þeir ſijdann um nottina wt til ſkipſins, droou upp ſegl, og ſigldu ut epter Sognſæ, og ſijdann i haf ut, þeim biriadi illa, og hofdu rettu ſtoorá, og velkti leingi i hafe, þvìad þeir vooru orugger i þvi ad fyrraz Noreg ſem meſt, þad var eirn dag ad þeir ſigldu avſtann ad Hialltlandi hvaſt vedur og leſtu ſkipid i Landtøku vid Moſey, báru þar af farminn og fooru i Borg þa er þar var næſt, og báru

 þangad

þangad allann varning sinn, og settu upp skipid, og bættu þad er brot-id var, og biugguſt um.

# Cap. xxxiij.

Litlu firir vetur kom skip til Hialltlands sunnann wr Orkneyum, sogdu þeir þav tijdindi ad Langskip hafdi komid um havstid til Eyaña, vooru þad sendimenn Haralldz Koongs med þeim erindum til Sigurdar Jarls, ad Koongur villdi drepa laata Biørn Bryniolfsson hvar sem hann yrdi firir hendi, og slijkar ordsendingar giørde hann til Sudureya og allt til Dyflinar. Biørn spurdi þesse tijdindi og þad med ad hann var utlægur i Norgi. Enn þegar er Biørn hafdi komid til Hialltlands giorde hann þaa Brullavp til Þóru, saatu þav um veturinn i Moseyar borg, Enn þegar um vorid er sioo took ad lægia, setti Biørn fram skip sitt og bioo sem aakaflegast: Enn er hann var bwinn og byr gaf sigldi hann i haf, feingu þeir vedur stoor og vooru litla stund wti, komu sunnann ad Islandi, geck þaa vedur aa Land og bar þaa vestur firir landid og þaa i haf wt. Enn er þeim gaf byr aptur þaa sigldu þeir ad landinu: Eingin var saa madur þar innann bords er verid hafdi fyr aa Islandi, þeir sigldu inn aa fiørd eirn furdulega mikinn, og bar þaa ad hinne vestgri strøndinne, saa þar til Lands inn ecki nema boda eina og hafnleisur, beittu þaa sem þverast avstur med Landinu, allt til þess er fiørdur vard firir þeim, og sigldu þeir inn epter firdinum, till þess er lo-kid var skerium øllum og brime, þaa løgdu þeir ad nese einu, laa þar Ey firir utann enn sund diwpt imille, festu þeir þar skipid. Vijk geck upp firir vestann nesid, enn upp af Vijkinne stood Borg mikil. Biørn geck aa baat eirn og menn med hønum. Biørn sagdi forunavtum sinum ad þeir skilldi varast ad seigia fraa ferdum sijnum, er þeim stædi vandrædi af þvi, þeir Biørn reru til bæarins, og hittu þar menn ad maale, spurdu þeir þaa fyrst ad þvi hvar þeir være ad Landi komner, Menn søgdu ad þad hieti ad Borgarfirdi, Enn bær saa er þar var hieti ad Borg, enn Skalla-Grimur Bondinn. Biørn kannadist brætt vid hann, og geck til mots vid Skalla-Grim, og toluduz þeir vid, spurdi Skalla-Gri-

mur

mur hvad maña þar væri, Biørn nefndi sig og fødur siñ, Eñ Skalla-Grime var allur kunnugleiki ꝏ Bryniolfi, og bavd Byrni allann fararbeina sinn þann er hann þurfti. Biørn took þvi þackſamlega. Þꝏ ſpurdi Skalla-Grímur hvad fleira væri þeirra manna ꝏ Skipe med honum sem virdingamenn væri. Biørn ſeiger ad þar var Þóra Hróalldsdotter ſyſter Þóris Herſis. Skalla Grímur vard vid þad allgladur, og ſeiger ſo, ad þad var ſkyllt og heimillt ym ſyſter Þóris foſtbrodur ſijns ad hann giordi þeim ſlijkann fararbeina ſem þurfte eda hañ hafdi føng til, og bavd þeim Byrni bædum til ſijn med alla Skipveria ſinna, Biørn þeckiſt þad, var þꝏ fluttur farmur af ſkipinu upp i twn ad Borg, ſettu þeir þar bwder ſijnar. Enn ſkipid var leidt upp i Læk þann er þar verdur, Enn þar eru kalladar Biarnartødur er þeir hofdu bwder, Biørn og þeir ſkipveriar aller fooru til viſtar med Skalla-Grimi, hann hafdi alldri færri menn med ſier enn lx. vigra Karla.

# Cap. xxxiv.

Þad var um havſtid þꝏ er ſkip hofdu komid til Iſlands af Noregi, ad Kvittur ſꝏ kom yfer ad Biørn mundi hafa hlavpiſt ꝏ brott med Þóru, og ecki ad rꝏdi frænda hennar, og Koongur hafdi giort hann utlægann firir þad wr Noregi. Enn er Skalla-Grímur vard þeſſa var þꝏ kalladi hann Biørn til ſijn, og ſpurdi hvorn veg farid væri um konfang hanns, hvort þad hefdi verid giort ad rꝏde frænda hennar, var mier ei þeſs von ſeiger hann, um ſon Bryniolfs, ad eg munda ei vita hid ſanna af þier. Biørn ſeiger: ſatt eitt hef eg þier ſagt Grímur, eñ ei mꝏttu ꝏmæla mier firir þad þott eg ſegda þier ei leingra enn þw ſpurder: Enn þo ſkal nw vidganga þvi er ſatt er, ad þw hefur ſannſpurt, ad ecki var þetta rꝏd giort med ſamþicki Þóris broodur hennar. Þꝏ mællti Skalla-Grímur reidur miog, hvi varſtu ſo diarfur ad þw foorſt ꝏ minn fund, eda viſsirdu ecki hvor vinꝏtta var med ockur Þóri. Biørn ſeiger, viſsa eg ad med yckur var foſtbrædralag og vinꝏtta kiær. Enn firir þvi ſotta eg þig heim ad mig hafdi hier ad landi borid, og eg viſsa ad mier mundi ecki tiꝏ ad fordaz þig, mun nw vera i þijnu valldi

hvor

hvor minn hluti skal verda, Enn goods vænte eg af, þviad eg em heimamadur þinn. Sijdann geck fram Þorolfur son Skalla-Grims, og lagdi til morg ord, og bad Fødur sinn ad hann giæfi ei Birni þetta ad søk, er ædur hafdi hann tekid vid Birni. Marger adrer løgdu þar ord til, kom þæ so ad Skalla-Grimur sefadist, seiger ad Þorolfur mundi ræda verda. Og tak þw vid Byrni, og ver til hanns so vel sem þw villt.

## Cap. xxxv.

Þóra ol barn um sumarid, og var hwn vatni avsin, og nafn gefid og nefnd Asgerdur. Bera fieck til konu ad giæta meyarinnar. Eñ Biørn var um veturinn med Skalla-Grimi, og aller Skipveriar hañs. Þorolfur giordi sier blidt vid Biørn, og var honum fylgiusamur, Enn er Vor kom, þæ var þad einhvorn dag, ad Þorolfur geck til mæls vid fødur sinn, og spurdi hañ þess, hvort ræd hañ villdi leggia til vid Biørn veturgest sinn eda hvoria æsiæ hann villdi honum veita: Grimur spurdi Þorolf hvad hann ætladist fyrir, þad ætla eg seiger Þorolfur ad Biørn villdi hellst fara til Noregs, ef hann mætti þar i fridi vera, þætti mier þad ræd fyrir liggia fader, ad þw sender menn til Noregs ad biooda sætter fyrir Biørn, og mun Þórer mikils virda ord þijn, so kom Þorolfur fortølum sinum, ad Skalla Grimur skipadiz vid, og feck menn til utanferdar um sumarid: Fooru þeir menn med Ordsendingar og jardtegner til Þóris Hróalldsonar, og leita um sættir med þeim Birni. Enn þegar er Bryniolfur visse þessa Ordsending, þæ lagdi hañ allann hug æ ad biooda sætter fyrir Biørn, kom þæ so þvi mæle ad Þórir took sættir firir Biørn, þviad hann sæ þad, ad þæ var so komid ad Biørn þurfti þæ ecki ad Ottast um sig, took Bryniolfur þæ sætt fyrir Biørn. Enn sendimenn Skalla-Grims vooru um veturiñ med Þóri, Enn Biørn var þann vetur med Skalla-Grime, Enn epter um sumarid fooru sendimenn Skalla-Grims aptur, Enn er þeir komu aptur um Havstid, þæ søgdu þeir þav tijdindi, ad Biorn var i sætt tekinn i Noreg. Biørn var hinn þridia vetur med Skalla-Grime, Eñ epter æ um vorid bioost hann til burtferdar, og su sveit manna er honum

hafdi

hafdi þangad filgt. Enn er Biørn var bwinn ferdar sinnar, þá seig-er Bera ad hwn vill Asgerdur fostra hennar sie epter: Enn þá Biørn þektust þad., og var Mærinn þar epter og sæddiz þar upp med þeim Skalla-Grími. Þórolfur son Skalla-Gríms riedst til ferdar med Byrni og fær Skalla-Grímur honum fararefni, foor hann utann um sumarid med Byrni, greiddist þeim vel og komu af hafi utann ad Sognsæ, sigldi Biørn þá inni Sogn og foor sijd-ann heim til fodur sijns, foor Þorolfur heim med honum, took Bryniolfur þá vid þeim feiginsamlega. Sijdann voru giord ord Þórir Hroalldsyne, logdu þeir Bryniolfur stefnu sijn i mille, kom þar og Biørn til þeirrar Stefnu, trigdu þeir Þórer þá sætt med sier, sijdann greiddi Þórir af hendi sie þad allt er Þóra átti i hanns gardi, og tookst nw med þeim Þórir og Byrni vinatta med teingdum, var Biørn þá heima i Avrlandi med Bryniolfi, Þor-olfur var og þar i allgoodu yferlæte af þeim fedgum.

## Cap. xxxvj.

Haralldur Koongur hafdi longum adsetu sijna á Hordalandi eda Rogalandi ad Stoorbwum þeim er hann átte i Vijkinne eda á Avgvalldsnese, á Fitium eda á Alrekstodum, eda i Ligru á Sæ-heime: Enn þann vetur er nw var fræsagt, var Koongur nordur i Lande. Enn er þeir Biørn og Þorolfur hofdu verid eirn vetur i Noregi og vor kom, þá biuggu þeir skip sijn, og ofludu manna til foruneitis i Vijking og hielldu i avsturveg, enn fooru heim ad havsti, og hofdu aflad mikils fiár. Enn er þeir komu heim, þá spurdi Þorolfur ad Koongur var á Rogalandi, og var kyr á vetrum, þá took Haralldur Koongur ad elldaz mioq og lijast, enn børn hanns á legg komnn morg. Eirikur son hanns er kalladur var Bloodox var þá á ungum alldri, hann var á fooftri med Þórí Hersi Hróalldsyne. Koongur unni Eiriki mest sona sinna. Þórer var þá i mestum Kiærleikum vid Koong. Biørn og þeir Þór olf-ur fooru fyrst á Avrland er þeir komu heim, Enn sijdann biriu[illegible]

H

þeir

þeir ferd sijna avstur i fiordu, ad sækia heim Þorer Hersir. Þeir hofdu Karfa þann er vooru aa bordi xij. eda xiij. menn, og hofdu nær xxx. manna. Skip þad hofdu þeir feingid i Vijking um sumarid. Þad var steint miog firir ofann Sioo og var hid fegursta, Enn er þeir komu til Þoris, feingu þeir þar goodar vidtokur og dvoldus þar nockra hrijd. Enn skipid flavt tialldad firir bænum. Þad var eirn dag er þeir Þorolfur og Biørn geingu ofann til Skipsins, þeir saau ad Eirikur Kongsson var þar, geck stundum aa Skipid wt, enn stundum aa land upp, stood þaa og horfdi aa Skipid, þaa mællte Biørn til Þorolfs, miog undrast Koongsson skipid, og biood þw honum ad þiggia, þviad eg veit ad ockur verdur þad ad Lidsemd mikilli vid Koong ef Eirikur er flutningsmadur ockar, hef eg heyrt þad sagt ad Koongur hafe þwngann hug aa þier af sektum Fodur þijns. Þorolfur seiger ad þad mundi vera gott raad, gengu þeir sijdann til Skipsins og mællte Þorolfur: Vandlega hyggur þw ad Skipinu Koongsson, eda hvorsu lyst þier aa, vel seiger hann, þvi hid fegursta er Skipid: Þaa vil eg gefa þier seiger Þorolfr skipid ef þw villt þiggia, þiggia vil eg seiger Eirikur, Enn þier mun þikia lijtil Lavnen, þott eg heite þier vinaattu minne, Enn þad stendur þo til vonar ef eg helld Lijfe. Þorolfur seiger ad þav lavn þootti honum miklu meira verd enn Skipid, skilduz þeir þaa sijdann, Enn þadann af var Koongsson allkaatur vid þaa Þorolf. Þeir Biørn og Þorolfur komu aa rædu vid Þorer, hvad hann ætlar hvort þad sie med sannindum ad Koongur hafe þwngann hug aa Þorolfi, Þorer dylur þess ecki ad hann hefdi þad heyrt, þaa villda eg Þorer seiger Biørn ad þw færir aa fund Koongs og flytter maal Þorolfs fyrir honum, þvi ad eitt skal ganga yfer ockur Þorolf baada, giordi hann so vid mig þaa er eg var aa Islandi. So kom ad Þorer hiet ferdinne til Koongs, og bad þaa freista ef Eirikur Koongsson villdi fara med honum, Enn er þeir Biørn og Þorolfur komu aa þessa rædur vid Eirik, þaa hiet hann sinne umsyslu vid fodur sinn. Sijdann fooru þeir Þorolfur og Biørn til leid sijna i Sogn. Enn Þorer og Eirikur skipudu Karfa þann hinn nygefna, og fooru sudur aa fund Koongs, og hittu hann aa Hordalandi tok hann feiginsamlega vid þeim, dvoldust þar um hrijd, og leitudu þess færis ad hitta Koong þegar hann væri med goodu skapi, baaru þaa

upp

upp þetta maal fyrir Koong, sogdu ad sa madur var kominn er Þorolfur hiet, son SkallaGrims. Villdu vier þess bidia Koongur, ad þu mintist þess ad frændur hans hafa vel til þijn giort. Enn lieter hañ eige giallda þess er fader hanns giordi, þott hann hefndi broodur sijns. Taladi Þorer um þad miøg leingi og miwklega: Enn Koongur svarar helldur stutt, ad þeim hefdi Otti mikill stadid af Kvølld-Ulfi og sonum hanns, og liet þess von ad þesse Þorolfur mundi enn vera skaplijkur frændum sijnum, eru þeir aller seiger hann ossa menn miklir, so ad þeir hafa ei hof vid, og hirda ei vid hvoria þeir eiga ad skipta. Sijdann took Eirikur til maals, seiger ad Þorolfur hafdi vingast vid hann, og gefid honum ægiætann grip, Skip þad er þeir hofdu þar, hef eg heitid honum vinaattu minne fullkominne: munu fæer til verda ad vingast vid mig, ef þeim skal ecki tiaa, muntu ei þad vera laata fader um þann mann er til þess hefur fyrstur ordid ad gefa mier dyrgripi. So kom ad Koongur hiet þeim þvii aadur lietti, ad Þorolfur skilldi fridi vera fyrir honum, Enn ecki vil eg seiger Koongur ad hann kome aa miñ fund, Enn giøra maattu Eirikur hann þier so kiærann sem þu villt, eda fleyri þaa frændur, enn vera mun annadhvort, ad þier munu þeir vera miwkare enn mier hafa þeir ordid, eda þu munt þessarar bænar idrast, ogso þess ef þu lætur þaa leingi med þier vera. Sijdann foor Eirikur Blódøx og þeir Þorer heim i fiordu, sendu sijdann ord og lietu seigia Þorolfi hvort þeirra Erindi var ordid til Koongs. Þeir Þorolfur og Biørn voru þann vetur med Bryniolfi: Enn mørg sumur laau þeir i Vijking, Enn aa vetrum voru þeir med Bryniolfi enn stundum med Þorir.

## Cap. xxxvij.

Eirikur Blódøx took þaa vid Rijki, Hann hafdi yfersokn aa Havrdalandi og um Fiordu, took hann þaa og hafdi med sier hirdmenn: Og eitthvort vor bioo Eirikur Blódøx for sijna til Biarmalands, og vandadi miøg Lid til þeirrar ferdar, Þorolfur redst til ferdar med Eiriki og vár i Stafni aa Skipi hanns og bar merke hanns. Þorolfur var þaa hvoriuin manne meire og sterkari, og lijkur um þad Fodur sijnum

um. J ferd þeirre vard margt til tijdinda. Eirikur ætti orustu mikla a Biarmalandi vid Veni, feck Eirikur þar sigur, sosem seiger i qvædum hanns, og i þeirre ferd feck hann Gunnhilldar doottr Avsurar Tota, og hafdi hana heim med sier. Gunnhilldur var allra qvenna vænst og vitrust, og fiolkunnug miog. Kiærleikar mikler vooru med þeim Þorolfi og Gunnhillde. Þorolfur var þa jafnann a vetrum med Eiriki Koongi, Enn a sumrum i Vijkingu. Madur hiet Þorgeir Þirnifótur hann bioo a Hordalandi i Fenhrijng, þar heiter a Aski. Hann atti iij. sonu hiet eirn Haddur annar Bergønundur þridie hiet Atle hinn Skamme. Bergønundur var hvorium manne meire og sterkare, og var madur agiarn og Odæll. Atle hinn Skammi var madur ecki haar og ridvaxinn, og var ramur ad Afle, Þorgeir var madur stooravdigur ad fie, hann var blootmadur mikill og fiølkunnugur. Haddur laa i Vijking og var fialldann heima.

## Cap. xxxviij.

Þorolfur Skalla-Grimsson biooft eitt sumar til Kavpferdar, ætlade þa sem hann giorde ad fara til Jslands og hitta fødur sinn, hann hafdi þa leinge a brottu verid, Hann hafdi þa ogrinne fiaar og dyrgripi marga. Enn er hann var bwinn til ferdar, þa foor hann a fund Eiriks Koongs. Enn er þeir skilduft selldi Koongur i hendur Þorolfi, Exi er hann qvedst gefa vilia Skalla-Grime, Exinn var snaghirnd og mikil og gullbwinn, uppskellt skaptid med silfre, og var þad hinn virdulegasti gripur. Þorolfur foor ferdar sinnar þegar hann var bwinn, og greiddiz honum vel, og kom skipi sijnu i Borgarfiord, og foor þegar brædlega heim til fødur sijns. Vard þar fagnadarfundur mikill er þier hittust, sijdann foor Skalla-Grimur til skips moote Þorolfi, liet setia upp skipid enn Þorolfur foor heim til Borgar med xij. menn. Enn er hann kom heim, bar hann Skalla-Grime qvediu Eiriks Koongs og færdi honum Oxi þa er Koongur hafdi sendt honum, Skalla-Grimur took vid Oxinne, hiellt upp og saa a um hrijd, og rædi ecki um, og festi upp hiaa rume sijnu. Þad var um havstid einhvorn dag

ad

ad Borg, ad Skalla-Grimur liet reka heim Yxn miog mørg er hann ætladi til Hoggs, hann liet leida tvo uxa samann under Hwsvegg, og leida a vixl, Hann took Hellustein vel mikinn og skavt nidur under hææsana, siidann geck hann til med Oxina Koongsnavt, og hloo uxana bæda senn, so ad Hofudinn took af hvoriumtveggia, Enn Exinn hlioop nidur i steininn, so ad Mudurinn brast wr allur og rifnade upp igegnum Herduna. Skalla-Grímur sæ i Eggina og ræddi ecki um, geck siidann inni Elldahws og steig siidann a stock upp, og skavt eggsiñe uppa hurdæsa; læ hwn þar um veturinn. Um vorid lysti Þorolfur þvi yfer ad hann ætladi utann ad fara um sumarid. Skalla-Grímur latti hann seiger ad þa var gott heilum vagni heim ad aka, Hefur þw seiger hann farid fremdarfor mikla, enn þad er mællt ad ymsar verda ef margar fer. Tak þw nw hier vid fiarhlut so miklum: ad þw þikiz vera meiga gilldur madur af. Þorolfur seiger ad hann vill enn fara eina fred, og a eg navdsynlegt Erindi til ferdarinnar. Enn þa er eg kem ut odrii sinne mun eg hier stadfestaz. Enn Asgerdur foostra þijn skal fara utann med mier a fund fodur siins, bavd hann mier um þad þa er eg foor avstann, Skalla-Grímur qvad hann og ræda mundi, siidann foor Þorolfur til Skips siins, og bioo þad. Enn er hann var albwinn, fluttu þeir wt skipid til Digranes og lau þar til byriar. Foor þa Asgerdur til skips med honum. Enn ædur Þorolfur foor fra Borg, þa geck Skalla-Grímur til og took exina ofann af hurdæsium, Koongsgiofina, geck ut med, var þa skaptid svart med reik, enn exinn ridgienginn. Skalla-Grimur sæ i egg exinne og qvad vijsu:

Liggia Iggs i Eggiu, Ek meyar kor deya, Fox er Illt i Exi, undvargs flavsur margar, Arghirnu láttu arka, aptur med roknu Skapte, þorf er at mier til þeirrar, þad var hríngagiof hingad.

# Cap. xxxix.

Þad vard til tijdinda a medann Þorolfur hafdi verid fyrre utannlendis

lendis ad eitt sumar kom Kaupskip af Noregi i Borgarfiord, var þaa vijda hofd uppsaat Kaupskipum i aar eda i Lækiarosa eda i Sijki. Madur hiet Ketill er kalladur var Ketill Blundur er aatti Skip þad, hann var Norræn madur kynstoor og audigur Geir hiet son hanns er þaa var fulltijda, og var aa Skipe med honum. Ketill ætladi ad faa sier bwstad aa Islandi, Hann kom sijd Sumars. Skalla-Grimur vísse oll deile aa honum, baud Skalla Grimur honum til vistar med sier med allt sitt. Ketill þektist þad og var hann um veturinn med Skalla-Grime. Þann vetur bad Geir son Ketills, Þorunnar dootter Skalla-Grims, og var þad ad raadi giort, feck Geir Þorunnar. Enn epter um vorid vijsadi Skalla-Grimur Katli og Geir til Lands, uppfraa Oleifslande med Hvijtaa, fraa Flokadals-aarose og til Reikiadalsaaross, og twngu þaa alla er þar var i milli, upptil Raudsgils og Flokadal allann, fyrir ofañ Brecku. Ketill bioo i Þrandarhollte, enn Geir i Geirshlijd. Hañ aatti annad bw i Reikiadal ad Reikium hinum efri, Hann var kalladur Geir hinn Audgi. Hanns syner vooru þeir Blundketill, og Þorgeir Blundur, þridie var Þoroddur Hrisablundur er fyrstur bioo ad Hrijsum.

## Cap. xl.

Skalla-Grimur hendi mikit gamann ad Aflraunum og Leikum og um þad þootti honum gott ad ræda. Knattleikar vooru þaa tyder. Var þar i sveit gott til sterkra manna i þann tijma, Enn þaa hafdi einginn afl vid Skalla-Grim. Hann giordiz nw helldur hnigginn ad alldri. Þordur hiet son Grana ad Granastodum, og var hann hinn mannvænlegasti madur, og var hann þo aa wngum alldri. Hann var Elskur ad Eigli Skalla-Grimssyne. Eigill var miog ad glijmum, var hann miog kappsamur og reidinn, Enn aller kuñu þad ad kenna sonum sijnum, ad þeir vægdi fyrir Eigli. Knattleikur var lagdur aa Hvijtarvollum, allfiolmennur aa ondverdum vetre, soottu menn þar til vijda um Hieradid. Heimamenn Skalla-Grims sooru þangad til leiks marger. Þordur Granason var

hellst

hellst fyrir þeim. Eigill bad Þord ad fara med honum til leiks, þaa var hann vij. vetra. Þordur liet þad epter honum og reiddi hann ad bake sier. Enn er þeir komu aa leidmootid, þaa var monnum skipt þar til leiks. Þar var og komid margt smaasveina, og giordu þeir sier annann leik, var þar og skipt til: Eigil hlavt ad leika vid svein þann er Grímur hiet, son Heggs af Heggstodum. Grímur var x. vetra eda xj. og þo sterkur ad þeim alldri: Enn er þeir leikaz vid, þaa var Eigill osterkari, Grímur giordi og þann mun allann er hann matte. Þaa reiddiz Eigill og hof upp knatt-tried og lavst Grím: Enn Grímur tok hann hondum og keirdi hann nidur fall mikit, og liek hann helldur illa og qvedst mundi meida hann ef hann kynne sig ei: Enn er Eigill komst aa fætur, þaa geck hann wr leiknum, Enn sveinarner æptu ad honum. Eigill foor til fundar vid Þord Granason, og seiger honum hvad i hafdi giorst. Þordur mællti: eg skal fara med þier, og skulum vid hefna aa honum. Hann feck honum i hendur Skeggexi eina, er Þordur hafdi haft i Hendi, Þav vopn vooru tijdkud, ganga þeir þar til er sveinaleikurinn var. Grímur hafdé þaa hendt Knöttinn og rak undann enn adrer sveinarner soottu epter. Þaa hlioop Eigill ad Grime, og rak exina i Hofud honum, so ad þegar stood i heila. Þeir Eigill og Þordur gengu i brott sidann, og til manna sinna. Hlupu þeir Mijra menn þaa til vopna ogso hvorertveggiu. Oleifur Hallti hlioop til þeirra Borgarmanna med þaa menn er honum filgdu. Vooru þeir þaa miklu fiolmennare og skildu ad so giorvu, þadann af hoofust deillder med þeim Oleifi og Hegg. Þeir borduz aa Laxfit vid Grijmsaa, þar fiellu vij. menn enn Heggur vard saar til Olifis: Enn Kvigur brooder hanns fiell: Enn er Eigill kom heim, liet Skalla-Grímur sier faat um finnast: Enn Bera qvad Eigill vera Vijkingsefne, og qvad þad mundi fyrir liggia þegar hann hafdi alldur til, ad honum væri feingin Herskip. Eigill qvad vijsu.

Þad mællte mín Móder, ad mier skyllde kavpa, fley og fagrar Arar fara á hríng med Víkingum, Standa upp i Staffne, styra dyrum Knerre, Hallda svo til Haffnar Hoggva Mann og annann.

Þaa er Eigill var xij. vetra gamall, var hann so mikill vexti, ad fæer vooru menn so stoorer og ad afli bwner, ad Eigill inne þaa ei flesta meñ i leikum. Þann vetur er honum var hinn xijte var hann miog ad leikum. Þordur Granason var þaa a tvijtugs alldri. Hann var sterkur ad Afli, þad var opt er aleid veturinn, ad þeim Eigle og Þordi tveimur var skipt i moote Skalla Grime. Þad var eitt sinn um veturinn er a leid, ad Knattleikur var ad Borg sudur i Sand-Vijk, þaa voru þeir Þordur i moote Skallagrime i leiknum, mæddist hann fyrer þeim og geck þeim liettara: Enn um Kvolld epter Soolarfall, þaa tok þeim Eigli ver ad ganga, giordist Skalla-Grimur þaa so sterkur, ad hann greip Þord upp og keirdi nidur so hart ad hann Lamdiz allur og feck hañ þegar bana. sijdann greip hann til Eigils: Þorgerdur Brák hiet Ambaatt Skalla-Grims, hwn hafdi foostrad Eigil i barnæsku, hwn var mikil fyrer sier, sterk sem Karlar og fiolkunnug miog. Brák mællte: hamaz þw nw Skalla-Grimur ad syni þijnum. Skalla-Grimur liet þaa lausann Eigill, enn þreif til hennar, hwn braast vid og rañ undann, Enn Skalla-Grimur epter, fooru þau so i utanvert digranes þaa hlioop hwn af biarginu a sund. Skalla-Grimur kastadi epter henne steine miklum, og setti i millum herda henne, og kom hvorki upp sijdann. Þar er nw kallad Brakarsund: Enn epter um Kvolldid er þeir komu heim til Borgar, var Eigill allreidur, Enn Skalla-Grimur hafdi sest under bord og alþyda manna, þaa var Eigill ei komiñ i sæte sitt, þaa geck hann inn i Elldahws og ad þeim manne er þar hafdi þaa verkstioorn og fiarforrad med Skalla Grime og honum var kiærastur Eigill hioo hann banahogg, og geck sijdann til sætis sijns: eñ Skalla-Grimur rædi þaa ecki um, og var þad maal þadann af kyrt: Eñ þeir fedgar ræddust þaa ecki vid, hvorke gott nie illt og foor so fram þañ vetur: Enn hid næsta Sumar epter kom Þorolfur wt sem fyr er sagt: Enn þaa er hann hafdi verid eirn vetur a Jslandi, þaa bioo hann epter a um vorid skip sitt i Brakarsundi: Enn er hann var albwinn, þaa var þad eirn dag, ad Eigill geck til fundar vid fodur sinn, og bad hañ fa sier fararefne. Vil eg seiger hann fara utann med Þorolfi. Skalla-Grimur spurdi hvort hann hafdi rædt vid Þorolf: Eigill seiger ad þad var ecki. Grimur bad hann þad fyrst giora. Enn er Eigill vakte

þad

þad maal vid Þorolf, þa qvad hann þess ongva von, ad eg mune þig slitia med mier a brott, ef fader þinn þikist ei meiga um þig tæta hier i Hibylum sijnum, þa ber eg eie travst til þess ad hafa þig utanlendis med mier, þviad þier mun þad ecki hlyda ad hafa þar slijkt skaplindi sem hier. Vera ma seiger Eigill ad þa fare hvorgi ockar, Um nottina giordi a ædi vedur utsinning: enn um notting er mirkt var ordid og flod var Siovar, þa kom Eigill þar og geck fyrir utann tiolldenn hioo hann i sundur festar þær er a utborda voru, geck hann þegar sem skiootast upp um briggiuna, Skavt ut þegar briggiunum, og hioo þær festar er a Land upp vooru, rak þa wt Skipid a fiordinn: Enn er þeir Þorolfur urdu varer vid ad Skipid rak, hlupu þeir i bátinn, eñ vedrid var miklu hvassara enn þeir feingi nockud ad giort, rak skipid yfer til Andakils, og þar a Eyrar upp: enn Eigill foor heim til Borgar, Enn er menn urdu varer vid bragd þad er Eigill hafdi giort, þa lostudu þad flester, hann seiger ad hann skylldi skamt til lata ad giora Þorolfi meire skada og spillvirki, ef hann villdi ei flitia hann a burt, Enn þa attu menn hlut ad mille þeirra, og kom so ad liktum ad Þorolfur took vid Eigli og foor hann utann med honum um sumarid. Þegar Þorolfur kom til skips og hann hafdi tekid vid Exi þeirre er Skalla-Grimur feck honum, sem fyr seiger, þa kastadi hann Exinne fyrir bord a diwpi so ad hwn kom ecki upp sijdann. Þorolfur foor ferdar sinnar um sumarid og greiddiz vel um hafid og komu utann ad Hordalandi. Stefner Þorolfur þegar nordur til Sogne: Enn þar hofdu þav tijdindi ordid um veturinn ad Bryniolfur hafdi andaz wr sott, Enn syner hanns hofdu skipt Arfi, Hafdi Þordur Avrlands bæ þann er Fader þeirra hafdi att, hafdi hañ giorst Koongi handgenginn og giorst lendur madur. Dotter Þordar hiet Ranveig, Mooder Þordar og Helga, Enn Þordur var fader Ranveigar mooder Ingiridar er atti Olafur Koongur. Helgi var fader Bryniolfs, fodur þeirra Serks var Sogni og Sveins.

## Cap. xli.

Biørn hlavt bwstad goodann og virduglegann, giordist hañ ecki

handgenginn Koongi, þvi var hann kalladur Biørn Havldur, var hann madur vellavdigur og stoormenne mikid, Þorolfur foor brætt æ fund Biarnar þegar er hann kom af hafe, og filgdi heim Asgerde Doottur hanns, vard þar fagnadarfundur. Asgerdur var hin vænsta Kona og hin gerviligasta, Vitur Kona og allvel kunnandi. Þorolfur foor æ fund Eiriks Koongs, Enn er þeir hittust, bar Þorolfur Eiriki Koongi qvediu Skalla-Grims, og seiger ad hann hafdi þacksamlega tekid sending Koongs, bar fram sijdann Langskips segl gott er hann seiger ad Skalla-Grimur hafdi sendt Koongi. Eirikur Koongur took vel vid giof þeirre, og bavd Þorolfi ad vera med sier um veturinn. Þorolfur þackadi Koongi bod sitt: Æg mun nw fyrst fara til Þoris, æ eg vid hann navdsynia erindi. Sijdann foor Þorolfur til Þoris sem hann hafdi sagt, og feck þar allgoodar vidtokur, bavd Þorer honum ad vera med sier, Þorolfur seiger ad hann mundi þeckiaz, og er sæ madur med mier er þar skal vist hafa sem eg em, hann er brooder minn, og hefer hann ei fyrri heiman gengid, þarf hann ad eg veiti honum umsiæ, Þorer seiger ad þad var heimillt, þott Þorolfur villdi hafa fleyri menn med, sier þangad: Þiker oss seiger hann sveitarboot ad brooder þijnum, ef hann er nockud þier lijkur: Sijdann foor Þorolfur til skip sijns, og let þad uppsetia og umbwa, Enn hann for og Eigill til Þoris. Þorer ætti son er hiet Arinbiørn, hann var nockud elldri enn Eigill. Arinbiørn var snemma skørulegur madur, og hinn mesti iþrottamadur, Eigill giørdi sier kiært vid Arinbiørn, og var honum fylgiusamur, enn helldur var sætt med þeim brædrum.

## Cap. xlij.

Þorolfur Skalla-Grimsson hoof rædu þæ vid Þorer, hvornveg hann mundi taka þvi Mæle, ef Þorolfur bædi Asgerdar frændkonu hanns: Þorer took þvi liettilega seiger ad hann mundi flitiandi þess mæls, sijdann foor Þorolfr nordur i sogn, og hafdi med sier gott foruneite, Þorolfr kom til bws Biarnar og feck goodar

vid-

vidtokur, bavd Biørn honum ad vera med sier so leingi sem hann villdi. Þorolfr bar bratt upp erindi sitt vid Biørn, hoof bonord sitt og bad Asgerdar Dootter Biørns, hann took þvi mæli vel og var þad avdsoott vid hann, og redst þad af ad þar fooru festar fram, og qvedid æ brullavpsstefna, skylldi veisla su vera ad Birni þæ um havstid, Siidann foor Þorolfr aptur til Þoris, og sagdi honum þad sem til tijdinda hafdi giorst i for hanns. Þorer liet vel yfer ad þav ræd skylldu takast: Enn er ad þeirre stefnu kom er Þorolfur skylldi koma til veitslunar, þæ bavd hann mønnum til farar med sier, bavd Þorir og Arinbiørn, hwskorlum þeirra og rijkum bwendum, og var til þeirrar ferdar mikid fiolmennt og goodmennt. Enn þæ er miøg var komid ad stefnudeigi þeim er Þorolfur skilldi heimann fara, og brwdmenn vooru komner, þæ took Eigill sott so ad hañ var ei fær. Þeir Þorolfur tooku Langskip eitt mikid alskipad og fooru ferdar sinnar sosem æqvedid var.

# Cap. xliij.

Ølver hiet madur hann var hwskarl Þoris og var forstioore og rædamadur fyrir bwi hanns, hafdi hann skulldaheimtur og var fiehirder. Avlver var af æsku alldri og þo madur hiun hressaste. So bar til ad Avlver ætti Heimannferd ad heimta Landskillder Þoris þær er epter hofdu stadid um vorid, hafdi hann roodrarferiu og vooru þar æ xij. Hwskarlar Þoris. Þæ tosk Eigill ad hressast og reis hann þæ upp. Honum þootti þæ gioraft davflegt heima, er Allþijda manna var æ brott farinn. Kom hann ad mæle vid Avlver og seiger ad hañ villdi fara med honum, Enn Avlver þotti ei godum Lidsmanne ofavkid, þviad Skipkostur var ærinn, riedst Eigill til ferdar þeirrar, og hafdi hann med sier vopn sijn, Sverd og Kesiu og Buklara, og fara þeir ferdar sinnar er þeir vooru bwner, og feingu vedrabælk hardann, hvoss vedur og Ohagstæd, Enn þeir soktu ferdina Knalega, tooku roodrarleidi, svo bar til ferd þeirra ad þeir komu Aptann dags til Atleyar, og løgdu þar ad Landi: Enn þar var i Eynne skamt upp bw mikid er

ætti Eirikur Koongur. Þar red fyrir madur sa er Bárdur hiet, hañ var kalladur Atleyar Bárdur. Ecki var hann kynstoor madur eñ kiær var hann mikid Eiriki Koongi og Gunnhilldi Drottningu. Þeir Avlver droou nw upp Skip sitt wr flædarmæle, gengu sijdann til bæar og hittu Bárd wte og søgdu hönum um ferd sijna, so þad þeir villdu þar vera um noottina. Bárdur sa ad þeir vooru votir mikid, og filgdi hann þeim til Elldahwss, var þad brott fra ødrum Hwsum. Hann liet giøra elld mikinn fyrir þeim, og vooru þar þurkud Klædi þeirra. Eñ er þeir høfdu tekid Klædi sijn þa kom Bárdur þar, Nw munum vier seiger hann setia Ydur bord, Eg veit ad yckur mun vera tytt ad sofa, þier erud menn mooder af vose, Avlver lijkadi þad vel. Sijdann var sett bord og gefinn þeim matur bravd og smior og setter fram skyraskar stoorer. Bárdur seiger, Harmur er þad nw mikill, ad Aul er ecki inni, þad er eg meigi yckur fagna sem eg villdi. Verdi þier nw ad biargast vid slikt sem til er. Þeir Avlver vooru þyster miøg, og supu skyrid, sijdann liet Bárduv bera inn aptur og drucku þeir þad enn og loogudu, Afwos munda eg qvad Bárdur ad gefa yckur betra drick ef til væri. Halm skorte þar ei inne, bad hann þa þar nidurleggaz til svefns.

## Cap. xliv.

Eirikur Koongur og Gunnhilldur komu þad sama Kvølld til Atleyar og hafdi Bárdur þar bwid veitslu mikla mooti honum og skylldi þar vera Dijsabloot, og var þar veisla hin bestá og dryckia mikil inni stofunne: Koongur spurdi hvar Bárdur væri er eg sie hann hvorgi, Madur nockur svarar, Bárdur er ute og greider fyrir gestum sijnum. Hvorier eru gester þeir seiger Koongur, er hann lætur sier þad skylldara enn vera iñe hia oss. Madurinñ seiger ad þar vooru komner hwskarlar Þoris Hersis. Koongur seiger gangid epter þeim sem tidaz, og var so giort, sagt þeim ad Koongur vill hitta þa, sijdann ganga þeir, fagnadi Koongur þeim vel, og bad Avlver sitia gagnvart sier i ondveigi, og þar førunavta hanns utarfra, þeir giordu svo, sat Eigill næst Avlver, sijdann var þeim borid Avl ad drecka, fooru minne morg, og skilldi Horn drecka i

Minne hvort. Enn er œleid um qvolldid þa kom so, ad forunavtar Avlvers giordu alle Ofærer, sumer spioou þar inni i stofunne, Enn sumer komust ut fyrir dir, Bárdur geck þa fast ad gefa þeim dryck, þa took Eigill vid Horni þvi er Bárdur hafdi feingid Avlver, og drack af, Bárdur seiger ad hann þyrsti miog, og færdi honum þegar hornid fullt, og bad hañ af drecka, Eigill tok vid horninu og qvad vijsu.

Sogdud Sveri slagdt, Suml eckt þier Kumla. Þvi tel eg briót þar er blektud, Bragdvísan þig Dísa, leyndud alls til flla, ókunna þier Runna, allt hafid bragd af brugdid, barudar hugar fáre.

Bárdur bad hann drecka af og hætta flymtan þeirre, Eigill drack fullt hvort Horn er ad honum kom, og so fyrer Avlver. Þa geck Bárdur fyrir Drottning og sagdi henne, ad þar var madur sa er skom færde ad þeim og alldre drack so ei segdi hann sig þysta. Drottning og Bárdur blondudu þa dryckinn Olifiani, og signdi Bárdur fullu, feck sidann Aulseljunne, færdi hun Eigli og bad hann drecka: Eigill brá þa Knijfi sijnum, og stack i Loofa sier, hann took vid Horninu og risti a runer, og reid a bloodenu, og qvad vijsu.

Ristum Rún á Horne, Riódum spiolli drefra Þad vil eg Ord til Eyrna, Ods drottvidar róta, Dreckum veig sem vilium, Velokadra Þeya, Vitum Hve oss af Eyre, Ol þess Baardur ofsignde.

Hornid sprack i sundur, Enn dryckurinn foor nidur i halminn. Þa took ad lijda ad Avlver, og stood þa Eigil upp og leiddi hann ut til dyrana: Eigill kastadi hofdi hanns a oxl sier, og hiellt a sverdinu under Skickiunne. Bárdur geck þa epter Eigli med horn fullt og baud Avlver ad drecka. Eigill stood i dyrunum, og qvad vijsu.

Aulvar mig þvi ad Avlvi, Aul giorer nú folvann, Atgeira liet eg íra, Jrmg unt Gram skyrann, Aulldúngis kann alla, Oddskes fyri berniſu, Rigna getur ad Regne, Regn biodur Hars Þegna.

Eigill kastadi þegar horninu, enn greip sverdid og brá, mirkt var i stofunne.

stofunne, Eigill lagdi sverdinu ad Bárdi midium, so ad Bloodrefilliñ geck ut um Bakid, fiell Bárdur nidur davdur, enn blood hlioop ut wr undinne, þaa fiell Avlver, og gavs spia wr honum, Eigill hlioop ut um forstofudirnar, Enn nida mirkur var uti, took Eigill þegar araas af Bænum, gengu menn ut wr stofunne og saau ad þeir vooru falluer bæder Bárdur og Avlver, og hugdu menn fyrst ad hvor þeirra mundi hafa veigid annann: Enn af þvi ad dimt var liet Koongur bera lioos til, og saa þaa hvad tijdt var um Avlver, ad hann laa þar i spiu siñe i Ovite, Enn Bárdur davdur og flavt i bloodi hanns golf allt, Þaa spurdi Koongur hvar saa hinn mikle madur var er mest hafdi druckid um qvolldid, menn sogdu ad hann geck fram fyrir Avlver. Leitid ad honum seiger Koongur og laatid hann koma til mijn, sijdann var hanns leitad um bæinn, og fannst hann hvorgi. Enn er þeir komu i Elldhws þad er þeir Avlver hofdu matast um qvolldid, þaa laau þar marger foruna navtar Avlvers, enn sumer laau uti under hwsveggium. Koongsmenn spurdu hvort Eigill hefdi nockud þar komid, þeim var sagt ad hann hafdi hlavpid þar inn og tekid ofann vopn sijn og gengid ut, Þeir fooru inn i stofu, og sogdu Koongi allt þetta. Koongur bad menn sijna fara sem hvatast og taka Skip oll er vooru i Eyunne, Enn aa morgum sem lioost er, skal ransaka Eyna.

# Cap. xlv.

Eigill foor um nottina og leitadi þar til er Skipinn vooru, Eñ hvar sem hann kom til, Strandar þaa vooru þar allstadar menn fyrir, foor hann so nott þaa alla ad hann feck ecki Skip, Enn er dagadi og lysa tok þaa var hann staddur aa nese nockru, hann saa þaa Ey nockra og var þar sund i milli furdulega langt, þad var raad hanns ad taka hiaalminn og sverdid, kesiuna bravt hann af skapte, og skavt skaptinu aa sioo ut, enn vopninn batt hann i bagga i yferhofn sinne, og batt so mille herda sier, sijdann geck hann aa sund og synte til Eyarinnar, er þad ecki mikid land, enn gras lodin og vijda Skoogarrunnar. Fienadur var þar stoor margur af navtum og savdum sem Koongur hafdi til Bws sijns i Atley,

Eñ

Enn er Eigill kom i eyna, þa vatt hann Sioo wr Klædunn sijnum og bioost wn, þa var dagur ordinn all lioos, og Sool farin, Eirikur Koongur liet þegar ransaka Eyna er lijsa took, og vard þad seint ad Eyinn yrdi oll konnud, þviad Atley er mikid land, og fannst Eigill ei, þa liet Koongur fara til annara Eya og leita hanns, var þad sijdast um kvolldid ad xij. menn fooru til Savdeyar a Skwtu og skylldu þar leita Eigils, og ættu ad hafa þadann slæturfie nockud: Eigill sa Skipforina til Eyarinnar, lagdiz hann þa nidur i hrijsid og faldist, adur skipid kom ad landi, Enn er þeir gengu upp, þa lietu þeir epter iij. menn ad giæta skips, Enn ix. gengu upp og skiptu þeir leitinne fooru iij. i hvorn stad: Enn er leite bar i milli þeirra og skipsins, þa stood Eigill upp og hafdi adur greidt til um vopn sijn, Hann geck þvers til sioarins, og fram med sioonum, Enn þeir sem skipsins giættu fundu ei fyr enn hann kom ad þeim, og hioo þegar eirn þeirra banahogg, Enn annar took þegar a raas, og var þar ad hlavpa uppa backa nockurn, Eigill hioo epter honum og took af footinn, Enn þridie hlioop a skipid ut, og skavt undann Landi, Eigill took festina og droo ad sier skipid og sijdann wt a þad, skiptuz þeir litla hrijd hoggum vid, adur Eigill drap hann og færdi utbyrdis, Sijdann took hann arar og rere i brott skipinu, og þa nott alla, og epter um daginn, lietti hann ei sinne ferd fyr enn hann kom heim til Þoris: Enn Avlver og þeir forunavtar vooru fyrst ad ongvu færer, Enn þegar þeir hrestuz leitudu þeir heim Liet Koongur þa fara i fridi af þessum sokum, Enn þeir menn er i Savdey vooru, vooru þar nockrar nætur og draapu fienad til matar sier, og gerdu seidi og baal mikid, þar a Eynni er visse til Atleyar, logdu þar i Elld og giordu þar vita: Enn er þetta var sied wr Atley, þa var rooed til þeirra, og vooru flutter til lands þeir er epter lifdu, Koongur var þa i brott wr Atley, foor hann þa til annarar veislu, enn af Avlver er þad ad seigia, ad hann kom fyrri heim enn Eigill: Og voru þeir Þorolfur og Þorir þo adur heimkomner. Avlver seiger tijdindi, draap Bárdar og alla þa adburdi er adur hofdu giorst. Enn hann visse ei til ferda Eigills sijdann. Þorolfur var nw all Okatur og so Arinbiorn, þotti þeim sem Eigill mundi ei aptur koma: Eñ epter um morguninn, þa er lioost var, þa sau menn ad Eigill la i rume

me sijnu: Enn er Þorolfur vard þess vijs, þa stood hann upp og geck til fundar vid Eigil, og spurdi med hvorin mooti hañ hafdi u.adanu komiz, eda hvad til tijdinda hafdi ordid i ferd hanns. Þa qvad Eigill vijsu.

Svo hef eg leist úr lystu, Ládvarda dáodgarde, nie og fága dvøl driúga, Dádmillds og **Gunnhilldar**, ad þrymreinis þióuar, Þar nockvárer Hlackar, til Hásala Heliár, Helgengner fiár dveliast.

Arinbiørn liet vel yser verkum þessum, og sagdi fodur sijnum, ad hann væri skylldur til ad sætta Eigil og Koong. Þorer seiger ad þad mun mæl manna, ad Bárdur hafdi verdleika til ad hañ væri drepinn, Eñ þier Eigli er ofmiog ættgengt, ad sia lijtt vid þvi ad þu faer Koongs reide þviad flestum verdur þad þwngbært, Eñ þo mun eg vid leita ad sinne ad koma þier i sætt vid Eirik Koong. Þorir giørde bræatt heimannferd sijna a fund Eiriks Koongs, En Arinbiørn var heima a medann og liet hann hallda niooslum fyri þeim Eigli, og sagdi ad eitt skylldi ganga yfer þa alla. Enn er Þorer kom a fund Koongs, þa bavd hann bod fyrir Eigil, bavd festu sijna og doom Koongs. Koongur var hinn reidasti, og var vid hann ordum all óhægt ad koma, seiger ad þad mundi sannast er Haralldur Koongur hafdi sagt, ad þa frændur mundi seint tryggia meiga, bad Þorir so til haga ad Eigill væri eckí Langvistum i hanns Rijke. Enn fyrir saker bænar þinnar Þórer, þa mun eg taka sætt og fiebætur fyrir menn þessa, sijdann feste Þórir Koongi doom sinn fyrir menn þa er lætist hofdu, skildu þeir Koongur so, foor Þórer heim. Þorolfur og Eigill vooru þann vetur med Þóri og Arinbirne i goodu yserlæte.

## Cap. xlvj.

Þorolfur og Eigill biuggu um sumarid Langskip og feingu menn til, og fooru um sumarid i Avsturveg og heriudu, þar feingu þeir

of

of fiaar, og ättu Orustur margar, og hielldu um sumarid i Cur-
land, og läu þar vid land um hrijd, þeir logdu vid Landsmenn hälfs
mänadar frid, og hofdu Kavpstefnu vid þä, Enn er fridi var lokid,
þä tooku þeir ad herja, Enn landsmenn hofdu þä fyrisafnad ä Landi-
nu, þeir Þorolfur logdu ad i ymsum stodum þar sem þeim þotti vænst,
Einn dag logdu þeir ad vid Aroos nockurn, og var þar mork mikil þeg-
ar ä Landid upp; þeir redu þar til uppgongu, Lidi var skipt i sundur
og xij. menn samann i sveit, Þeir gengu yfer skoogin og var þad ecki
langt ädur þä took byggdinn til, og var þä helldur þunnbylt fyrst.
Vijkingar tooku þegar ad ræna og drepa menn. Enn Lidid flydi allt
undann, gengu skoogar milli bygdäna: Enn er þeir feingu ongva vid-
toku, þä dreyfdu þeir lidinu og fooru þä sveitum, Enn er äleid daginn
þä liet Þorolfur blaasa lidinu til ofanngongu, sneru menn þä aptur ä
skooginn hvar sem menn vooru stadder, Enn so framt mätti kanna lidid
sem þeir vooru komner til skipana, Enn er þeir ransokudu þä var Ei-
gill ei ofann kominn og sveit hanns, Enn þä took ad mirkva af nott, og
þoottust þeir þä ecki leita meiga. Eigill hafdi gengid yfer Skoog nock-
urn, og xij. menn med honum, og sää þä sliettur miklar og bigd vijda
Bær mikill stood nær þeim og ei langt fra skoogienum, þeir stefna til
bæarins, Enn er þeir komu þar, hlupu þeir inn i hws, og urdu þar ei
vid menn varer, enn tooku þar sie allt þad er lavst var, þar vooru morg
hws ad kanna, og dvaldiz þeim helldur, Enn er þeir komu ut og sneru
fra bænum, þä var lid komid mille þeirra og Skoogarins, og sootti
þad moote þeim. Skijdgardur var hær fra bænum til Skoogarins,
mællti Eigill ad þeir skylldu þar fara fram er ei mætti ollumeiginn ad
þeim ganga, þeir gerdu so, geck Eigill fyrstur, Enn sijdann hvor so
nær odrum ad ecki mätti skilia þä. Curer skutu ad þeim, enn gengu
ecki i hoggorustu vid þä. Þeir Eigill fundu ei fyrre er þeir geingu med
gardinum, Enn gardur geck ä adra hond þeim, og giordist þar miott
i milli þar til er lickia vard ä og mätti ecki fram komast, Curer sootti
epter þeim i qvijna, enn sumer sootu utann ad, og logdu spiootum og
sverdum gegnum gardana, Enn sumer bäru Klædi ä vopn þeirra,
urdu þeir särer og þvi næst handtekner og aller bundner, Leidder so heim
til bæarins. Madur sä er bæ þann ätti var rijkur og avdigur, hann

matti son reskinn. Siidann var umrætt, hvad vid þaa skylldi giora, sagdi Bondi ad honum þootti þad raad, ad drepinn væri hvor aa fætur odrum, Boonda son seiger ad þaa giordi mirkt af noott, og mætti þaa enga skemtun af hafa ad kvelia þaa, bad hann laata bijda morguns. Var þeim þaa skotid i hws eitt, og bundner ramlega. Eigill var bundinn vid Staf eirn, bædi hendur og fætur, siidann var hwsid læst ramlega; Enn Curer gengu inn i stofu og motuduz, voru allkaater og drucku: Eigill færdist vid og hristi stafinn er hann var vid bundinn, til þess er upplosnadi wr goolfinu: siidañ fiell stafurinn, smeigdist Eigill þaa af stafnum, siidann leisti hann hendur siinar med tonnunum, Enn er hendur hanns vooru lavsar, þaa leisti hann bond af footum sier, siidañ leisti hann felaga siina: Enn er þeir vooru aller lavser, leituduz þeir um i hwsinu, hvar lijkast var wt ad komaz, Hwsveggerner vooru af timburstockum stoorum, Enn i annann enda hwsins var Skialldþil flatt, hlupu þeir þar ad og brutu þilid, var þar hws annad er þeir komu i vooru þar og Tymburvegger um, þaa heyrdu þeir manna maal under fætur sier nidur, leituduz þeir þaa um og fundu hurd i goolfinu luku þeir þar upp, var þar under grof diwp, heyrdu þeir þangad mannamaal, siidann spurde Eigill hvad manna þar væri, saa nefndist Ake er vid hann mællti. Eigill spurdi ef hann villdi upp wr grofinne, Ake seiger ad þeir villdu þad giarna. Siidann lietu þeir Eigill siiga festi ofann i grofina þaa er þeir vooru bundner med, og droogu þar upp jv. menn, Ake seiger ad þeir vooru syner hanns ij: og þeir vooru meñ Danster, Hofdu þar ordid herteknir hid fyrra sumarid. Var eg seiger hañ vel halldinn i vetur, hafda eg miog fiaar vardveitslu bwanda, Eñ sveinarner vooru þiaader og undu þeir illa. J vor redu vier til og hlupum aa brott, og urdum siidann fundner, voorum vier þaa hier setter i grof þessa. Þier mun hier kunnugt um hwsaskipan seiger Eigill, hvar oss er vænst aa broott ad komast, Aki seiger ad þar var annad skialldþil, briooti þier þad upp, munu þier þaa koma fram i Kornhlodu, enn þar maa wt ganga sem vill. Þeir Eigill giordu so, brutu upp þilid gengu wt siidann i hloduna, og þadann wt, Niodmirkur var aa, þaa mællte þeir forunavtar ad þeir skylldu skunda aa skooginn. Eigill mællte vid Aka, Ef þier eru hier kunnug hybile, þaa muntu vijsa oss til fiefanga

nockra. Ake seiger ad ei mundi þar skorta lavsafie. Hier er lopt mikid er Boondi sesur i þar skorter ei vopn, Eigill bad þaa þangad fara til Loptsins: Enn er þeir komu upp i ridid, þaa saau þeir ad loptid var opid, var þar lioos inne og þioonustumenn og biuggu upp reckiur manna, Eigill bad þaa suma uti vera og giæta ad eingiun kiæmiz wt, Eigill hlioop inn i loptid, greip þar vopn, þviad þav skorti þar ei inne, dræpu þar menn alla þaa er þar vooru inne þeir tooku sier aller Alvæpni. Aki geck til þar er hlemur var i goolfþilinu, og lavk upp, mællte ad menn skylldu þar ofann ganga i underskemmuna, þeir tooku sier lioos og gengu þangad, vooru þar fiehirdslur boonda og griper gooder, og silfur mikid, tooku menn sier þar birder og bœru ut: Eigill took under hond sier mioddreckiu eina vel mikla, og bar under hendi sier fooru þeir þaa til skoogar, Enn er þeir komu i Skoogienn, þaa nam Eigill stadar og mællte þessi ferd er all ill og eie hermannlig. Vær hofum stolid fie boonda so ad hann veit ei til, skal oss alldri þaa skom henda, forum nu aptur til bœarins og lœtum þaa vita hvad tijtt er, Aller mælltu þar i moot seigia ad þeir villdu fara til skips. Eigill setur nidur mioddreckiuna, sijdann hefur hann aa raas og rann til bœarins: enn er hann kom þar, þaa saa hann ad þioonustusveinar gengu fraa Elldaskaala med Skutuldiska, og bœru inn i stofuna: Eigill saa ad i Elldahwsinu var Elldur mikill og Katlar yfer, geck hann þangad til, þar hofdu verid forkar stoorer flutter heim, og so Elldar giorver sem þar er sidvenia til, ad elldinn skal legia i stocksendann, og brennur so stockurinn. Eigill greip upp stockinn og bar heim til stofunnar, og skavt þeim endanum er logadi upp under grindina, og so upp i næfrina. Ellduriun las sig skiott i troodvidinn, Enn þeir er vid dryckiuna sœtu, fundu ei fyrr enn loginn stood inn um ræfrid, hlupu menn þaa til dyranna, Enn þar var ecki greidfært wt, bædi fyrir vidunum, so þad ad Eigill vardi dyrnar, felldi hann menn bædi i dyrunum og wti fyrir, Enn þar var svipstund ein aadur stofann brann, so ad hwn fiell ofann, tijndist þar lid þad allt er þar var inne. Enn Eigill geck aptur til skoogarins, fann þar forunavta sijna, fara þaa aller samann til Skips, sagde Eigill ad mioddreckiu þaa vill hann

 ha

hafa ad afgangsfie er hann foor med: Enn hwn var reindar full af silfri. Þeir Þorolfur urdu allfegner, er þeir Eigill komu ofann, hielldu þeir þa þegar fra Landi er mornadi. Ake og þeir fedgar vooru i sveit Eigils. Þeir sigldu um sumarid er a leid til Danmerkur, og lau þar enn fyrir Kavpskipum, og rændu þar er þeir komust vid.

# Cap. xlvij.

Haralldur Gormson hafdi þa tekid vid Rijki i Danmork, enn Gormur fader hanns var þa davdur, Landid var þa herskatt og lau Vijkingar miog wti fyrir Danmorku. Aka var kunnugt i Danmorku bædi a sioo og Landi, spurdi Eigill hann miog epter hvar þeir stader vooru er stoor fiefong mundi fyrir liggia, Enn er þeir komu i Eyrarsund, þa seiger Ake ad þar var a Land upp Kavpstadur mikill er hiet i Lundi, seiger ad þar var fievon, Enn lijklegt ad þar mundi vera vidtaka er Bæarmenn væri. Þad mal var uppborid fyrir Lidsmonnum, hvort þar skylldi rada til uppgongu eda ei. Menn tooku þar allmisjafnt a, fystu sumer enn sumer lottu Var þvi maale skotid til Styrimanna. Þorolfur fyste helldur uppgongu, þa var rætt vid Eigill hvad honum þotti raad. Hañ qvad vijsu.

Upp skulum Vorum Sverdum Ulfstann litudur glutra,
eigum dád ad drygia i Dalmiskum fiska, Leite upp til
Lundar, Lyda hvor sem tydaz, gerum fyrer setijr Sólar
sigur ófagran Vigra.

Sijdann bivgguz menn til uppgongu, og fooru til Kavpstadarims, Enn er bæarmenn urdu varer vid Ofrid, þa stefndu þeir i moot, var þar trieborg um stadinn, settu þeir þar menn til ad veria, tookst þar bardagi, Eigill gengur fyrstur inn um Borgina, sijdañ flydu bæarmenn, vard þar mannfall mikid, rændu þeir Kavpstadinn, enn brendu adur þeir skildust vid, fooru sijdann til skipa sinna.

Cap. xlviij.

# Cap. xlviij.

Þorolfur hiellt lidi sijnu nordur fyrir Halland, og lögdu þar til Hafnar er þeim bægdi vedur, og. ræntu] þar ecki. Þar var skamt a land upp Jarl saa er Arnfinnur er nefndur. Enn er hañ spurdi ad vijkingar vooru þar komner vid Land, þaa sendi hann menn sijna a fund þeirra þess erindis, ad vita hvort þeir villdu þar fridland hafa eda hernad, Enn er sendimenn vooru komner a fund Þorolfs med sijn Erindi, þaa seiger hann, ad þeir mundu þar ecki heria, seiger ad þeim var eingi navdsyn til ad heria þar og fara þar herskylldi, seiger ad þad var land ecki avdugt. Sendimenn fooru aptur til Jarlsins og sogdu honum erindislok sijn: Enn er Jarlinn vard þess var ad hann þurfti ecke lidi ad safna fyrir þaa sok, þaa reid hann ofann med ekkert lid og til fundar vid vijkinga: Enn er þeir funduz, þaa fooru þar allt vel rædur med þeim. Jarl bavd Þorolfi heim til Veislu med sier, og Lide hanns þvi er hañ villdi. Þorolfur hiet ferdinne, enn þaa er a var qvedid, liet Jarliñ senda reidskioota ofann i moote þeim, reduz þeir til ferdar bædi Þorolfur og Eigill og hofdu med sier xxx. manna. Enn er þeir komu til Jarlsins fagnadi hann þeim vel, Var þeim filgt inn i stofu. Var þar þegar inne munngaat og gefid þeim ad drecka, saatu þeir þar til Kvollds, enn aadur enn bord skylldi upptaka, þaa seiger Jarl, ad þar skylldi sæti hluta, skylldi drecka samann Karlmadur og kona, soſem til minnist, Enn þeir sem fleyri væri baaru hluti i Skavt, og tok Jarlenn upp. Jarl aatte Dotter allfrijda og var þaa vel frumvaxta, so seiger hlutur til ad Eigill skylldi sitia hiaa Jarlsdottur um qvolldid, Hun geck um golf og skemte sier, Eigill stood upp og geck til rums þess er dotter Jarls hafde setid um daginn, Enn er menn skipudust i sæte sijn, þaa geck Jarls dotter ad rume sijnu og qvad vijsu.

Hvad skalltu, Sveinn i Sess minn, Þviad þu sialldann hefur gefed nár Varge Varmar bráder. Vera vil eg einn um Vinnu mína. Sattadu Hraffn i sid Havste, of Hræfalle gialla, varad þar ed eggiar á Skel- þunnar rishnist.

Eigill took til hennar og sette hana hiꝏ sier og qvad vijsu.

Farid hef eg blódgum Brande, so ad mier benþidudur,
filgde og ginnanda geire, gangur var hardur á Vikingum,
giordum Reider Roslu, Rann Elldur um Sveit manna
Eg liet blódga búka í borghlidum sæfast.

Þꝏ drucku þav samann um qvölldid, og voru allkꝏt, var veisla hin besta, og so um daginn epter. Fooru þꝏ Vijkingar til skipa sinna, og skilduſt þeir Jarl med vinꝏttu og skiptuſt giofum vid. Hielldu þeir Þorolfur sidinu til Breneya. Þar var i þann tijma Vijkingabæli mikid, þviad þar sigldu Kavpskip morg igegnum Eyarnar. Ake foor heim til bwa sinna og syner hanns, hann var madur vellavdigur og ꝏtti morg bw ꝏ Jotlandi, og skildu þeir med Kiærleika og mælltu til vinꝏttu mille sijn, Enn er havſtadi sigldu þeir Þorolfur nordur fyrer Norege, og komu fram i Fiordum, fara ꝏ fund Þoris Hersis, tok hann vel vid þeim, Enn Arinbiorn son hanns miklu betur, bijdur hann ad Eigill skuli þar vera um Veturinn: Eigill tok þad med þockum: Enn er Þorer visse bod Arinbiarnar, þꝏ kallade hann þad helldur brꝏdmællt, Veit eg ei seiger hann, hvorsu þad lijkar Eirike Koongi, þvi ad hann mællte so epter aftoku Bárdar, ad hann villdi ecki ad Eigill væri hier i Landi. Rꝏda mꝏttu vel fader seiger Arinbiorn, þvi vid Koong ad hann telie ei ád um vist Eigils. Þw munt biooda Þorolsi mꝏgi þijnum hier ad vera, enn vid Eigill munum hafa ein vetur grid bꝏder. Enn af þessare rædu sꝏ Þorer ad Arinbiorn mundi þessu rꝏda: budu þeir fedgar Þorolfi þꝏ þar veturgrid, Enn hann þecktist þad, Vooru þeir þar vid xij. mann um veturinn. Brædur ij. eru nefnder Þorvalldur Osse og Þorfinnur Strangi, þad vooru nꝏfrændur Biarnar Hölds, og hofdu med honum uppfædst, þeir vooru menn miklir og sterker, kappsmenn miklir og framgiarner, þeir filgdu Birni þꝏ er hann var i Vijking, Enn sijdann hann settist um kyrt þꝏ fooru þeir brædur til Þorolfs, og vooru med honum i hernadi, þeir vooru i stafni ꝏ skipi hanns, Enn þꝏ er Eigill took Skipstiorn, þꝏ var Þorfinnur hanns stafnbwi, þeir brædur filgdu Þorolfi jafnann, og mat hann þꝏ mest skipveria sinna. Þeir vooru þann vetur i hanns sveit,

og sætu næst þeim brædrum. Þorolfur sat i avndveigi og ætti dryckiu vid Þorer, Enn Eigill sat fyrir ædrickiu Arinbiarnar, skilldi þar um golf ganga ad minnum ollum. Þorer Herser foor um havstid at fund Eiriks Koongs, took Koongur vid honum forkunnar vel. Enn er þeir tooku rædur sijnar, þa bad Þorer Koong, ad hann skyllde ei kunna hann, þad er hann hafdi Eigil med sier um veturinn, Koongur svarar þvi vel, sagde ad Þorer mætte þiggia af honum slijkt er hann villdi, Enn ecki mundi þetta so fara ef annar madur hefdi vid Eigli tekid. Eñ er Gunnhilldur heyrdi hvad þeir ræddu, þa mællte hun, þad ætla eg Eirikur ad nw fare sem optar ad þw siert miog talhlydinn, og manst þad ei leingi er illa er giort til þijn, enda muntu til þess draga fram so-nu Skalla-Gríms, ad þeir munu enn drepa nidur nockra nafrændur þijna, Enn þottu læter þad einskis þikia vert um dræp Bárdar, þa þike mier ei so; Koongur seiger, Meir fryr þw mier Gunnhilldur grimleiks enn adrer menn, Enn verid hefur kiærra af þinne hendi enn nw er, Enn ecki mun eg ord mijn aptur taka vid þa brædur. Vel var Þorolfur hier ædur Eigill spillti fyrir honum seiger Drottning, Enn nw ætla eg eingan mun. Þorer foor heim þa er hann var bwinn, og seiger þeim brædrum ord Koongs og Drottningar.

## Cap. xlix.

Eyvindur Skreya og Alfur hietu brædur Gunnhilldar, syner Avsurar Tota. Þeir vooru menn miklir og all sterker, og Kavpmenn miklir, þeir hofdu þa mest yferlæt af Eirjki Kongi og Gunnhilldi. Ecki vooru þeir menn þockasæler af Alþydu, Vooru þa a wngum alldri og þo fullkomner ad þroska. Þad var um vorid ad Bloot mikid skyllde vera ad sumri ad Gavlum, Þar var ægiætt hofud Hof, sootti þangad fiolmenne mikid wr fiordum og af fiolum, og wr Sogni, og flest allt stoormenne. Eirikur Koongur foor þangad, þa mællti Gunnhilldur vid brædur sijna: Þad vil eg ad þid sæid drepid annannhvorn þeirra sona Skalla-Gríms, og best ad þeir være bader drepner; þeir sogdu ad so skyllde vera. Þorer

Her-

Herser bioost til ferdar þeirrar. Hann kalladi Arinbiørn til maals vid sig: Nw mun eg seiger hann fara til Blootsins, Enn eg vil ecki ad Eigill fare þangad, þvi eg kenne raad Gunnhilldar, og kappsemd Eigils, enn Rijke Koongs, ad þess mun ei hægt ad gæta alls samann, Enn Eigill mun ecki letiast læta nema þw siert epter, Eñ Þorolfur skal fara med mier seiger hañ, og adrer þeira ferunavtar Skal Þorolfur bloota og leita heila þeim brædrum. Sijdañ seiger Arinbiørn Eigli, ad hann mun heima vera, og vid bæder seiger hann, Eigill qvad so vera skylldi, Enn þeir Þorolfur fooru til blootsins, og var þar all mikid fiolmenne, og drickiur miklar, Þorolfur foor med Þorer, og skylduz alldre hvar sem hann for, hvorke dag nie noott: Eyvindur seiger Gunnhilldi ad hann fieck ecki færi vid Þorolf: Hwn bad hann þaa drepa einhvorn manna hañs, helldur enn allt bæri undann. Þad var eitt qvolld þaa er Þorer var til svefns genginn, ogsu þeir Þorolfur, Enn þeir sætu epter Þorfinnur og Þorvalldur, þaa komu þeir þar bræchur Eyvindur og Alfur, og settust hiaa þeim og vooru allkæter. Drucku fyrst sveitardryckiur. Þaa kom þar ad hvor skylldi drecka til hælfs, drucku þeir samann Eyvindur og Þorvalldur, enn Alfur og Þorfinnur Enn er æleid qvolldid, þaa var druckid vid sleitur, og þvi næst ordahnyppingar og þaa stooryrdi. Þaa hlioop Eyvindur upp og braa saxe einu, og lagdi ad Þorvalldi so ad þad var ærid banasær, sijdann hlupu upp hvorutveggiu Koongsmenn og hwskallar Þoris, Enn menn vooru aller vopnlavser inne, þvi þar hoofst Helgi, og gengu menn i mille, og skildu þaa er odaster voru, Vard þaa ecke fleyra til tijdinda þad qvolld. Eyvindur hafdi veigid i veum, og var þaa vargur ordinn, og vard hann þegar brott ad fara. Kongur bavd bætur fyrir manninn: Enn Þorolfur og Þorfinnur seigia ad þeir hefde alldri tekid mannabætur, og þeir villdu ecki þær taka, Skildust ad so bwnu, fooru þeir Þorir heim. Eirikur Kongur og þav Gunnhilldur sendu Eyvind sudur til Danmerkur til Haralldz Koongs Gormsonar, þviad hann mætti þaa ei vera i Norænum Løgum, Koongur tok vel vid hønum og foruneite hanns. Eyvindur hafde til Danmerkur Langskip all mikid. Sijdann setti

Koongur

Koongur **Eyvind** þar til Landvarnar fyrer Vijkingum, **Eyvindur** var hermadur meste: Enn er vor kom epter vetur þann, þꜳ bwaz þeir **Þorolfur** og **Eigill** enn ad fara i Vijking, Enn er þeir voru bw-ner, hallda þeir i Avsturveg, Enn er þeir koma i Vijkina, þꜳ sigla þeir sudur fyrir Jotland og herja þar, og þꜳ fara þeir til Fryslands, og dveliast miøg leingi um sumarid, Enn hallda er ꜳ leid aptur til Danmerkur, Enn er þeir komu aptur til Landamæris þar ed mætist Danmørk og Frysland, og lꜳu þar vid Land, þꜳ var þad eitt qvølld er menn biugguft til svefns ꜳ skipum, ad menn ij. komu ꜳ skip **Eigils** og søgdu ad þeir ꜳttu vid hann Erindi. Var þeim filgt til hanns. Þeir seigia ad Ake hinn Avdgi hafde sent þꜳ þangad, med þeim Erindum ad **Eyvindur Skreya** liggur wte fyrer Jotlands sijdu, og ætlar ad sæta yckur þꜳ er þier farid sunnan, og hefur hann lid mikid samandreigid, so ad þier hafid eingi ꜳhølld vid ef þier hittid Lid hanns allt. Enn hañ siꜳlfur fer med lietteskipum tveimur, o… er nw hier skamt frꜳ yckur, Enn er tydindi þesse koma fyrir **Eig…**, þꜳ lꜳta þeir þegar af sier tiølldin, bad þꜳ fara hlioodlega, þeir giørdu so, Þeir komu i døgun ad þeim **Eyvinde**, þar er þeir lꜳu um Atkere, Løgdu þegar ad þeim, lietu ganga bædi grioot og vopn, fiell þar lid margt af **Eyvinde**: Enn hann siꜳlfur hlioop fyrir bord og komst med sundi til lands, og so allt þad lid er undann komst: Enn þeir **Eigll** tooku Skipinn og farminn, og fooru so aptur um Daginn til Lids sijns, hittu þꜳ **Þorolf**, spir hann hvort **Eigill** hafde farid, og hvar hann hafde feingid skip þav er þeir fara med. **Eigill** seiger ad **Eyvindur Skreya** hafde haft Skipinn, og þeir høfdu af honum tekid, Þꜳ qvad **Eigill** vissu.

Giørdum hellsti harda, Hríd fyrir Jotlands sídu, bardest
vel sá er varde, Víkingum Danaríke, ádur á sund fyrer
Sande, snarfeingur med Lid dreingia, avstur frá Ara-
hestum **Eyvindur** ofhlióp **Skreya.**

**Þorolfur** seiger þetta ætla eg yckur so hafa giørt, ad oss mun ecki havstlꜳngt vært ad koma til Noregs; **Eigill** seiger ad þad var vel, þoott þeir leitudu þꜳ i annann stad.

# Cap. I.

Alfrádur hinn rijke red fyrir Englandi, Hann var þar fyrstur Einvallds Koongur yfer, sinna Kynsmanna, það var a døgum Harallds Koongs Hárfagra i Norege. Epter hann var Koongur i Englandi son hanns Játvardur, hann var fader Adalsteins hins Sigursæla foostra Hákonar hins Góda, um þeñañ tijma took Adalsteirn Koongdoom i Einglandi epter Fodur sinn, Þeir voorn fleyri syner Játvards. Enn er Adalsteirn hafdi tekid Koongdoom, þa hoofust upp til Ofridar þeir Hofdijngiar er adur hofdu laatid rijke sijn fyrer þeim Langfedgum. Þootti nw sem dælast mundi til ad kalla, Er wngur Koongur ried fyrir Rijke, vooru það bædi Bretar, Skottar og Irar. Enn Adalsteirn Koongur safnadi Herlidi ad sier, og gaf maala þeim monnum er það villdu hafa til fiefangs sier, bædi Utlendskum og Innlendskum. Þeir brædur Þorolfur og Eigill hielldu sudur fyrir Saxland og Flæminga Land, þa spurdu þeir ad Einglands Koongur þottist lids þurfa, og þar var von fiefangs mikils, giora þeir þa raad ad hallda þangad lidi sijnu Fooru þeir þa um havstid til þess er þeir komu a fúnd Adalsteins Koongs, took hann vel vid þeim og leist so a ad lidsemd mikil munde vera ad fylgd þeirra. Verdur það braatt i rædum Einglands Koongs ad hann bijdur þeim til sijn, ad taka þar maala og gioraſt Landvarnarmenn hanns, semia þeir það maal sijn i mille, ad þeir gioraſt meñ Adalsteins. Eingland var Christid i þann tijma og hafdi teingi verid þa er þetta var tijdinda. Adalsteirn Koongur var vel christinn. Hann var kalladur Adalsteirn hinn Trwfaste, Koongur bad Þorolf og þa brædur ad primsignast, þviad það var þa mikill sidur bædi med Kaupmonnum, og þeim monnum er a Maala gengu med christnum monnum, þviad þeir menn er primsignader vooru, hofdu samneite vid christna menn og so heidna, Enn hofdu það ad atrwnade er þeim var skapfelldast. Þeir Þorolfur og Eigill giordu það epter bæn Koongs, og lietu primsignast baader, þeir hofdu þar CCC. sinna manna, þeirra er maala tooku af Koonge.

Cap. II.

# Cap. lj.

Olafur Raude hiet Koongur a Skotlandi. Hann var Skotskur ad fodur kyne, enn Danskur ad moodur kyni, og kominn af ætt Ragnars Lodbrokar, hann var rijkur madur, Skotland var kallad Pridiwngur Rijkis vid Eingland, Nordymbraland er kallad fimtwngur Einglands, og er þad nordaz næst Skotlande, fyrir avstann þad hofdu haft ad fornu Dana Koongar, Jorvik er þar Hofudstadur, þad Rijke atti Adalsteirn, og hafdi sett yfer Jarla tvo, hiet annar Alfrekur enn annar Gudrekur, þeir satu þar til Landvarnar, bædi fyrir agangi Skotta og Dana, eda Nordmanna er miøg heriudu a landid, og þoottust eiga tilkall mikid þar til lands, Þviad a Nordumbralandi vooru þeir einer menn er nockud var til ad Danska ætt attu ad faderni eda mooderni, en marger hvorutveggia. Fyrer Bretlandi riedu brædur tveir, Hringur og Adils, og vooru skattgillder under Adalsteirn Koong, og filgdi þad þa er þeir vooru i her med Koongi, ad þeir og þeirra lid skylldu vera i Brioste Fylkingar fyrir merkium Koongs, Vooru þeir brædur hiner mestu hermenn, og ei allwnger menn. Alfrádur hinn rijke hafdi tekid alla Skattkoonga af Nafni og Vellde, hietu þeir þa Jarlar er adur voru Koongar, eda Koonga syner, hiellst þad allt um hanns æfe, og Játvardar sonar hanns. Enn Adalsteirn kom wngur til Rijkis, og þotti af honum minne Ogn standa, giordiz þa marger Otrygger þeir er adur vooru þioonustufuller.

# Cap. lij.

Olafur Skotlands Koongur droo samann her mikinn og foor sijdann sudur a Eingland, Enn er hann kom a Nordumbraland, foor hann allt Herskilldi, Enn er þad spurdu Jarlarner er þar riedu fyrir stefna þeir samann lidi og fara moote Koongi. Enn er þeir finnaz, vard þar orusta mikil, og lavk so ad Olafur Koongur hafdi sigur, En Gódrekur Jarl fiell, enn Alfgeir flydi undann, og mestur hluti lids þess er þeim hafdi filgt, og brott komst wr bardaga, feck Alfgeir þa onga

 va

va vidstodu. Lagdi Olafur Koongur þaa allt Nordymbraland under sig. Alfgeir foor aa fund Adalsteins Koongs, og sagdi honum Ofarer sijnar, Enn þegar er Adalsteirn Koongur spurdi ad her so mikill var kominn i land hanns, þaa gerdi hann þegar menn fraa sier og stefndi ad sier lidi, giordi ord Jorlum sijnum og odrum Rijkismonnum, snere Koongur þegar aa leid med þad lid er hann feck, og foor i moot Skottum, Enn er þad spurdist ad Olafur Skottakoongur hafdi feingid sigur og hafdi lagt under sig mikinn hlut af Einglandi, hafdi hann þaa her miklu meir enn Adalsteirn, Enn þaa sootti til hanns margt Rijkismanna: Enn er þetta spiria Hringur og Adils, hofdu þeir samandreigid lid mikid, Þaa snwast þeir i lid med Olafi Koongi, hofdu þeir þaa Ogriñe lids: Enn er Adalsteirn spurdi þetta allt, þaa aatti hann stefnu vid Hofdingia sijna og Raadamenn, leitade þaa epter hvad tiltækilegast være: sagdi þaa allri Alþydu greinilega þad er hann hafdi friett um Athofn Skottakoongs og fiolmenne hanns. Aller mælltu þar eitt um, ad Alfgeir Jall hefdi hinn vesta hlut af, og þootti þad tilliggia ad taka af honum tygnina, Enn su Raadagiord stadfestist, ad Adalsteirn Koongur skylldi fara aptur, og fara aa sunnanvert Eingland, og hafa þaa fyrer sier lid safnad nordur epter Landi ollu, þviad þeir saau ad Olafur Koongur gat seint safnad fiolmenne so miklu sem þyrfte ef ei drægi Koongur sialfur ad lidid, Enn saa her er þaa var þar saman kominn, þaa setti Koongur þar yfer Hofdingia Þorolf og Eigil, skylldu þeir raada fyrir þvi lidi er Vijkingar hofdu þangad haft til Koongs. Eñ Alfgeir Jall hafdi þaa enn foraad sijns lids.. Þaa feck Koongur enn sveitar Hofdingia þaa er honum syndiz. Enn er Eigill kom heim af stefnunne til fielaga sinna þaa spurdu þeir hvad hann kynni ad seigia þeim tijdinda af Skottakoongi, Hann qvad vijsu.

> **Olafur** of kom Jofre, ótt vig á bak flótta, Þínghardann
> spir eg Þeingil, þann er fellde annann, glapstigu liet
> gnoga, **Godrekur** manna trodna, Jord sperdan Engla
> Skerder, **Alfgeir** under sig hálfa.

Sijdann giora þeir sendimenn til Olafs Koongs, og finna þad til Erinda, ad Adalsteirn Koongur vill hasla þeim voll, og biooda orustustad

a Vijnheidi, vid Rinuskooga, og hann vill ad þeir herie ei a land hanns, Eñ sa þeirra rædi Rijke a Einglandi er sigur fær i orustu, Lagdi til vikustefnu um fund þeirra; Enn sa bijdur annars viku er fyrri kemur. Enn þad var þa sidur þegar Koongi var vollur haslađur, ad hann skyllde ei heria ad skamlavsu fyrri enn orustu være lokid, Giordi Olafur Koongur so ad hann stodvadi her sinn og heriadi ei, og beid til stefnudags, þa flutti hann her sinn til Vijnheidar, Borg ein stood fyrir nordann heidina, settist Olafur Kongur þar i Borgina, og hafde þar mestann hlut lids sijns, þviad þar var uti fra Hierod stoor, og þootti honum þar betra til adflutninga um føng þavg er Herinn þurfti ad hafa. Enn hann sendi meñ sijna upp a Heidina, þar sem Orustustadurinn var aqvedinn, skylldu þeir taka þar tialldstadi og, bwast þar um adur Herinn kiæme: Enn er þeir menn komu i þann stad er vollurinn var haslađur, þa vooru þar settar upp Hesliſteingur allt til ummerkia, er sa stadur var er orustann skylldi a vera, þurfti þann stad ad vanda ad hañ være sliettur er miklum her skylldi fylkia, Var þar ogso er orustann skylldi vera Heidi sliett, enn annann veg fra fiell a ein, enn a annann veg fra Skoogur mikill, Enn þar er skemst var i milli Skoogarinns og Arinnar, var þad miøg løng leid, þar höfdu tialldad menn Adalsteins Koongs. Stoodu tiolld þeirra allt i milli Skoogarinns og Arinnar, og var þad mikill vegur. Þeir hofdu so tialldad ad ei vooru menn nema i þridia hvoriu tialldi, og þo fáer i einu. Enn er menn Olafs Koongs komu til þeirra, þa hofdu þeir fiolmennt miøg framann tiolldinn oll, og nádu þeir ecki iñ ad gaanga, sogdu menn Adalsteins Koongs, ad tiolld þeirra være oll full af mønnum, so ad hvorgi nær hafdi þar rum þeirra lid, Enn tiolldinn stoodu so hatt ad ecki mætti yfer upp sia hvort þar stoodu morg eda fa a þiktina, þeir hugdu ad þar mundi vera Her meñ. Olafs Koongs menn tiolldudu fyrir nordann Heslur, og var þangad allt nockud afhallt, Adalsteins menn sogdu og annann dag odrum, ad Koongur þeirra mundi þa koma eda vera kominn i borg þa er var sunnan under Heidinne. Lid drooſt nw til þeirra bædi dag og noott. Enn er stefna su var lidin er aqvedinn var, þa

senda menn Adalsteins Koongs a fund Olafs Koongs, sinna Erinda med þeim ordum, ad Adalsteirn Koongur er bwinn til orustu, og hefur her allmikinn: Enn hann sender Olafi Koongi þav ord, ad hann vill ei þeir giore so mikid mannspell sem þa horfdist til. Bad hann helldur fara heim i Skotland, Enn Adalsteirn vill fa honum ad vingiof skyllding silfurs af plogie hvorium um allt Rijke sitt, og vill ad þeir leggi med sier Vinattu: Enn er sendimeñ komu til Olafs Koongs, Þa took hann ad bwa her sinn og ætladi ad rijda: Enn er sendimenn bæru upp Erindi, Þa stodvadi Koongur ferd sijna þann dag, sat þa i radagiord og Hofdingiar hañs med honum, Logdu menn þar allmisjafnt til, Sumer fystu miog ad þennann kost skylldi taka, sogdu ad þad var þa ordinn hin mesta fremdarfor, ad þeir færi heim og hefdi tekid gialld so mikid af Adalsteine. Sumer lottu og sogdu ad Adalsteirn mundi biooda miklu meira i annad sinn ef þetta væri ei tekid, og var su radagiord stadfest. Þa badu sendimenn Olaf Koong ad gefa sier toom til ad þeir hitti enn Adalsteirn Koong og freysta ef hann villdi enn meira gialld af hendi reida til þess ad fridur væri. Þeir beiddu grida eirn dag til umrada, annann til Heimreidar, þridia til apturkomu: Koongur jatadi þvi fara sendimenn heim, og koma aptur hiñ þridia dag sem aqvedid var, sogdu Olafi Koongi ad Adalsteirn Koongur vill gefa allt slijkt er hann bavd fyrri, og þar um fram til hlutskiptis lidi Olafs Koongs, skillding manne hvorium frialsbornum, enn mork sveitar Hofdingia hvorium, þeim er riedi fyrir xij. monnum eda fleyrum; Enn mork Gulls Hirdstioora hvorium, Enn v. merkur Gulls Jarli hvorium: Sijdann liet Koongur þetta uppbera fyrir lid sitt. Var enn sem fyr ad sumer lottu, enn sumer fystu: Enn ad lyktum veitti Koongur þann wrskurd, sagdi ad þennann kost vill hann þiggia, ef þad filger ad Adalsteirn Koongur lætur hann hafa Nordumbraland allt med þeim skottum og skylldum er þar liggia. Sendimenn bidia enn frest a um iij. daga, og þad med ad Olafur Koongur sendi þa menn sijna ad heyra ord Adalsteins Koongs, hvort hann vill eda ei þennann kost: seigia ad þeir hyggia ad Adalsteirn Koongur mundi lata satt vid þa nema sættin tækist

Ol-

Olafur Koongur jaatar þvi og sender menn sijna til Adalsteins Koongs, rijda þaa sendimenn aller samañ, og hitta Adalsteirn Kong i borg þeirre er næst var Heidinne fyrir sunnann. Sendemenn Olafs Koongs, bæru upp Erindi sijn fyrir Adalsteini Koongi og sættarbod, Adalsteins meñ seiga og med hvorin þeir hofdu farid til Olafs Koongs, og þad med ad þad var raadagiord vitra manna ad dvelia so orustuna medann Koongur kiæme ei: Enn Adalsteirn Koongur veitte skiootann wrskurd um þetta maal, og seiger sendimonnum so, Berid þav ord mijn Olafi Koongi, ad eg vil gefa honum ordlof til þess ad fara heim til Skotlands med lid sitt, og gialldi hann aptur fie þad allt er hann took upp med rongu hier i landi, setium sijdann hier frid i millum landa vorra og herie hvorugir a adra, þad skal og filgia ad Olafr Koongur skal giorast minn madur og hallda Skotland af mier, og vera Underkoongur minn. Farid nw seiger Koongur aptur og seiged honum so komid. Sendimenn sneru aptur leid sijna þegar um qvolldid og koma til Olafs Koongs nær midre noott, voktu þaa upp Koong og seigia þegar ord Adalsteins Koongs, Koongur liet þegar kalla til sijn Jarlana og adra hofdingia, liet þaa sendemenn koma til og seigia upp Erindislok sijn og ord Adalsteins Koongs. Enn er þetta var kunnugt giort fyrir lidsmonnum, þaa var eitt ordtak allra, ad þad mundi fyrirliggia ad bwast til orustu, sendimenn seigia og þad med ad Adalsteirn hafde fiolda lids, og hann hafdi þann dag komid til Borgarinnar, sem sendimenn komu. Þaa mællti Adils Jarl: Nw mun þad framkomid sem eg sagda Koongur, ad yckur mundi reinast þeir brogdotter ener Ensku. Hofum vid hier setid langa stund, og bedid þess er þeir hafa ad sier dreigid allt Lid sitt, Enn Koongur þeirra mun verid hafa hvorgi nær, þaa er vier komum hier. Munu þeir nw hafa safnad lidi miklu sijdann vier settum grid. Nw er þad raad mitt Koongur ad vid brædur rijdum þegar i noott fyrir med ockru lidi, maa þad vera ad þeir ottist nw ecki ad sier, er þeir hafa spurt ad Koongur þeirra er nær med Her mikinn, skulum vier þaa veita þeim aahlavp, Enn er þeir verda farflotta þaa munu þeir laata lid sitt, enn adrer fara sijdann i adgongu aamoote oss. Koongi þootti þetta raad vel fundid, og munum vier bwa Her vorn

þeg

þegar ad lyser og fara til moots vid yckur, stadfestu þeir þetta raad og luku so Stefnunne.

## Cap. liij.

Hringur Jarl og Adils brooder hanns biuggu her sinn, og fooru þegar um noottena sudur aa Heidina: Enn er lioost var þaa saau Vardmenn þeirra Þorolfs hvar Herinn foor, Var þaa blaasiñ herblaastur og herklæddux menn, tooku siidann ad fylkia lidinu og hofdu ij. fylkingar, red Alfgeir Jall fyrir annare fylking, og var merki borid fyrir honum. Var i þeirre fylking lid þad er honum hafdi filgt, og so þad lid er þar hafde til safnast wr hierodum. Var þad miklu fleyra Lid enn þad þeim Þorolfi filgde. Þorolfur var so bwinn, ad hann hafdi skiolld viidann og þickvann, Hiaalm aa hofde allsterkann, girtur sverdi þvi er hann kalladi Lang, mikid vopn og gott, Kesiu hafdi hann i hende, Fiodurinn var tveggia alna long, og sleigiñn fram brodddurinn ferstrendur, enn upp var fiødurinn breid, falurinn bædi langur og digur, Skaptid var ei hærra enn taka maatti hendi til fals, og furduliga digurt. Jarnteirn var i falnum, og skaptid allt jarnvafid, þav spioot vooru kollud brynþvarar. Eigill hafdi hiñ sama bwnad, sem Þorolfur, Hann var girtur sverdi þvi er hann kalladi Nadur, þad sverd hafdi hann feingid aa Curlandi, var þad hid besta Vopn, hvorgi þeirra hafdi bryniu. Þeir settu merki upp og bar þad Þorfinnur Strangi, allt lid þeirra hafdi Norræna skiolldu, og allann Norænann herbwnad. J þeirre filkingu vooru aller Norræner menn þeir er þar vooru. Fylktu þeir Þorolfur lidi nær skooginum, Eñ Alfgeirs Fylking foor nær Anne. Adils Jarl og þeir brædur saau ad þeir mundu ecki koma þeim Þorolfi aa ovart, og tooku so ad fylkia lidi siinu, giordu þeir og ij. fylkingar, og hofdu ij. merki, Fylkte Adils moot Alfgeire Jarli, enn Hringur moote Viikingum. Siidañ tookst þar orusta, gengu hvoretveggiu vel fram. Adils Jarl sotti hart fram þar til er Alfgeir liet undann siga. Enn Adils menn sottu þaa haalfu diarflegar, var þaa ei langt aadur Alfgeir flydi, og er þad fraa honum

ad

ad seigia ad hann reid undann sudur a heidina og sveit manna med honum, reid hann þar til er hann kom nær borg þeirre er Koongur sat i. Þaa mællte Jarlinn, ecki ætla eg os fært til borgarinnar. Vier feingum mikid ordaskap næst er vier komum til Koongs, þaa er vier hofdum farid Osigurfor, og mun honum ecki þikia bâtnad hafa vor Kostur i þessari ferd. Mun nw ecki þurfa ad ætla til sæmda þar sem hann er: Sijdann reid Jarl sudur a Landid, og er af hanns ferd þad ad seigia, ad hann reid dag og noott þar til er hann kom vestur a Jarlsnes, fieck Jarl sier þar far sudur um sæ, og kom fram a Vallandi, þar atti hann kyn hoalft, kom hann alldri sijdann til Englands. Adils rak flottann og ei langt aadur hann snyr aptur, og þar til er orustann var og veitti þaa atgongu, Enn er Þorolfur saa þad, sneri hann imoot Jarle, og bad þangad bera merki, bad menn sijna filgiaz vel og standa þickt. Þoknm oss ad Skooginum seiger hann, og laatum hann hlyfa a bak oss, so ad þeir meigi ei ollumeiginn ad ganga. Þeir giordu so, fylktu lidinu fram med skooginum. var þaa hord orusta, setti Eigill mote Adils, og aattust þeir vid hord skipte: Lidsmunur var allmikill, og þo fiell meir lid þeirra Adils. Þorolfur giordist þaa so Odur ad hañ kastadi Skilldinum a bak sier aptur, enn took spiootid tveim hondum, hlioop hann þaa fram, hioo og lagdi til beggia handa, stucku menn þaa fraa tveggia vegana, enn hann drap marga, ruddi hann so veigeñ fram ad merke Jarlsins Hrings, og hiellst þaa ecki vid honum, hann drap þann mann er bar merke Hrings Jalls, og hioo nidur merkisstongina, sijdann lagde hann spiootinu fyrir briooft Jarlinum igegnum Brynjuna og Bwkinn, so ad wt geck um herdarnar, og hoof hann upp a Kesiune yfer hofud sier, og skavt nidur spiootshalanum i Jordina, Eñ Jarlinn sæfdist a spiootinu, og saau þad aller bæde hañs menn og hañs Oviner. Sijdann braa Þorolfur sverdinu, hioo hann þaa til beggia handa, soottu þaa og ad hanns menn, fiellu þaa miog Bretar og Skotar, Enn sumer sneruft a flotta. Enn er Adils Jall saa fall broodur sijns, og mannfall all mikid af lidi hanns, Enn sumer flydu, enn hann þoottist hart vid eiga, þaa snere hann a flootta og rann til skoogarinns. Hann flydi i skooginn og hanns sveit, took þaa ad flya allt lid þad er þeim hafdi filgt, giordist þaa mannfall mikid af flottamonnum, og dreif-

dist þa flottinn vijda um heidina. Adils Jall, hafdi nidurdrepid merki sijnu, og visse þa eingenn hvar hann foor eda adrer menn, took þa brætt ad mirkva af noott: Enn þeir Þorolfur og Eigill sneru aptur til Herbwda sinna, og þa jafnskiott kom Adalsteirn Koongur med allann Her sinn, og sloou þa upp Landtiolldum sijnum og biugguz um. Litlu sijdar kom Olafur Koongur med sinn her, tiolldudu þeir og biuggust um þar sem þeirra menn hofdu tialldad. Var Olafi Koongi sagt ad fallner vooru þeir bæder Jarlar hanns Hríngur og Adils, og mikill fioldi annara manna hanns.

## Cap. liv.

Adalsteirn Koongur hafdi verid ædur hina næstu noott i borg þeirre er fyr var fræsagt, og þar spurdi hann ad bardagi hafdi verid a Heidinne, biooft þa þegar allur herinn og sootti noordur a heidina, spurdi þa oll tijdindi gloggliga, hvorn veg orusta su hafdi farid. Komu þa til fundar vid Koong þeir brædur Þorolfur og Eigill, þackadi hann þeim vel framgongu sijna og sigur, þann er þeir hofdu unnid, hiet þeim vinættu sinne fullkominne, dvoldust þeir þar aller samt um noottina. Adalsteirn Koongur vakte her sin þegar um morgunen ærdeigis, hann ætti tal vid Hofdingia sijna, og sagdi hvor skipan vera skylldi fyrir lidi hanns, skipadi hann fylking sijna fyrst, og þa setti hann i brioosti þeirrar fylkingar sveiter þær er snarpastar vooru. Þa mællti hann ad fyrir þvi lidi skylldi vera Eigill, Enn Þorolfur seiger hann skal vera fyrir lidi sijnu, og odru þvi lidi er eg set þar. skal þad vera onnur fylking i lidi voru er hann skal vera Hofdingi fyrir, þviad Skottar eru jafnann lavsir i fylkingu, hlavpa þeir til og fræ og koma i ymsum stodum fram, verda þeir opt skeinusamer ef menn varast ei, Enn eru lavser a Velli ef vid þeim er horft: Eigill seiger Koongi, Ecki vil eg ad vid Þorolfur skiliunst i orustune. Enn vel þike mier ad ockur sie þar skipad er hellst þiker þurfa, og hardaz er fyrir, Þorolfur mællte lætum vid Koong ræda hvad hann vill tilskipa, og veitum honum so

ad

ad honum lijke: Mun eg una helldur ef þu ert þar er þier er skipad; Eigill seiger þu munt nu ræda, Enn þessa skiptis mun eg mest idrast, gengu menn þa i silkingar sosem Koongur hafdi skipad og vooru sett upp merki. Stood Koongs fylkingar endi til Arinnar: Enn Þorolfs fylking foor id efra med skooginum, Olafur Koongur took þa ad fylkia lidi sijnu, þa er hann sa ad Adalsteirn hafdi fylkt. Hann giordi og ij. fylkingar og liet hann fara merki sitt, og þa fylking er hann ried sialfur fyrir imoote Adalsteini Koongi og hanns fylking. Hofdu þa hvorertveggiu her so mikinn ad einginn var munur hvorir fiolmennari vooru: Enn onnur fylking Olafs Kgs. foor nær skooginum moot lidi þvi er Þorolfur ried fyrir. Vooru þar Hofdingiar Jallar Skotsker, vooru þad Skottar flest og var þad fiolmenni mikid. Sijdann redduz a fylkingar, og vard þar brætt orusta mikil, Þorolfur sotte fram hart, og liet bera Merki sitt fram med skooginum, og ætladi þar so fram ad ganga, og komasso i opna skiolldu Koongs fylkingu, hofdu þeir skiolldùna fyrir sier, eñ skoogurinn var til hægra vegs, lietu þeir hann þar hlysa. Þorolfr geck so fram ad fæer menn hanns vooru fyrir honum: Enn þa er hann vardi minst, þa hlavpa þar ut skooginum Adils Jarl og sveit su er honum filgdi. Logdu þegar morgum Kesium senn a Þorolf og fiell hann þar vid skooginn, enn Þorsinnur er merkid bar, hopadi aptur þar til er lidid stood þyckra: Enn Adils sotti þa ad þeim, og var þar þa orusta mikil, æptu Skottar þa sigurop er þeir hofdu deydt hofdingian Lidsins: Enn er Eigill heyrer op þad, og sa ad merki Þorolfs foor a hæl, þa þoottist hann vita ad Þorolfr mundi ei fylgia. Sijdann hleipur hann til þangad fram i millum fylkinganna, hann vard skioott var þeirra tijdinda er þar vooru ordin, þegar hann sann sijna menn: Hann eggiar þa lidid miog til framgongu, var hann fremstur i brioostinu: hann hafdi sverded Nadur i hendi. Hann sotti þa fram og hio til beggia handa, og felldi marga menn, Þorsinnur bar merkid þegar epter honum, eñ annad lid silgdi merkium. Var þar hin snarpasta orusta, Eigill geck fram til þess er hann mætti Adilse Jarli, attust þeir sa hogg vid adur Adils fiell, og margt manna um hann. Epter fall hanns flydi lid

 hanns

hanns þad er honum hafdi filgt, Enn Eigill og hanns lid filgdu þeim og dræpu allt þad er þeir nædu, þviad ecki þurfti þa grida ad bidia: Eñ Jarlar þeir ener ſkotſku ſtoodu þa ecki leingi; þegar er þeir ſaau ad adrer flydu þeirra fielagar, tooku þegar æraas undann. Enn þeir Eigill ſtefndu þa þar til er var Koongsfylkingin, og komu þa i opna ſkiolldu, giordeſt þa brætt mikid mannfall, ridladiſt þa fylkingin og loſnadi oll, flydu þa marger af Olafs monnum: Enn Vijkingar æptu þa ſigurop: Enn er Adalſteirn Koongur þoottiſt finna ad rofna took fylking Olafs Koongs, þa eggiadi hann lid ſitt og liet frambera merke, giorde þa atgongu harda ſo ad hrok fyrir lid Olafs Koongs, og giordiſt allmikid mannfall, fiell þar Olafur Koongur og meſtur hluti Lids þeſs er Olafr hafdi haft, þviad þeir er a flotta ſneruſt vooru aller drepner er nad vard, feck Adalſteirn Koongur þar allmikinn ſigur.

## Cap. lv.

Adalſteirn Koongur ſnere brott fra oruſtune, enn menn hanns ræku flootann, Enn hann reid aptur til Borgarinnar, og took ei fyrr nættſtad enn i Borginne: Enn Eigill rak flootann og filgdi þeim leingi, og drap hvorn mann er hann nadi, ſijdann ſneri hann aptur med ſveitunga ſijna, og foor þar til er oruſtan hafdi verid, og hitti þar Þorolf broodur ſinn lateinn. Hann took upp lijk hanns og bioo um ſijdann ſem ſidvenia var til: groofu þeir þar grof, og ſettu Þorolf þar i med vopnum ſijnum ollum og klædum: ſijdann ſpente Eigill Gullhring a hvoria hond honum, ædur hann ſkildiſt vid, hloodu ſijdann ad griote og juſu ad molldu. Þa qvad Eigill viiſu.

Geck ſá er óadeſt ecke Jarl Mañs bane ſnarla, þreklundadur fiell þundur. Þorolfur i gní ſtórum, Jord grær enn vid Vardar, vunnum nær ofrunnum: Helnaud er þad ad hylia, Harma ágiætan barma.

Og enn qvad hann.

Valkeſtum hlód eg Veſtañ, Vang fyrir merkis ſtanger, Oft var þad eg ſóttag Adils blgum Nadri: Hódt úng-

ur

ur vid Engla, **Olafur** krumu Staala, Hiellt nú Hrafnar fullte, **Hríngur** á Vopnaþínge.

Siÿdann foor Eigill at fund Adalsteins Koongs med alla sveit siina og geck þegar fyrir Koong er hann sat til dryckiu. Þar var glaumur mikill, og er Koongur sa ad Eigill var innkominn, þa mællti hann ad rijma skylldi pallinn þann hinn Oedra fyrir þeim, og mællti ad Eigill skylldi sitia þar i ondvert gegnt Koongi. Eigill settist þar nidur, og skaut skilldinum fyrir fætur sier: hann hafdi hiaalm a hofde, og lagdi sverdid um kne sier, og dro annad skeidid til haalfs, enn þa skelldi hann aptur i slijdrin, hann sat upprettur og var snerktur miog. Eigill var mikilleitur, Ennisbreidur, brunamikill, nefid ecki langt, enn akaflega digurt, Munnstædid vidt og langt, Hakan furdulega breid, og so allt um kiaalkana, haalsdigur og herdamikill, so ad þad bar fra þvi sem adrer menn vooru, hardleitur, og grúñlegur þa hann var reidur, hañ var vel i vexstí, og hvoríum manne hærre. Ulgraatt haarid og þikt, og vard snema skollsottur: Enn er hann sat nw sem fyr var ritad, þa hleipte hann annari bruninne ofann a kinnina, enn annare upp i haarsrætur: Eigill var svartblaaeygdur og skolbrunn: Ecki villde hann drecka þott honum væri borid, enn ymsum hleypti hann brununum ofann eda upp. Adalsteirn Koongur sat i haasæti, hann lagdi og sverd um kne sier, og er þeir satu svo um hrijd, þa dro Koongur sverdid wr slijdrum, og took mikinn Gullhring af hendi sier og goodann, og dro a bloodrefilinn stood upp og geck a golfid, Hann stack sverdinu i bug hringnum, og rietti yfer Elldinn til Eigils. Eigill stood upp og bra sverdinu og geck a golfid, hann stack sverdinu i bug Hrijngnum og dro ad sier, geck aptur til sætis sijns, Koongur settist i haasæti: Enn er Eigill settist nidur, dro hann hrijnginn a hond sier, og þa fooru bryn hanns i lag, lagdi hann þa nidur sverdid og hiaalminn, og took vid dyrs horni er honum var borid, og drack af. Þa qvad Eigill vijsu.

Hvarmtangar lætur hanga, Hrinvirgils mier bryniú, Hadsdi á Havke trodnum, Heidis vindga meide, Ritmeidis kna eg Reide, Rædi Gunvala brædur gelgiuseil á galga, geitvedur Lopts neitis.

Drack Eigill ad sinum hluta og mællti vid adra menn. Epter þad liet Koongur bera inn Kistur ij. baaru ij. menn hvoria, vooru bædar fullar af Silfri: Koongur mællti, Kistur þessar Eigill skalltu hafa, og ef þw kemur til Islands, skalltu færa þetta fie fodur þijnum i sonargiolld, sende eg þad honum, enn sumu fie skalltu skipta þvi med frændum yckar Þorolfs, þeim er þier þikia ægiætaster. Enn þw skallt taka hier brooourgiolld sem hirdmadur, lond eda lausa avra, hvort er þw villt helldur. Og ef þw villt med mier dveliast til Leingdar, þar skal eg fa þier sæmd og virding sem þw kant mier sialfur til ad seigia: Eigill tok vid fienu og þackadi Koongi giafer og vinattu, took Eigill þadann af ad glediaz, og þa qvad hann.

Knattu Harms af Harmi, hnúp gnypur mier driúpa, nú fann eg þann Ennis, ósliettur þier riettud, Gramur hefur gerde hömrum, grundar upp um hrundid, Sá til Igg ur af augum ad sima mier grimur.

Sijdann vooru græddir þeir menn er saarer vooru, og lijfs var audid, Eigill dvaldist med Adalsteine Koongi inn næsta vetur epter fall Þorolfs og hafdi hann allmiklar virdingar af Koongi. Var þa med honum lid þad allt er ædur hafdi filgt þeim brædrum bædum, og wr orustune hafdi komist. Þa orti Eigill drapu um Adalsteirn Koong, og er i þvi qvædi þetta.

Nú hefur folldgnaar fellda, fellur jørd und nid ellu, hialldur sverrandi Harra, Hofudbadner þriá Jofra. **Adalsteirn** ofvann annad, allt er lægra, Kyn frægra, Her sverinn þess hyriar Handriótur Kóngs manne.

Enn þetta er stefid i drapune.

Nú liggur hæst und Hraustum, Hreinbravt **Adalsteine.**

Adalsteirn gaf þa Eigli ad bragarlaunum, Gullhringa tvo og stood hvor mørk, og þar fylgdi skickia dyr er Koongur hafdi sialfur ædur borid. Enn er voradi lysti Eigill þvi fyrir Koongi ad hann ætladi i brott um sumarid og til Noregs og vita hvad tytt er um hag Asgerdar Konu þeirrar er att hefur Þorolfur brooder minn, þar standa samann fie

mik

mikil, enn eg veit ei hvort born þeirra lifa nockur, enn eg þar fyrir ad sia ef þav lifa, enn eg a Arf allann ef Þorolfur hefur barnlavs andast. Koongur seiger þad mun vera Eigill a þijnu forædi ad fara i burtu hiedann ef þw þikist eiga skyllt erindi, enn hinn veg þike mier best, ad þw taker hier stadfestu med mier og slijka kosti sem þw villt beidaz. Eigill þackadi Koonge ord sijn, Eg mun nw fara fyrst sem mier ber skyllda til: Enn þad er lijkara ad eg vitie hingad þessa þa er eg þarf vid. Kgr bad hann so giora. Sijdann byst Eigill brott med lide sijnu, eñ margt dvaldist epter med Koongi, Eigill hafdi eitt mikid langskip, og þar a vel C. manna, og er hann var bwinn ferda sinna, og byr gaf, þa hiellt hann til hafs, skildust þeir Adalsteirn Koogur med mikille vinattu, bad hann Eigill koma aptur sem skiootast, Eigill qvad so vera skylldi: Sijdann hiellt Eigil til Noregs, og er hann kom vid Land, foor hañ sem skyndilegaz inni Fiordu, þa spurdi hann þau tijdindi, ad Þorer Herser var andadur, enn Arinbiørn hafdi tekid vid Arfi, og giorst lendur madur. Eigil foor a fund Arinbiarnar, og feck þar goodar vidtokur, bavd Arinbiørn honum þar ad vera, Eigill þecktist þad, liet hann setia upp skipid, Enn Arinbiørn took vid Eigli vid xij. mann og var med honum um veturinn.

## Cap. lvj.

Bergønundur son Þorgeirs Þirnifóts hafdi þa feingid Gunnhilldar dootter Biarnar Havllds, var hwn kominn til bws med honum a Aski, Enn Asgerdur er att hafde Þorolfur Skalla-Grímsson var þa med Arinbyrni frænda sijnum. Þav Þorolfur attu doottur einä wnga, og var mærinn þar med moodur sinne. Eigill seiger Asgerdi lat Þorolfs, og bavd henne sijna umsia. Asgerdur vard miog Okat vid þa sogu: Enn svarar vel rædum Eigils, og took lijtid af ollu: Og er aleid havstid took Eigill Ogledi mikla, sat opt og drap hofdinu nidur i felld sinn: Eitthvort sinn geck Arinbiørn til hanns, og spurdi hvad Oglede hanns illi: Enn þo ad þw hafer feingid skada mikinn, um broodur þinn, þa er kallmannlegt ad bera þad vel, skal madur epter mann lifa, eda hvad seiger þw nw, Latt mig nw heyra.

Eig-

Eigill seiger ad hann hafdi þetta fyrir skémstu qvedid.

Verde ifelld þá er folldar, falld kemur i hug Skalldi
**Bergonundur** Bríma, bratt und stalle ad hvata.

Arinbiørn spurdi hvor kona su være er hann orti mannsøng um, hefur þw folgid nafn hennar i vijsu þessare. Þaa qvad Eigill.

Sef Skalldar fel eg siálldan, sórg ei vita borgar, innid
erfe narfa Nafn avr fiðls drafnar. Þviad geirata gavtar,
guidingsbragna ringum rogs ad Næsis Verkum, Reifend-
ur munu þreyfa.

Hier mun vera seiger Eigill sem opt er mællt, ad seigiandi er allt sijnum vin. Eg mun seigia þier þad er þw spir, um hvoria Konu eg yrki, þad er Asgerdur frændkona þijn, og þar til villda eg hafa fulltingi þitt ad eg næda þvi ráde, Arinbiørn seiger ad honum þiker þad vel fundid: Skal eg vist leggia þar ord til ad þav rád takist. Sijdann bar Eigill þad mál fyrir Asgerdi: Eñ hwn skavt til ráda Fodur sijns og Arinbiarnar frænda sijns. Sijdañ ræder Arinbiørn vid Asgerde, og hafdi hwn enu somu svor og fyr, Arinbiørn fysti þess miog: Sijdann fara þeir Arinbiørn og Eigill a fund Biarnar. Biørn took þvi máile vel, og seiger ad Arinbiørn mundi þvi miog ráda, Arinbiørn fyste miog, og lavk þvi so, ad Eigill festi Asgerdi, og skylldi Brullavp vera ad Arinbyrni. Enn er ad þeirre stefnu kemur, þaa var þar veitsla allvegleg er Eigill kvongadist, Var hann þaa allkaatur þad er epter var vetrarins. Eigill bio um vorid Kavpskip til Islandsferdar, red Arinbiørn honum þad, ad stadfestast ecki i Norege, medañ rijke Gunnhilldar være so mikid, þviad hwn er allþwng til þijn seiger Arinbiørn, og hefur þetta mikid ispillt sijdann þid Eyvindur fundust vid Jotland. Og er Eigill var bwinn og byr gaf þaa sigldi hann i haf, og greiddist hanns ferd vel, kemur hann um havstid til Islands, og hiellt til Borgarfiardar, hann hafdi þaa verid utann xij. vetur. Giordiz þaa Skalla-Grímur madur gamall, vard hann þaa feiginn er Eigill kom heim, foor Eigill til Borgar ad vistum og

med

med honum Þorfinnur Strangi, og þeir miøg marger saman, vooru þeir med Skalla-Grime um veturinn: Eigill hafdi þar Ø-grinne fiær, Enn ecki er þess getid ad Eigill skipti silfri þvi er Ad-dalsteirn Koongur hafdi feingid honum i hendur, hvorki vid Skalla Grim nie adra menn. Þann vetur feck Þorfinnur Sæunnar dootter Skalla-Grims og epter um vorid feck Skalla-Grimur þeim bwstad ad Langaarfosse, og Land innfraa Leyrulækium, milli Langar og Altaar allt til fialls. Dootter Þorfinns og Sæunnar var Þordis er aatti Arngeir i Holmi, son Bersa Godlausa: Þeirra son var Biørn Hydalakappi. Eigill dvaldist þaa med Skalla-Grime nockra vetur, took hann til fiarforaada, og bws umsyslu, øngvu midur enn Skalla-Grimur. Eigill giordist enn snodiñ, þaa took hieradid ad byggiaz vijda.

Hromundur brooder Grims hins Haleyska, byggdi þaa i Þver-aarhlyd og skipveriar hanns. Hromundur var fader Gunnlaugs, fodur Þyridar Dyllu, moodur Illuga Svarta. Eigill hafdi þaa verid so ad vetrum skipti miøg mørgum ad Borg. Þaa var þad aa einu sumri er skip komu af Noregi til Islands, ad þav tijdindi spurduz utann, ad Biørn Hølldur var andadur, þad filgdi þeirre søgu ad sie þad allt er Biørn hafdi aatt, hafdt upptekid Bergøn-undur maagur hanns, hann hafdi flutt heim til sijn alla Lausa avra, Enn Jarder hafdi hann bygt og skilid sier allar Landskyllder, Hañ hafdi og kastad sinne eign aa jarder þær allar er Biørn hafdi aatt: Og er Eigill heyrdi þetta, þaa spurdi hann vandlega ad hvort Bergønundur munde sijnum raadum fram hafa farid um þetta, eda hefdi hann travst til hast sier meire manna, Honum var sagt ad Bergønundur var kominn i vinaattu mikla vid Eirik Koong og vid Gunnhilldi þo miklu kiæra. Eigil liet fyrst kyrt vera aa þvi havsti: Enn er veturinn leid af og vora took, þaa liet Eigill set-ja fram skip þad er hann aatti, og stadid hafdi i hrosi vid Langaar-foss. Hann bioo skip þad til hafs og fooru menn til, Asgerdur Kona hanns var raadinn til farar, Enn Þordis dotter Þorolfs var epter, Eigill sigldi aa haf er hann var bwinn, er fraa hanns ferd ecki ad seigia fyr enn hann kemur til Noregs; hiellt hañ þegar

 til

til fundar vid Arinbiørn, sem fyrst mætti hann, Arinbiørn tok vel vid honum, og bavd Eigli med sier ad vera, og þad þekiist hañ fooru þav Asgerdur bædi þangad og nockrer menn med þeim: Eigill kom brætt a rædur vid Arinbiørn um fiarheimtur þær er Eigill þottiz eiga þar i landi. Arinbiørn seiger þad mæl þike mier Ovænlegt, Bergønundur er hardur og Odæll, ranglætur og fiegiarn: Enn hann hefur nw halld mikid af Koongi og Drottningu. Er Gunnhilldur hinn mesti Ovinur þinn sem þw veist ædur, og mun hwn ecki fysa Ønund ad hann giore greida a mælinu, Eigill seiger Koongur mun læta oss na Logum og riettindum a mæli þessu, Enn med Lidveislu þinne þa ver mier ecki i avgum ad leita Laga vid Bergønund: Rada þeir þad af ad Eigill skipar skutu, fooru þeir þar a nær xx. þeir fooru sudur a Hordaland, og koma frañ a Aski, ganga þeir þar til hws og hitta Ønund. Ber þa Eigill upp mæl sitt, og krefur Ønund skiptis um Arf Biarnar, og seiger ad dætur Biarnar sie bædar jafnkomnar til arfs epter hann ad Logum, þo ad mier þike seiger Eigill sem Asgerdur munе þikia ættborinn miklu betur enn Gunnhilldur kona þijn, Ønundur svarar þa geistur miog: Þw ert furdulega diarfur madr Eigill, wtlægi Eiriks Koongs, er þw fer hingad i Land hanns, og ætlar hier til ægangs vid menn hanns, mættu so ætla Eigill, ad eg hafa vellta lætid slijka sem þw ert og af minne sokum enn mier þikia þessar er þw telur til Arfs fyrir hønd konu þinnar, þviad þad er kunnugt Alþydu ad hwn er Þyborinn ad mooderne: Ønundur var mælodi um hrijd: Og er Eigill sa ad Ønundur villdi ongvann hlut greida um þetta mæl, þa stefner Eigill honum Þijng, og skytur mælinu til Gulaþijngslaga: Onundur seiger, koma mun eg til Gulaþijngs: og munda eg vilia ad þw kiæmer þadann ei heill i brott: Eigill seiger, ad hann mun til þess hætta ad koma þo til Þijngs allt ad einu, verdur þa sem mæ hvorsu mælum vorum lijkur; fara þeir Eigill sijdann i brott: og er hann kom heim seiger hañ Arinbyrni fra ferd sinne, og fra svorum Ønundar. Arinbiørn vard reidur miog, er Þóra fødursyster hanns var kollud Ambætt. Arinbiørn foor a fund Eiriks Koongs, bar upp fyrir hann þetta

mæl.

maal. Koongur took helldur þwngt hanns maale, og seiger ad Arinbiørn hafe leingi filgt miøg maalum Eigils, hefur hann notid þijn ad þessu er eg hafe laatid hann vera hier i landi: Enn nw mun mier ordugt þikia ef þw helldur hann til þess, ad hann gange aa vine mijna. Arinbiørn seiger þw munt laata oss naa løgum af þessu maale: Koongur var helldur stiggur. Arinbiørn fann ad Drottning mundi þo miklu ver viliud. Fer Arinbiørn aptur og seiger ad helldur horfer Ovænt. Lijdur af vetrinn og kemur þar ed menn fara til Gulaþijngs. Arinbiørn fiølmente mikid til Þijngs, var Eigill i for med honum. Eirikur Koongur var þar, og hafdi fiølmenne mikid. Bergønundur var i sveit Koongs og þeir brædur, og høfdu sveit mikla: Enn er þijnga skylldi um maal mañа, þaa gengu hvorutveggiu þartil er doomurinn var settur, ad flitia fram sanninde sijn. Var Ønundur þaa allstoorordur. Enn þar er Doomurinn var settur, var vollur sliettur, og settar nidur Hesslisteingur i volliñ um krijng, Enn løgd um utann snæri umhverfis. Vooru þad kollud Vebønd: Enn fyrir innann i Hrijngnum saatu doomendur xij. wr Fyrdafylke, og xij. wr Signafylki, og xij: wr Havrdafylke, þær þrennar tylfter maña skylldu þar dæma um maal øll. Arinbiørn ried fyrir hvorier Doomendur vooru wr Fyrdafylki, Enn Þórdur af Avrlandi hvorier wr Sogn Fylki vooru, og vooru þeir aller eins lids. Arinbiørn hafdi fiølmenne mikid til Þijngs, sneckiu alskipada og margt smaaskipa Skwtur og roodrarferiur er Bændur aattu. Eirikur Koongur hafdi þar mikid lid og Langskip vj. eda vij. þar var og mikid Lid af Bændum: Eigill hoof so sitt maal, ad hann krafdi doomendur ad dæma sier løg af maale þeirra Ønundar: inti hann þaa hvor sannindi hann hafdi i tilkalli til fiaar þess er aatt hafdi Biørn Bryniolfsson: sagdi hann ad Asgerdur dootter Biarnar, Eiginkona Eigils var tilkominn Arfs, Odalborinn i allar ætter, Enn tyginborin fram i Kyn, Krafdi hañ Doomendur ad dæma Asgerdi til handa haalfann Arf Biarnar lønd og lavsa avra: og er hann hætti sinne rædu, þaa took Bergønundur til maals: Gunnhilldur kona mijn er dootter Biarnar og Olavfar þeirrar konu er Biørn hafdi Løgfeingid: er Gunnhilldur riettur erfingi Biarnar, took eg fyrir þaa sok upp fie þad allt er Biørn hafdi aatt, ad eg vissa ad su ein var dootter Biarnar: Onnur er ecki aatti arf ad ta-

 ka:

ka; Var mooder hennar Hernumin, enn tekin sijdann frillutaki, og ecki ad frændarædi, og flutt land af landi: Enn þu Eigill ætlar ad fara hier sem hvervitna annarstadar, med Ofurkapp þitt og Ojafnad, nu mun þier þad ecki hier tiaa, þviad Eirikur Koongur og Gunhilldur Drottning hafa mier þvi heitid ad eg skule riett hafa af hvoriu maali, þar er þeirra Rijke stendur yfer, Mun eg færa fram sönn vitni fyrir Koongi og Drottningu, og Doomendum, ad Þóra Hladhønd mooder Asgerdar, var hertekinn heimann, fraa Þórer broodur sijnum, og annad sinn af Avrlandi fraa Bryniolsi: foor hun þaa Land af Landi med Byrni og Vijkingum i utlogum Koongs, og i þeirre utlegd gaatu þav Mey þessa Asgerdi. Nu er furda mikil um Eigil er hann ætlar ad giora Omæt øll maal Eiriks Koongs. Þad fyrst ad þu ert hier i Landi sijdann Eirikur giordi þig utlægann, og þad enn er meira þoottu hafer feingid Ambaattar, ad kalla hana Arfgenga. Vil eg þess kresia doomendur, ad þeir dæme mier allann Arf epter Biørn, Enn dæme Asgerdi Ambaatt Koongs, þviad hun var so getinn ad fader hennar og mooder, vooru i utlægd Koongs. Þaa tok Arinbiørn til maale: Vitni munum vier frambera Koongur um þetta Maal, og laata eida filgia, ad þad var tilskilid i sætt þeirra Þóris fodur mijns, og Biørns, ad Asgerdur dootter þeirra Biarnar og Þóru, var til Arfs tekinn epter Biørn fodur sinn, og so þad sem ydur var kunnugt sialfsum Koongur, ad þu giørder Biørn innlendann og øllu þvi maale, var þaa lokid er aadur hafdi imilli stadid sættar manna, Koongur svarar seint hanns Maale. Þaa qvad Eigill vijsu.

Þyborna qvedur þorna, þornrudur Arborna Skyllar hann um skna, suningrund **Ununndur** mkna. Nadrister á eg næsta Norn til Arfs ofborna, Þigg þú avdaknor Eyda. Eidlavst er þad greida.

Arinbiørn liet þaa frambera vitnisburd xij. menn, og aller vel tilfallner, og hofdu aller heyrt aa sætt þeirra Þoris og Biarnar, og budu þeir Koongi og Doomendum ad sveria þar epter, Doomendur villdu taka eida þeirra ef Koongur bannadi ei: Koongur seiger ad hann mundi þár hvorki ad giora leifa nie banna. Þaa took til maals Gunnhilldur Drott-

Drottning: Pad er undarlegt Koongur, er Þw lætur Eigil Þenna hiñ mikla vesia oll maal fyrer Þier; eda hvort munder Þw ei i moote mæla, Þo ad hann kalladi til Koongdoomsins i hendur Þier. Nw Þoottu viliex ongva wrskurdi veita, er Onundi sie lid ad, Þaa skal eg ecki Þad Þola ad Eigill trodi under footum vine vora, og take med rangindum fie Þetta af Onundi: Eda hvar eru Alfur og Eyvindur brædur mijner, fared til Þar Doomurinn er og laated ei dæma rangindi Þesse. Epter Þad hlavpa Þeir brædur til og skaaru i sundur Vebøndinn enn brutu nidur steingur, enn hleiptu i brottu Doomendunum. Þaa giordest Þys mikill aa Þijnginu, Enn aller menn vooru vopnlavser, Þaa mællti Eigill: Maa Bergønundur heyra maal mitt, heyri eg seiger hann. Eg vil biooda Þier Holmgongu og beriumst hier aa Þijnginu, hafi Þaa sie Þetta Land og lavsa avra er sigur fær, Enn vert Þw hvors manns nidingur ef Þw Þorer ei. Þaa svarar Eirikur Koongur, Ef Þw Eigill ert nw allfus til ad beriast, Þaa skulum vier nw veita Þier Þad, Eigill seiger ecki vil eg beriaz vid Koongs Rijke og ofur efli lids: Enn fyrir jafn morgum monnum, mun eg ei flya ef mier skal Þess unna, mun eg aa Þvi giora ongvann manna mun, Þaa mællti Arinbiørn forum brott Eigill, Ecki munum vier hier um sysla ad sinne, sneri Þaa Arinbiørn brott og allt Lid hanns med honum. Þaa sneriz Eigill aptur og mællti haatt: Pad skyrskota eg under Þig Arinbiørn og Þig Þordur, og Þaa menn alla er nw heyra maal mitt, Lenda menn og Logmenn og alla AlÞydu, ad eg banna Jarder Þær allar er aatt hefur Biørn Brynjolfsson, ad byggia og vinna, og allra gagna af ad neita, baña eg Þier Bergønundur og ollum odrum monnum wtlendskum og innlendskum tignum og otignum. Enn hvorium er Þad giorer legg eg vid Lagabrot Landsriettar, Godagrein og gridarof. Sijdann geck Eigill aa brott med Arinbyrni, gengu Þeir til skipanna og var Þar ad ganga yferleite nockud, og ei allskamt, so ei saa skipinn af Þijngvellinum: Og er Þeir komu til skipanna, taladi Arinbiørn fyrir Lidinu og mællti so: Ollum yckur er kunnugt, hvor Þijnglok hier hafa vordid, ad vier hofum ei naad Logum, enn Koongur er reidur, so ad meir er von ad vorer menn sæte af honum Afarkostum, ef hann maa so vid komast, vil eg ad hvor gange aa sitt skip, og fare hvor sem aakafast til sijns heimilis, bijdi nw



ein-

eingi annars: Sijdann geck Arinbiørn a skip sitt, hann mællti til Eigils gack þu nu til skutu er hier liggur a utborda Langskipinu og ver a brottu sem skiootast farid um nætur sem þier meigid, enn ei um daga, og fordid ydkur; þviad Koongur mun epter leita ad fundi ydar mætti samann bera. Leitid enn sijdann til mijn þa er þessu lijkur hvad sem i kann berast. Eigill giorde sem Arinbiørn mællti, gengu þeir a Skutuna xxx. manna, og reru sem akafaz Skipid var einka skioott, þa rere fiøldi manna ut ur høfninne af Lidi Arinbiarnar, Skutur og roodrarferiur, Enn Langskip er Arinbiørn styrdi foor seinaz, þviad þad var þingst under arum. Enn Skuta su er Eigill var a geck bratt fram ur samflotinu. Þa qvad Eigill.

Erfinge ried Arfe, Arf Lygur fyrir mier Svarfa, mæte eg hanns og Heitum, Hotum Þyrnifootar, nær geck simla Sorgar, slikt Rán og gellst hanum, Vier deilldum fior folldar folld veri únga gollden.

# Cap. lvij,

Eirikur Koongur heyrdi Aliktarord er Eigill mællti a Þijnginu, og vard reidur miøg, Enn aller menn høfdu vopnlávser farid til Þijngsins, veitte Koongur þvi ei atgøngu. Hann bad men̄ sijna gayga til skipa, þeir giørdu sem hann bavd: Og er þeir komu til strandar, skavt Koongur a Herþijnge, og seiger fyrirætlan sijna Vier skulum fara tiølld af skipum vorum, og roa epter þeim Arinbyrni og Eigli, og skal taka Eigil af lijfe, og hlijfa ongvum manne þeim er fyrir honum vill standa: Sijdann gengu þeir a skip og biugguz um sem skiootaz, og reru þar til er skip þeirra Arinbiarnar høfdu verid, Vooru þeir þa a brottu. Þa liet Koongur taka roodur epter þeim nordur um sund, og er hann kom a Sognsæ, þa rere lid Arinbiarnar inn til Savdungssunda, og stefner hann inn epter þeim, og hitte hann skip Arinbiarnar i innre Savd=

Savdungssundum. Sagdi Koongur ad skipunum, og kostudu þeir ordum a þa, spurdi Koongur hvort Eigill væri þar a skipinu, Arinbiørn svarar, Eigill er ei hier seiger hann, munu þier skiott meiga sia þad Herra: Eru þeir einer menn hier innanbords er þier munud kenna, Enn Eigill mun ei finnást under þilium nidir þo ad þier leitid, Koongur spurdi Arinbiørn hvad hann visse til Eigils sijdaz, hann seiger ad Eigill var a Skutu einre med xxx. manna og veru þeir leid sijna ut til Steinsunds. Þa mællte Koongur ad þeir skylldi rooa fram hin innre sundinn, og stefna so i moote þeim Eigli, og þeir giordu so. Madur er nefndur Ketill Havdur, hann var hirdmadur Eiriks Koongs, upplendskur madur ad ætt, hann sagdi leid fyrir Koongsskipinu og styrdi þvi. Ketill var mikill madur og frijdur sijnum, hann var frændi Koongs, var þad margra manna mal, ad þeir være lijker sijnum. Eigill hafdi latid flota skipi sijnu, og fluttann til farm adur hann foor til Þijngs, Enn er þeir hofdu skilid vid Arinbiørn, þa fooru þeir leid sijna til Steinsunds þar til er þeir komu til skips sijns, gengu þeir þar a, enn Skutan flavt vid Styri milli Lands og Skips, Lau þar arar og homlur. Epter um morgunen er travtt var dagad, þa urdu vardmeñ varer vid ad Skip nockur veru ad þeim, og er Eigill vaknadi, stood hann þegar upp og mællte, ad þeir skylldu hlavpa i skutuna: Hann vopnadiz skiott og aller þeir, Eigill took upp Silfurkisturnar, þær ed Adalsteirn Koongur hafdi gefid honum, þær hafde hann jafnann med sier, þeir hlupu i Skutuna. Hann vopnadist skiott og aller þeir, og veru fram i millum Landsins og Sneckiunnar þeirrar er næst foor Landinu, Enn þad var Skip Eiriks Koongs. Enn þvi ad bradum bar ad, og lytt var lyst, þa renduſt skipin hia, og er liptingar bar saman, þa skavt Eigill spioote, og kom a þann mann midian er vid styrid sat, Enn þad var Ketill Havdur. Þa kallar Eirikur Koongur og bad menn rooa epter þeim Eigle: Enn er Skipin rendu hia Kavpskipinu, þa hlupu menn uppa skipid: Enn þeir menn er epter hofdu ordid af Eigils monnum, og ei hlupu ut a Skutuna, þa vooru aller drepner þeir er nad vard, enn sumer hlupu a land: þar lietust x. menn af sveitungum Eigils. Sum skipin veru epter þeim Eigli, enn sumer ræntu Kavpskipid, var þar tekid fie þad allt er innanbords var, Enn þeir bren-

du

du ſkipid, Enn þeir er epter þeim Eigli veru, ſottu akaſt, tooku ij. ſina ꝍar, ſkorte þar ei lid iñanbords, Eñ þeir Eigill hofdu þuñſkipad, voru þeir þo xviij. a Skutunne: Þa dro ſamañ med þeim; Enn fyrir iñaun Eyna var vadilsſund milli hennar og annarar Eyar, og utfall var ſiꝍarins, Þeir Eigill hleyptu Skutunne i þad grunna ſundit, Eñ ſneckiunnar flutu þar ei, og ſkildi þar med þeim, ſnere þa Koongur ſudur aptur: Eigill foor nordur a fund Arinbiarnar. Þa qvad Eigill vijſu.

Nú heſur þrymragner þegna, þrótt hardar enn mig varde, vite vorar ſveiter, vígelldz x. fellda, þvíad ſaarlagar ſyrer, ſendur úr minne hende, digur ſlo beint medal biúgra, Biſþorn **Ketils** riſia.

Eigill kom a fund Arinbiarnar og ſeiger honum þeſse tijdinde, Arinbiørn ſeiger ad honum var ecki villdara af von, um ſkipte þeirra Eiriks Koongs: Enn ecki mun þig ſie ſkorta Eigill: Eg ſkal bæta þier ſkipid, og ſa þier annad þad er þu meiger vel fara a til Iſlands. Asgerdur kona Eigils hafde verid med Arinbyrne ſijdann þeir fooru til Þijngs: Arinbiørn fieck Eigli ſkip þad er vel var haffærandi, og liet ferma af vidi: byr Eigill ſkip þad til hafs, og hafdi þa enn nær xxx. manna, ſkiliaſt þeir Arinbiørn med vinattu. Þa qvad Eigill:

Svo ſkylldu God giallda, Gram reke tyndan Londum, reidur ſie Rogn og Odinn, Rán míns fiár á hanum Fiolkínge lát ſlya, freyr og Niordur af jordum, leidiz Lofda Styrer, Laudás þann er Vegrandar.

# Cap. lviij.

Haralldur hinn Hárfagre ſette ſonu ſijna til Rijkis i Noregi þa er hann took ad elldaſt, giordi hann Eirik Yſerkoong ſona ſinna allra og er Haralldur hafdi verid lxx. ar Koongur þa ſelldi hann i hendur Eiriki ſyni ſijnum Rijki. I þann tijma ol Gunnhilldur ſon, og jos Haralldur Koongur vatni, og gaf honum nafn ſitt og liet þad filgia ad

hañ

hann skylldi Koongur vera epter fodur sinn ef honum endist Alldur til. Haralldur settist þa i kirsetu, og sat optast a Rogalandi eda Hordalandi. Enn þrem vetrum sijdar andadist Haralldur Koongur a Rogalandi, og var giordur havgur yfer honum vid Havgasund, Enn epter Andlaat hanns var deila mikil milli sona hanns. þviad Vijkveriar tooku sier til Koongs Olaf, Enn Þrændur Sigurd, Enn Eirikur felldi þaa bæda brædur sijna i Tunsbergi, einum vetre epter Andlaat Haralldz Koongs, var þad allt a einu sumre er Eirikur Koongur foor af Hordalandi med her sinn avstur i Vijk til bardaga vid brædur sijna og ædur hofdu þeir deillt a Gulaþijngi, Eigill og Bergønundur, og þesse tijdindi er nw var sagt. Bergønundur var heima ad bwi sijnu þa er Koongur foor i Leidangur, þviad honum þootti undarlegt ad fara fra bwi sijnu, medann Eigill var ei wr Landi farinn. Þar var brooder hanns Haddur þa med honum: Fróde hiet madr frænde Eiriks Koongs og fostursón hanns hann var hinn frijdasti madur wngur ad alldri, og þo vaxinn madur, Eirikur Koongur setti hann epter til travsts Bergønundi, sat Fróde ad Alrekstodum a Bwi Koongs og hafdi sveit manna þar, Røgvalldur er nefndur son Eiriks Koongs og Gunnhilldar, hann var þa ordenn x. vetra eda xj. og var hid frijdasta mannsefne. Hann var þa med Fróda er þetta vard tijdinda: Eñ ædur eñ Eirikur Koongur rere þetta leidangur, þa giordi hann Eigil wtlægann fyrir endilongum Noreg og dræpan hvorium manne, Arinbiørn var med Koongi i þvi leidangre. Enn ædur hann foor heimann þa lagdi Eigill skipi sijnu til hafs i wtver. þad er Vitar heita wt fra Allda, þa er komid af þioodleid, þar vooru fiskimenn, og var þar gott ad spiria tijdinda, þa spurdi hann ad Koongur hafdi giort hann wtlægann. Þa qvad Eigill vijsu.

Løgbrigder hefur lagda, Landálfur fyrir mier siálfur, bleck-
er brædra sockva brúdfang vegn langa: Gunnhillde á eg
ad giallda, greypt er heñar skap þeñar, Kóngi gat og
le lavna, Landrekstur bile granda.

Vedur vooru vindlijtil, fiallvindur um nætur enn hafzola um daga: Eitt kvølld sigldu þeir Eigill wt a haf, Enn fiskimenn reru þa inn til

 Lands

Lands, þeir er til nioosnar hofdu setter verid um ferd Eigils, Kunnu þeir þad ad seigia, ad Eigill hafdi wt læatid og a haf siglt, og hann var þaa brottu, þetta lietu þeir seigia Bergønundi: Og er hann visse þesse tijdindi þaa sendi hann fraa sier menn þaa alla er hann hafde aadur haft, sier til verndar, rere hann þaa inn til Allrekstada, og baud Fróda til sijn, þviad Bergønundur aatti ol mikid heima ad sier. Fródi foor med honum og hafdi med sier nockra menn, tooku þeir þar veislu gooda, og hofdu gledi mikla, var þar þaa allt ottalaust. Røgvalldur Koongsson aatti Karfa eirn, reru vj. menn aa hvort bord, hann var steindur allur fyrir ofann sio, hann hafdi med sier x. menn eda xij. þaa er honum filgdu einatt, og er Fródi var heimann farinn, þaa tok Røgvalldur karfann, og reru þeir wt til Herdlu xij. samañ, þar var Kongs bw mikid, og ried sa madur fyrir er Skeggþórer het, þar hafdi Røgvalldur verid aa fostri i barnæsku, took Þórer feiginsamlega vid Koongssyne, skorte þar og eigi Dryck mikinn: Eigill sigldi þar aa utann um noottina sem fyr var ritad, og er morgnadi, fiell vedur og gjordi Logn, logdu þeir þaa i Riett og letu reida fyrir nockrar nætur, Enn er hafgola kom aa seiger Eigill skipverum sijnum, nw munum vier sigla ad Landi, þviad ogiorla veit ef Hafvidri kemur aa hvast hvar ad Landi ber, enn heilldur ofrid vænt i flestum stodum. Haasetar baadu Eigil fyriraada þeirra ferd. Sijdann tooku þeir til segls og sigldu inn til Herdluvers, feingu þar gooda hofn og tiolldudu yfer skipi sijnu, og laau þar um nottina, þeir hofdu aa skipi sijnu lijtinn baat, og geck Eigill þar aa vid þridia mann, rere hann þaa inn um nootina til Herdlu, sendi þaa menn i Eyna upp ad spiria tijdinda: Og er sa kom ofann til skips, sagdi hañ ad þar aa bænum var Røgvalldur Koongsson, og hanns menn saatu þar þaa vid Dryckiu. Hitta eg eirn af Hwskorlum og var sa olodur, og seiger ad hier skylldi ei minna drecka, enn ad Bergønundi, þo Fródi dricki þar og þeir v. samann, ecki kvad hann þar fleyra manna nema heimamenn, nema Fróda og hanns menn. Sijdann rere Eigill aptur til skips, og bad menn uppstanda og taka vopn sijn, þeir giordu so, þeir logdu ut skipid vid Ackere: Eigill liet giæta þess xij. menn, Enn hann foor i Skipsbaatinn og þeir xviij. samann, reru sijdann inn epter sundum, þeir stilltu so til ad þeir komu um qvelldid inn i Fenhring, og

log

lagdu þar til leynevogs eins. Þaa mællte Eigill, nw vil eg ganga eirn upp i Eyna, og niosna hvors eg verd vijs: Enn þier skulud bijda hier. Eigill hafdi vopn sijn þav er hann var vanur ad hafa Hiaalm og Skiolld, girtur sverdi, enn Hoggspioot i hendi, sijdann geck hann upp i Eyna og fram med skogie nockrum. Hann hafdi dreigid hatt-sijdann yfer Hiaalminn. Kom so þared sveinar nockrer vooru, og hiaa þeim hiardtijkur stoorar og er þeir jukust vid ordum spurdi hann hvadañ þeir være, eda fyrir hvoriu þeir være þar og hefdi hiardtijkur so stoorar, þeir mælltu, þw munt vera allheimskur madur, hefur þw ei heyrt ad hier gengur Biorn um Eyna, hinn mesti spillvirki, drepur hann bædi menn og fienad, og er lagt fie til hofuds honum, vokum vier hier hvoria noott aa Aski yfer fie voru edur byrgum i grindum, eda þvi fer þw med vopnum um nætur, hrædust eg Biornenn, þvi hygg eg faaer fare vopnlauser hefur hann leingi ellt mig i noott, og siaae þier hann ei hvar hañ liggur i Skoogarnefinu, eda eru aller menn i svefni aa bænum, sveirninn seiger ad þeir Bergønundur og Frodi mundi enn drecka, þeir sitia nætur allar seigia þeir, þaa seiger Eigill hvar Biernñinn er, enn eg verd ad skynda heim. Hann geck aa brott, enn sveirninn geck heim til bæarins, og til stofunnar er þeir druckn i, var þaa so komid ad aller menn vooru sofa farner, nema þeir iij. Ønundur, Frodi og Haddur, sveirninn seiger hvar Biorninn var, þeir tookn vopn sijn er þar hiengu hiaa þeim og hlupu þegar wt og upp til skoogar, þeir gengu fram i Skoogarnefid af morkinne, vooru runnar i sumum stodum, sveirninn seiger þeim hvar Biornin hefur leigid i Runninum, þaa saau þeir ad Limid hrærduz. þoottust þaa skilia ad Biornenn muni þar vera, þaa mællti Bergønundur ad þeir Haddur og Frodi skylldu fram renna milli meigin merkurinnar, og giæta ad Biorninn nædi ei skooginum. Bergønundur rann fram ad runninum, hann hafdi hiaalm og skiolld, girdtur sverdinu, enn Kesiu i hendi: Eigill var þar fyrir i runnenum, enn eingi Biorn, og er hann saa hvar Bergønundur var, þaa braa hann sverdinu, Enn þar var honk aa medalkaflanum, og dro hañ hana aa hond sier, og liet þar hanga, hann took i hond sier Kesiuna, og rañ i moot Bergønundi, og er Bergønundur saa þad, þaa giædi hañ rasina, og skavt skylldinum fyrir sig, og aadur þeir mættust þaa skav-

 hvo-

hvor kesiu ad ødrum, Eigill lavst Skilldinum vid Kesiunne og bar hallenn so ad riste wr skilldinum, og flavg i vollinn, Enn Eigils spioot kom i midiann Skiolldinn, og geck igegnum langt uppa fiodurina, og vard fast spiooted i Skilldinum: vard Onundi þungbær skiolldurinn. Eigill greip þa skioott medalkafla sverdsins, Onundur took þa og ad bregda sijnu sverdi, og er ei var brugdid til hælfs, þa lagdi Eigill igegnum hann med sijnu sverdi: Onundur ratadi vidlagid enn Eigill kipti ad sier sverdinu, og hio til Onund og af nær hofudid, sijdann took Eigill Kesiuna wr Skilldinum. Þeir Haddur og Fródi sáu fall Bergønundar, og runnu þangad til, Eigill sneríst imooti þeim, hann skavt Kesiunni ad Fróda, og igegnum skiolld hanns, og i briooſtid, so ad idde um bakid, fiell hann þegar a bak aptur duvdur nidur, Eigill took þa sverdid og snerist imooti Haddi, og skiptust þeir fáam hoggum vid adur Haddur fiell. Þa komu Sveinarner ad, þa mællti Eigill, giætid hier til Onundar hwsboonda ydars, og þeirra fielaga ad ei slijti dyr eda fuglar hræ þeirra, geck Eigill þa leidar sinnar, og ei langt adur fielagar hanns komu imooti honum xj, enn vj. giættu Skips, þeir spurdu hvad hann hafdi syslad: Hann qvad þa vijsu.

Sátum Lyngs til leingi, Liós heims vidbaur þeima, meir Vaidag sie fordum, fardan rua Lut skarda, ádur Bergønund bernum, bensæfdan liet eg veniast. bords nidiar felld eg bedra blóde **Hadds** og **Frooda.**

Þa mællte Eigill vier skulum nw snwa aptur til Bæarins, og fara hermannlega, drepa menn þa alla er vier naaum enn taka fie þad allt er vier meigum med komaz, Þeir fara til bæarins og hlavpa þar inni hws og drepa þar menn xv. eda xvj: sumer komuz undann a hlavpi, þeir ræntu þar ollu fie, enn spilltu því er þeir mattu ei med fara, þeir raku Bwfie til strandar og hiuggu, og baru a batinn sem hann took vid, fooru sijdann leid sijna og reru ut um Eyasund. Eigill var nw allreidur, svo ad þa matti ei vid hann mæla, sat hann vid styre a batnum, og er þeir soottu wt a fiordann til Herdlu, þa reru utann i mooti þeim Røgvalldur Kongsson

son og þeir xiij. samann a karfanum þeim enum steinda. Þeir hofdu þa spurt ad Skip Eigils la i Herdluveri, ætludu þeir ad giora Önund nivosn um ferder Eigils, og er Eigill sa skipid þa kendi hann þegar, Hann styrdi sem beinst a þa, og er skipinn renduz a, þa kom bard Skutunnar a kinnung Karfans, halladiz honum so ad sioor fell inn a annad bord so ad fylldi skipid, Eigill hlioop þa upp og het a menn sijna ad þeir skylldu øngvann laata med lijfi a brott komast þañ er a Karfanum var, þad var þa hægt þviad þar var þa eingi vørn, vooru aller þeir a kafe drepner enn eingi komst undann, lietust þeir þa aller xiij. Røgvalldur og forunautar hanns. Þeir Eigill reru þa inn til Eyarinnar Herdlu. Þa qvad Eigill vijsu.

Børdust vier nú virdar Vigleiptur sonar beipter. **Blood-oxar** reid eg blóde, Bogmilldur og **Gunnhilldar**, þar fiellu nú þollar. xiij. Lagar manna. Steudur af Styriar skynde Starf á einum Karfa.

Og er þeir Eigill komu inn til Herdlu, þa runnu þeir þegar upp til Bæar med alvæpne: Enn er þad sa Þórer og hanns heimameñ þa runnu þeir þegar af bænum og fordúdu sier aller þeir er ganga mattu karlar og konur. Þeir Eigill ræntu þar ollu fie, er þeir mattu hondum a koma, fooru sijdann ut til skips var þa og ei langt ad bijda adur byr rañ a af landi, bwaz þeir til ad sigla. Og er þeir vooru ferdbwner geck Eigill upp i Eyna: hann took i hond sier Heslisstöng eina, og geck a Bergsnos nockra þa er vísse til Lands iñ. þa tok hañ hrosshofud og setti uppa stongina, sijdann veitte hann formola og mællti svo: Hier set eg upp nídstong, og snk eg þessu nídi á hendur **Eirike** Kónge og **Gunnhilldi** konu hañs, hañ snere Hrosshofdinu á Land, Snk eg þessu nídi á Landvætter þær er land þetta biggia, so ad allar fare þær viller vegar, engi hendi nie hitte sitt inne, fyrr enn þær reka **Eirik** Kóng og **Gunnhilldi** úr Landi. Sijdann skytur hañ stongin-ne nidur i biargrifu, og liet þar standa og snere hofdinu iñ a land,

 enn

enn hann reist runer a stonginne og seigia þær formala þennann allann, Epter þad geck Eigill a skip, tooku þeir til segls og sigldu a haf ut, took þa byrinn ad vaxa og giordi vedur hvast og hagstætt, geck þa skipid mikid. Þa qvad Eigill.

Þiel hoggur stort fyrir Stále, Staffnkyngs á Veg jafnann, út med elameitle, andær Jotunvardar, enn svalbúeñ seliu, sverfur Eirar vor þeirre. gestilz alt ádur gistu. gandur yfer Stál og brande.

Sijdann sigldi hann i haf og greiddiz vel ferd þeirra, og komu af hafi i Borgarfiord. Hiellt hann skipi sijnu þar til hafnar, og baru fot sijn a Land, foor þa Eigill heim til Borgar, Enn Skipverjar hanns vistudust. Skalla-Grimur giordist þa gamall og hrumur af elli, took Eigill þa til fiarforada og bwsvardveitslu.

## Cap. lix.

Þorgeir hiet madur hann atti Þordise Jngvarsdotter systur Beru, moodur Eigils. Þorgeir bio a Alptanese a Lambastodum, hann hafdi komid ut med Jngvare, hann var avdigur og virtur vel af monnum, sonur þeirra Þorgeirs var Þordur er bio a Lambastodum epter fodur sinn. J þennann tijma þa er Eigill kom til Jslands, var þad þa um havstid nockru fyrir vetur ad Þordur reid inn til Borgar ad hitta Eigil frænda sinn, og bavd honum heim til veitslu, hafdi hann latid heita Munngat wt þar, Eigill hiet ferdinne og var qvedid a vikustefnu: og er so var lidid bioost Eigill til ferdar, og med honum Asgerdur kona hanns, voru þav samann x. eda xij. og er Eigill var bwinn, þa geck Skalla-Grimur wt med honum, og hvarf til hanns adur Eigill steig a bak, og mællte, seint þiki mier þw Eigill hafa greidt þad fie er Adalsteirn Koongr sendi mier eda hvornveg ætlar þw ad fara skuli fie þad. Eigill seiger, er þier nw fie fatt miog fader eg visse þad ei, þegar skal eg lata þig hafa silfur er eg veit ad þw þarft þess

vid

vid. Enn eg veit ad þw munt enn hafa ad vordveita eina kistu eda tvær fullar af silfri. So þike mier seiger Skalla-Grímur sem þw muner þikiast skipt hafa lavsafie med ockur, munnu læta þier nw vel hugna ad eg giora slijkt er mier lijkar af þvi sie er eg vardveite. Eigill seiger þw munt ei Ordlofs þikiaz þurfa ad bidia mig um þetta, þw munt ræda vilia, hvad sem eg mæli. Sijdañ reid Eigill i brott þar til er hann kom æ Lambastadi, var þar tekid vid honum vel og feiginsamlega, skylldi hann þar sitia iij. nætur. Þad sama qvölld er Eigill hafdi heimann farid, liet Skalla-Grímur sodla sier hest, reid hann þæ heimann er adrer menn sooru ad sofa, hann reiddi i knæun sier kistu vel mikla, Enn hann hafdi i handarkrika sier Eirketil, er hann foor i brott, hafa menn þadann sijdann fyrir satt, ad hann mun hafa lætid fara annadhvort eda bædi i Krumskelldu, og lætid þar fara æ ofann Hellusteiñ mikiñ. Skalla-Grímur kom heim um midnættisskeid, og geck þæ til rums sijns, og lagdist nidur i Klædum sijnum: Enn um morguninn er lysti og menn klæddust, þæ sat Skalla-Grímur fram æ stocki og var þæ andadur, og so stirdur ad menn feingu hvorki riett hann nie hafid, og var alls vid leitad. Þæ var hesti skotid under einn mañ, hleipti sæ sem ækafligaz til þess er hann kom æ Lambastadi: geck hann þegar æ fund Eigils og seiger honum þesse tijdindi. Þæ took Eigill vopn sijn og Klædi og reid heim til Borgar um kvölldid, Og þegar hann hafdi af baki stigid geck hann inn, og um skot er var um elldahwsid, Enn dyr vooru fram wr Skotinu ad setum iñanverdum, geck Eigill fram i setid, og took i herdar Skalla-Gríme, og keikti hann aptur æ bak, lagdi hann nidur i setid og veitti honum nabiarger, þæ bavd Eigill ad taka graftool, og briota vegginn fyrir sunnan, og er þad var giort, þæ took Eigill under hofdahlut Skalla-Gríme, enn adrer under footahlut, bæru þeir hann um þvert hwsid, og so wt igegnum vegginn þar er hann var brotinn, bæru þeir hann þæ i hwdfate ofann i Naustanes. Var þar tialldad yfer um nootina, Enn um morguninn ad flodi var Skalla-Grímur lagdur i skip, og roid med hann wt til Digraness. Liet Eigill þar giora havg æ framanverdu nesinu: Var þar i lagdur hestur Skalla-Gríms og vopn hañs og smij-

da-

datol: Ecki er þess getid ad annad sie væri lagt i havg med hømum: Eigill took þar vid Arfi Londum og Lavsum eyri, ried hann þaa fyrir bwi: þar var med Eigli Þordís doottet Þorolfs og Asgerdar.

## Cap. lx.

Eirikur Koongur ried fyrir Norege eptir Andlaat fodur sijns Haralldos Koongs aadur Hákon Adalsteins fooſtri annar son Haralldos Kgs. kom til Noreg veſtann af Einglandi, og sama sumar foor Eigill Skalla-Grímsson til Íslands. Hákon foor nordur til Þrandheims. Var hann þar til Koongs tekinn, vooru þeir Eirikur um veturinn bæder Koongar i Noregi: Enn um vorid dro hvorutveggia her samann, vard Hákon miklu fiølmennari: saa Eirikur þaa ongvann sinn kost annann enn flya Land, foor hann þaa aa brott med Gunnhilldi konu sijna og børn þeirra, Arinbiørn Herser var foſtbrooder Eiriks Koongs og barnfoſtre hanns, hann var kiærſtur Koongi af øllum lendum mønnum: Hafdi Koongur sett hann høfdingia yfer allt Fyrdafylke. Arinbiørn foor wr Landi med Koongi, fooru fyrſt veſtur um haf til Orkneya, þaa gipti hann Ragnhilldi doottur sijna Arnfinne Jarli, sijdann foor hann med Lidi sijnu sudur fyrir Skotland, og heriadi þar, þadann for hann sudur til Einglands og heriadi þar, og er Adalſteirn Koongur heyrdi þad, safnadi hann lidi og foor imoot Eiriki, og er þeir hittuz vooru borin sattmaal milli þeirra: og var þad ad Adalſteirn Koongur feck Eiriki til foraada Nordumbraland; Enn hann skylldi vera Landvarnarmadur Adalſteins Koongs fyrir Skøttum og Irum. Adalſteirn Kongur hafdi ſkattgillt under sig Skotland, epter fall Olafs Koongs (sem fyr seiger) Enn þo var þad folk jafnann otrutt hønum. So er sagt ad Gunnhilldur liet seid efla, og liet þad seida, ad Eigill Skallagrim son ſkylldi alldri ro bijda aa Íslande, fyrr enn hwn sæi hann. Enn þad sumar er þeir Hákon og Eirikur høfdu hitſt og deillt um Noreg, þaa var farbann til allra Landa wr Noregi, og komu þad sumar eingi ſkip til Íslands og eingi tijdindi wr Noregi: Eigill Skalla-Grímsson sat ad Borg i bwi sijnu: Enn þann vetur annann er hann bio ad Borg

ept-

epter Andlaat Skalla-Gríms, þaa giordist Eigill Okaatur, og var þvi meire Ogledi hanns sem aa leid veturinn: Og er sumar kom, þaa lysti Eigill þvi yfer, ad hann ætlar ad bwa skip sitt til brottfarar um sumarid, took hann þaa hæseta, hann ætlar þaa ad sigla til Einglands, þeir vooru aa skipi xxx. manna, Asgerdur var þaa epter og giætti Bws þeirra: Enn Eigill ætladi þaa ad fara aa fund Adalsteins Koongs og vitia heita þeirra er hann hafdi heitid Eigli ad skilnadi þeirra: Eigill vard ecki snembwinn, og er hann liet i haf, þaa byriadi helldur seint, took ad havsta, stærdi vedurinn, sigldu þeir fyrir nordan Orkneyar. Villdi Eigill þar-ecki vidkoma, þvi hann hugdi ad Rijke Eiriks Koongs mundi allt yferstanda i Eyunum, sigldu þeir þaa sudur fyrir Skotland, og hofdu storm mikinn og vedur þvert, feingu þeir bént fyrir Skotland, og so nordann fyrir Eingland. Enn Aptan dags er mirkva tóok var vedur hvast, finna þeir et fyrri enn Bodafoll vooru aa wtborda, og so fram fyri, Var þaa eckert annad enn stefna aa Land upp, og so giordu þeir, sigldu þaa til brots og komu ad Landi vid Humru-Minne, þaa hielldust menn aller og mestur hluti fiaar, annad enn Skipid, þad brotnadi i spon: Og er þeir hittu menn ad maali, spurdu þeir þav tijdindi er Eigli þotti hæskasamleg, ad Eirikur Koongur Blódøx var þar fyrir og Gunnhilldur, og þav hofdu þar Rijke til foraada, og hann var skamt þadann upp i Borginni Jorvijk: þad spurdi hann og ad Arinbiørn Herser var þar og med Koongi og i miklum Kiærleik vid Koongin, og er Eigill var vijs ordenn þeirra tijdinda, þaa giordi hann raad fyrir, þotti honum sier Ovænt til undankomu, þott hann freystadi þess ad leynast, og fara huldu hofdi, leid so langa sem vera mundi aadur hañ kiæmi wr Rijki Eiriks Koongs, var hann þaa avdkendur þeim er hann sæi, þootti honum þad lijtilmannlegt ad vera tekiñ i flootta þeim, herdi hann þvi huginn, og ried þad af ad þegar um Noottina er þeir hofdu þar komid, þaa fær hann sier hest og rijdur til borgarinnar: Hann kom þar ad qvolldi dags, og reid hann þegar i borgina, hann hafdi sijdann hatt yfer hiaalmi, og Alvæpni hafdi hann: Eigill spurdi hvar Gardur saa væri i borginne er Arinbiørn aatti, honum var þad sagt, hann reid þangad i gardinn, Enn er hann kom ad stofunni, steig hann af Hesti sijnum og hitti mann ad maale. Var honum þaa sagt ad Arin-

rinbiørn sat yfer matbordi. Eigill mællti, Eg villdi goodur Dreingur ad þw genger inn i Stofuna, og spirier Arinbiørn hvort hann vill helldur wti eda inne tala vid Eigil Skalla-Grímsson, sa madur seiger þad er mier lijtid starf ad reka þetta erindi, Hann geck innar i stofuna og mællti stundar hꜳtt madur er hier kominn uti fyrir Dyrum seiger hann, mikill sem troll, Enn sa bad mig ganga inn, og spuria hvort þw villder uti eda inne tala vid Eigil Skalla-Grímsson. Arinbiørn seiger gack ut, og bid hann bijda uti, og mun hann ei leingi þurfa. Hann gíorde sem Arinbiørn mællti, geck ut og seiger sem mællt var vid hann. Arinbiørn bad taka upp bordenn. Sijdann geck hañ ut og aller hwskarlar hanns med honum, og er Arinbiørn hitti Eigil heilsadi hañ honum og spurdi þvi hann var þar kominn: Eigill seiger i fꜳm ordum hid lioosasta af um ferd sijna: Enn nw skaltu fyrir sia hvort rꜳd eg skal taka, ef þw villt nockurt lid veita mier. Hefur þw nockra menn hitt i borgiñe seiger Arinbiørn þꜳ er þig munu kent hafa adur þw komst hier i gardinn: eingan seiger Eigill, Taki menn þꜳ vopn sijn seiger Arinbiørn, Þeir giordu so, og er þeir vooru vopnader, og aller hwskarlar Arinbiørns, þꜳ geck hann i Koongsgard: Enn er þeir komu til Hallar þꜳ klappadi Arinbiørn ꜳ dyrnar, og bad uppluka, og seiger hvor þar var, Dyraverder lietu þegar upp hurdina: Koongur sat yfer bordum, Arinbiørn bad þꜳ ganga inn xij. nefndi til þess Eigil og x. adra menn. Nw skalltu Eigill færa Eiriki Koongi Hofud þitt, og taka um foot honum, Enn eg mun tulka mꜳl þitt. Sijdann ganga þeir inn, geck Arinbiørn fyrir Koong og qvaddi hann. Koongur fagnadi honum og spurdi hvad er hann villdi: Arinbiørn mællti, Eg fylgi hingad þeim manne er kominn er um langann veg ad sækia ydur heim og sættast vid ydur: Er ydur þad vegur mikill Herra, er Oviner ydar fara siꜳlfer viljandi af odrum londum, og þikiaz ei meiga bera reidi ydar, þo ad þier sieud hvorgi nær: Lꜳttu þier nw verda Hofdijnglega vid þennañ mann: Lꜳt hann fꜳ af sætt gooda fyri þad er hann hefur giort veg þinn so mikinn sem nw mꜳ sia, farid yfer mørg hof og torleidi heimann frꜳ Bwum sijnum: bar hann enga navdsyn til þessarar farar, nema goodvilie vid ydur: Þꜳ litadist Koongur um, og sꜳ hann fyrir ofann hofud monnum hvar Eigill stood, og hvesti avgun ꜳ hann og mællte: Hvi varstu

ſo diarfur Eigill er þw þorder ad fara a fund minn: leiſtir þw ſvo hiedann næſtum, ad þier var eingi von lijfs af mier. Þa geck Eigill ad bordenu og took um fot Koongi, og qvad vijſu.

Kominn em eg af jo, ifang brittañ veg langañ, Aulldu eiſktufolldar, adſitiandi vitia, nú hefer ſiſkielſer ſiálfann, ſvar ſátt Haralldur átti, vid Ofurhuga yfrinn, undarbliks af fundum.

Eirikur Koongur ſeiger ecki þarf eg ad telia upp ſaker a hendur þier, Enn þo eru þær ſo margar og ſtoorar, ad einhvor ma vel endaſt til, ad þw komer alldri hiedann lijfs, attu einſkis annars af von, enn þw munt hier deya, mátter þw þad vita adur, ad þw munder ongva ſætt af mier fa: Gunnhilldur mællti, hvi ſkal ei drepa Eigil, eda manſtu ei nw Eirikr Koongr hvad Eigill hefur giort, drepid vini þijna og frændur og þar a ofann ſon þinn, enn nidt ſialfann þig, eda hvar vita menn ſlijku deilt vid Konga. Arinbiørn ſeiger, Ef Eigill hefur mællt illa til Koongs, þa ma hann bæta þad i Lofsordum, þeim er allann Alldur meigi uppi vera: Gunhilldur ſeiger, vier villum ecki lof hanns heyra: Laattu Koongur leida Eigil wt og hoggva hann, vil eg ei heyra ord hanns og ecki ſia hann. Þa mællti Arinbiørn, Ei mun Koongur laata adeggiaz um oll nijdingsverk þijn, Og ei mun hann laata Eigil drepa i noott, þviad naattvijg eru mordvijg: Koongur ſeiger, So ſkal vera Arinbiørn ſem þw bidur, ad Eigill ſkal lifa i Noott, haf þw hann heim med þier, og fær mier hann a morgun: Arinbiørn þakadi Kongi ord ſijn, væntum vier Herra, ad hiedann mun ſkipaz Maal Eigils a betri leid, Enn þo ad Eigill hafe ſtort til ſaka giørt vid ydur, þa lijti þier a þad ad hann hefur mikils miſt fyrir ydrum frændum Haralldur Koongur fader þinn took af lijfi agiætann mann Þorolf fødurbroodur Eigils, af roogi manna enn af ongvum ſokum: Enn þier Koongur brutud løg a Eigli fyrir ſaker Bergønundar, Enn þar a ofann villdu þier hafa Eigil ad Davdamanne, og drapud meyn af honum, enn ræntud hann fe ollu, og þar a ofann giordu þier hañ wtlaga og raakud hann af Landi: Enn Eigill er eingi-evtingamadur: Enn hvort maal er madur ſkal dæma, verdur ad lijta a tilgiorder. Eg mun

 nw

nw seiger Arinbiørn hafa Eigil med mier i noott heim i gard minn: var nw so. Og er þeir komu i gardinn þa ganga þeir ij. i lopt nockud lijtid og ræda um þetta maal, seiger Arinbiørn so, Allreidur var Kongur nw, enn hellst þotti mier mykiaz skaplyndi hanns nockud-adur lietti, og mun nw hamingia skipta hvad upp kemur. Veit eg ad Gunnhilldr mun allann hug a leggia ad spilla þijnu maale. Nw vil eg þad raad gefa ad þw vaker i noott, og yrker lofqvædi um Eirik Koong, Þætti mier þa vel ef þad yrdi drapa twitug, og mættir þw qveda a morgun er vid komum fyrir Koong. Svo giordi Bragi frændi þinn, þa er hann vard fyrir reidi Biarnar Svija Koongs, ad hann orte Drapu twituga um hañ eina noott, og þa fyrir hofud sitt. Nw mætti so vera ad vier bærum giæfu til vid Koong, so ad þier kiæme þad i frid vid hañ. Eigill seiger freysta skal eg þessa raads ef þw villt, enn ecki hef eg vid þvi bwiz ad yrkia lof um Erik Koong, Arinbiørn bad hann freysta. Sijdann geck hann a brott til manna sinna: satu þeir ad Dryckiu til midrar nætur, Þa geck Arinbiørn til svefns og sveit hanns, og adur hann afklæddiz geck hann upp i loptid til Eigils og spurdi hvad þa lidi um qvædid, Eigill seiger ad ecki var ort, hefur hier setid svala ein vid glugginn, og kvakad i alla noott, so ad eg hefi alldri bedid ro fyrir, sidann geck Arinbiørn i brott og ut um dyr þær er ganga matti uppa hwsid, og settist i glugg þann a loptinu var, er adur hafdi fugliñ setid vid, Hann sa hvar hamhleipa nockur for annann veg af hwsinu. Arinbiørn sat þar vid gluggann alla noottina til þess er lysti, enn sijdañ er Arinbiørn hafdi þar komid, þa orti Eigill alla Drapuna, og hafdi fest, so ad hann matti qveda um morguninn, þa er hann hitti Arinbiørn. Þeir hielldu vord a nær tijme mundi a vera ad hitta Koong.

## Cap. lxi.

Eirikur Koongur geck til borda ad vanda sijnum, og var þa fiolmenne mikid med honum, og er Arinbiørn vard þess var, þa geck hañ med alla sveit sijna alvopnada i Koongsgard, þar er Koongur sat yfer bordum. Arinbiørn krafdi sier inngongu i Hollina, honum var þad og heimillt

heimillt gert. Ganga þeir Eigill inn med helming sveitarinnar, annar helmingur stood wti fyrir dyrum. Arinbiørn qvaddi Koong enn Koongur fagnade honum vel: Arinbiørn mællti, Nw er Eigill hier kominn, hefur hann ecki giort til burthlavps i noott. Nw vilium vier vita hvor hanns hluti skal vera, vænte eg gods af ydur, hef eg þad giort sem vert var, ad eg hefdi ongvan hlut til þess sparad ad giora og mæla so ad ydar vegur væri þaa meire enn aadur, hef eg og lætid allar mijnar eigur og frændur og vine er eg aatti i Norege og filgt ydur, enn aller lender menn ydar skilduz vid ydur, og er þad maklegt, þviad þw hefur marga hluti til mijn stoorvel giort. Þaa mællti Gunnhilldur, hættu Arinbiørn og tala ei so langt um þetta: margt hefur þw vel giort vid Eirik Koong, og hefur hann þad fullu lavnad, er þier miklu meire vandi aa vid Koong enn Eigil, er þier þess ei bidiandi ad Eigill fare refsingalavst burt hiedann af fundi Eiriks Koongs, slijkt sem hann hefur til saka giort. Þaa seiger Arinbiørn, Ef Koongur og þid Gunnhilldur hafid þad einrædi ad Eigill skal hier ongva sætt faa, þaa er þad dreingskapur ad gefa honum frest og fararleisi um vikusaker ad hann fordi sier, þo hefur hann ad sialfvilia sijnum farid hingad aa fund ydvarn, og vænt sier af fridar, fara þaa enn skipti ydar sem verda maa þadañ af. Gunnhilldur mællti, sia kann eg aa þessu Arinbiørn ad þw ert hollare Eigli enn Eiriki Koonge, Ef Eigill skal rijda hiedann viku i brott i fridi, þaa mun hann kominn til Adalsteins Koongs aa þeirre stundu, enn Eirikur Koongur þarf nw ecki ad diliaz vid i þvi ad honum verda nw aller Kongar ofureflismenn: Enn fyrir skomu mundi þad ecki þickia liklegt, ad Eirikur Koongur mundi ei hafa til þess vilia, ad hefna harma sinna aa hvorium manne slijkum sem Eigill er: Arinbiørn seiger, eingi madur mun Eirik kalla ad meira mann, þo ad hann dræpi eirn Boondason utlendann þann er gengid hefur aa valld hanns: Enn ef hann vill miklast af þessu, þaa skal eg þad veita honum, ad þessi tijdindi skulu helldur þikia fraasagna verd, þvi ad vid Eigill munum nw veitast ad, so ad jafnsnemma skal ockur mæta baadum: Muntu Koongur þaa dyrt kavpa Lijf Eigils, um þad vier erum aller ad velle lagder, eg og sveit-

wngar mijner: mundi mig annars vara af ydur enn þw munder mig vilia leggia helldur ad velli enn lꜳta mig þiggia lijf eins manns er eg bid, þꜳ seiger Koongur, allmikid kapp leggur þw ꜳ þetta Arinbiørn ad veita Eigli lid, enn sækiande mun eg ei til vera ad giora þier skada, ef þvi er ad skipta, ad þw villt helldur leggia fram lijf þitt enn hann sie drepinn, enn ærnar eru saker til vid Eigil, hvad sem eg læt giora vid hann: Og er Koongur hafdi þetta mællt, þꜳ geck Eigill fyrir hann, og hoof upp qvædid, og kvad hꜳtt og feck þegar hliood.

Vestur com eg om Ver, enn ec Vidris Ber, Munstrandar Mar, so er Mitt of far, Droo eg Eyk ꜳ Flot, vid Isa brot, hlood ec Mærdar Lut, Minnes Knarar Skut.

Budunst Hilmi hlavd, nw ꜳ eg hroodrar Qvod, ber eg Odens Miavd, ꜳ Eingla Biod, Lof at vijsa vann, vijst Mære eg þann, hlioods bidium hann, þviad hroodur of fann.

Hygg Vijser at, Vel soomer þat, hve eg þilia Fat, ef eg þegn of Gat, Flestur Madur of fraa, hvad Filker vꜳ, enn Vidrer sꜳ, hvar Valur um Lꜳ.

Nú kiemur Meigenu-Lofed.

Voogs Hiavrva hlavm, vid hlijfar þravm, Gudr voogs um Gram, Gram sookte fram, þier heirdud þꜳ, þaut Mækes ꜳ, Mꜳlm hrijdar Spꜳ, sw er mest of lꜳ.

Var-

Varat villu Stadar, vesur Darradar, of grams Gladar, geirvangs radar, bars i Bloode i Brimla Moode, Flaustur of brunde, Undum Glumde.

Nú kiemur Stef.

Hne Fyrda sit, vid sleina hnit, Ords-Tyr of gat, ERRÆKUR at þat.

Nú kiemur annad Stefia Mál.

Fremur mun eg seigia, ef Fyrdar þeigia, fraa-gum̃ fleira, til frama þeira, æstuz Under, vid Javf-urs funde, Brustu brandar, vid blaar Rander.

Hlam hriin Savdull, vid Hiaalm Ravdul, Beit Bengrefill, þad var bloodrefill, Fraa eg ad Fielle, fyrer Fetels Svelle, Odens Ætke, i Jaarn-leike.

Annad Stefed.

Þaa var Odda at, oc Æggia gnat, Ordstyr of gat, ERRÆKUR at þat.

Þridia Stefia Mál.

Raud hilmi hiavr, þaa var Hrafna giavr, Fleirn hitte Fiavr, flugu Dreyrug spiavr, Ol Flagds gota, farbioodr Skotar, Trad Liipt Nara, Naatt verd Ara.

Flugu hialldurs tranar, um̃ hiavrs lanar, voru Bloode vanar, benmaal granar, þaa er Oddbreke, Sleit und freke, gnyde Hrafne, aa Havfud-Tafne.

Pridia Stefed.

Kom Grijdar Skiæ, á giaalfar Læ, Bavd Ulfum̃ hræ, ERREKUR um̃ Sæ.

Fiórda Stefia Mál.

Beit Fleirn slogenn, þaa var Fridur Logenn, var Almur dreigenn, þvi vard Ulfur feigenn, Brustu broddar, enn bitu Oddar, baaru havrvar, aa Bogum̃ Ørvar.

Verpur Broddslete, med bavgsete, hiavrleiks hvate, hann Bloodskate, þroast hier sém hvar, hugat mæle eg þar, Friett er Austur um̃ Mar, ERREKUR of Far.

Fiórda Stefed.

Javfur Sveigde y, Flugu unda by, Baud Ulfum̃ hræ, ERREKUR um Sæ.

Fimta Stef.

Enn mune vilia, fraa Verium̃ skilia, Skapleik Skata, skal Mærd hvata, Lætur Snoot saka, um̃ suud frij vaka, of Skers Aka, Skijdgeirs braka.

Brytur Bog hvita, bioodur hram þvita, muna hodd ófa, hrijngs briootur Lofa, Gladdest flotna Fiavl, vid Frooda Miavl, Miog er Hilmi Favl, havc strandar Mol.

Stoodst Foolk eyge, fyrer fiavrloge, Gall y Boge,

Boge, ad Ægg toge, Verpur af Brøndum̃, eñ Jöfur Løndum̃, helldur horn klofe, hann er Næstur Lofe.

Nú kiemur Alyktan eda Máls ending Drápunnar.

Siotta Stefia Mál.

Javfur hygge at, hve eg þilia Fat, gott þooctumst þat, er eg þøgn of gat, hrærdac Munne, af Munar grunne, Odens Æge, æ Jooru fæge.

Bar eg Þeingels Lof, og þagnar Rof, kañ eg̃ Mæla Miavt, vid Manna Siavt, or hlæatra ham, hroodur ber eg Gram, sva for þad fram, ad flestur of nam.

Nú epterfilger Nockursskonar Ofkunar Allicktan þessarar Drápu, sem so hlióđar.

Nioote so Bavga, sem Brage Auga, Vagna varg, oc Vile Tæra.

## Cap. lxij.

Eirikur Koongur sat upp riettur medann Eigill qvad qvædit, og hvesti Avgum æ hann, og er lokid var dræpunne, þæ mællti Kgr. þesta er qvædid framflutt, Enn nw hef eg hugsad Arinbiørn um̃ mæl vort Eigils, hvar koma skal, Þw hefur flutt mæl Eigils med ækafa miklum er þw bijdur ad etia vandrædum vid mig. Nw skal þad giora þo fyrir þijnar saker sem þw hefur bedid, ad Eigill skal fara af mijnum fundi heill og saklavs: Enn þw Eigill haga so ferdum þijnum/ ad sijdann er þw kemur fræ mijnum fundi af þess-

ari stefnu, þaa kom þw alldri i avgsyn mier nie sona minna, og verd alldri fyrir mier nie mijnu lidi, enn eg gef þier nw høfud þitt ad finne, fyrir þaa sok er þw gekst aa mitt vallð, þaa vil eg ei giora nijdings verk aa þier, enn vita skalltu þad til sanns ad þetta er eigi sætt vid mig nie sonu mijna, og enga frændur vora, þaa sem riettar vilia reka. Þaa qvad Eigill.

Einka leitt þótt liótt of sie, Hiálmakletti hvefse ad þiggia,
hvad er sá er gat af gofuglyndum, ædre giof Alvalldssyne.

Arinbiørn þackadi Kongi þaa sæmd og vinaattu med fogrum ordum er Koongur hafdi veitt hønum. Þaa ganga þeir Arinbiørn og Eigill heim i gard Arinbiørns, sijdann liet Arinbiørn bwa reidskioota lidi sijnu, reid hann brott med Eigli, og C. manna alvæpnadra med honum, Arinbiørn reid med lid þad til þess er þeir komu til Adalsteins Koongs, og feingu þar goodar vidtokur, bavd Koongur Eigli med sier ad vera, og spurdi hvornveg farid hafdi med þeim Eiriki Koongi. Þaa qvad Eigill vijsu.

Svartbruninn liet sionum, sannspár hugbits vara, Hugur tiádum miog maga, magnadur Eigil fagna, Arfstóle kna eg ala, áttgofgudum háttar, fyrir Rognadar Regni, Ráda nú sem ádur.

Enn ad skilnadi þeirra Arinbiørns og Eigils gaf Eigill Arinbirni gullhrijnga þaa ij. er Adalsteirn Koongur gaf honum, og stod mork hvor, Enn Arinbiørn gaf Eigli sverd þad er Dragvandill hiet, þad hafdi gefid Arinbirni Þorolfur Skalla-Grímsson, enn aadur hafdi Skalla-Grímur þeigid af Þorolfi broodur sijnum, Enn Þorolfi gaf sverdid Grímur Lodinkinn, son Ketils Hængs, þad sverd hafdi aatt Ketill Hængur, og hafdi haft i holmgongum, og vard þad allra sverda biartast; skildust þeir med Kiærleik hinum mestu. Foor Arinbiørn heim i Jorvijk til Eiriks Koongs: Enn førunavtar Eigils og skipveriar hanns høfdu þar frid godann og vordu varningi sijnum i travsti Arinbiørns, Enn er aaleid veturinn fluttust þeir sudur til Englands, og fooru aa fund Eigils.

Cap. lxiij.

# Cap. lxiij.

Eirikur Allspakur hiet lendur madur i Noregi, hann ætti Þoru Dootter Þoris Hersis, systur Arinbiørns. Hann ætti eigner i Vijk avstur, hann var madur stooravdigur og hinn mesti virdinga madur, spakur ad viti. Þorsteirn hiet son þeirra, hann fæddiz upp med Arinbirne og var þa vaxinn miog og þo æ ungum Alldri. Hann hafdi farid vestur til Englands, med Arinbirni: Enn þad sama havst sem Eigill hafdi komid til Englands, spurduz af Noreg þav tijdindi ad Eirikur Allspakur var andadur, Enn Arf hans hofdu tekid Armenn Koongs, og kastad æ Koongseign: og er Arinbiørn og Þorsteirn spurdu þesse tijdindi, þæ giordu þeir þad ræd, ad Þorsteirn skylldi fara avstur og vitia Arfsins: og er vorid leid fram, og menn biuggu skip sijn, þeir er fara ætludu Landa æ mille þæ foor Þorsteirn sudur til Lunduna og hittu þar Adalsteirn Kg. bar hann fram Ordsending og jartegner Arinbiørns til Koongs og svo til Eigill ad hann væri flutningsmadur vid Koong, ad Adalsteirn Koongur giordi ordsending sijna til Hákon fostra sijns, ad Þorsteirn nædi Arfi og eignum i Noreg, Adalsteirn Koongur var þess avdbedinn þviad Arinbiørn var honum kunnugur ad goodu: Þæ kom og Eigill ad mæle vid Adalsteirn Koong og sagdi honum fyrirætlan sijna. Vil eg i sumar seiger hann fara avstur til Noregs, ad vitia fiær þess er Eirikur Koongur rænte mig, og þeir Bergønundur, situr nw yfer þvi fie Atli hinn Skamme brooder Bergønundar, veit eg ef ordsendingar ydar koma til, ad eg mun næ logum af þvi mæle: Koongur seiger ad Eigill skal ræda ferdamønum sinum, enn bast þætti mier ad þw værer med mier, og gerdist Landvarnarmadur minn og reder fyrir herlidi mijnu, mun eg fæ þier veislar stoorar, Eigill seiger þesse kostur þiki mier allfysilegur ad taka: vil eg þvi jæta enn ecki neita: Enn þo verd eg fyrst ad fara til Islands, og vitia konu minnar og fiær þess er eg æ þar, Adalsteirn Koongur gaf Eigli Kavpskip gott, og þar med farminn, Var þar æ til þwnga hveiti og hunang, og enn mikid fie annad i odrum varningi: Og er Eigill bio skip sitt til hafs þæ redst til farar med honum

um Þorsteirn Eiriksson sem fyr var getið, er sidann var kalladur Þoruson, og er þeir vooru buner þaa sigldu þeir. Skilduſt þeir Adalsteirn Koongur og Eigill med hinni meſtu vinaattu. Þeim Eigli greiddiz vel ferdin, komu ad Noreg i Vijk avſtur, og hielldu ſkipinu inn allt i Oſloarfiord, þar aatti Þorsteirn bw aa land upp, og ſo inn allt aa Ravmarijki: Og er Þorsteirn kom þar til lands, þaa veitti hann fyrſt tilkall um fodurarf ſinn vid Armennina er ſeſt hofdu i bw hanns, veittu Þorsteirne marger lid ad þeſsu, vooru þar ſtefnur til lagdar, aatti Þorsteirn þar margar frændur gofga, lavk þad ſo ad ſkotid var til Kongs urſkurdar, Enn Þorsteirn took vid vardveiſlu fiaar þeſs er Fader hans hafdi aatt, Eigill for til veturviſtar med Þorsteine og þeir xij. ſamann, Var þangad flutt heim til Þorsteins hveiti og hunang. Var þar um veturinn gledi mikil, og bio Þorsterin ravſnarſamlega, þviad nog voru fong til.

## Cap. lxiv.

Hákon Koong Adalsteins foſtri red þaa fyrir Noregi sem fyr var ſagt, Koongur ſat þann vetur nordur i Þrandheime. Enn er aa leid veturinn biriadi Þorsteirn ferd ſijna, og Eigill med honum, þeir hofdu nær xxx: manna: og er þeir vooru buner fooru þeir fyrſt til upplanda, þadann nordur um Dofrafiall til Þrandheims, og komu þar aa fund Hákonar Koongs, bæru þeir upp erindi ſijn vid Koong, ſagdi Þorsteirn ſkyn aa maale ſijnu, og kom fram vitnum med ſier, ad hann aatti Arf þann allann er hann kalladi til, Koongur tok þvi maali vel: liet hann Þorsteirn naa eignum ſijnum: og þar med giordiſt hann lendur madur Koongs, ſoſem fader hanns hafdi verid: Eigill geck aa fund Hákonar Koongs og bar fyrir hann ſijn erindi: og þar med Ordſending Adalsteins Koongs og jartegner hanns, Eigill taldi til fiaar þeſs er aatt hafdi Biørn Holdur, landa og lavſa avra, taldi hann ſier helming fiaar þeſs, og Asgerdi konu ſinne, bavd þar fram vitni og eida med maale ſijnu, ſeiger og ad hann hafdi þad allt frambörid fyrir Eiriki Koongi liet þad filgia ad hann hafdi ei naad Logum fyrir rijke Eiriks Koongs enn eggian Gunnhilldar, Eigil inti upp allann þann maalavoxt er fyrr

hafde

hafdi i giorst a Gulaþijngi, beiddi hann þa Koong unna sier laga a þvi mále. Hákon Koongur svarar: Svo hef eg spurt ad Eirikur Koongur brooder minn muni þad kalla og þav Gunnhilldur bædi, ad þw Eigill muner hafa kastad steine um megn þier i ydrum skiptum, þætti mier þw vel meiga yfer lata Eigill ad eg legda ecki til þessa maals, þo ad vid Eirikur bærum ei giæfu til samþickis: Eigill mællti: Eigi mattu Koongur þeigia yfer so stoorum malum, þviad aller menn hier i landi innlendsker og utlendsker skulu hlyda ydru bodi: Eg hefi spurt ad þier setied log hier i landi og riett hvorium manne: nw veit eg ad þier munud lata mig þeim na sem adra menn, þikiunst eg hafa til þess burdi og frændastyrk hier i landi ad hafa vid Atla hinn Skama: Enn um maal Eiriks Koongs er ydur þad ad seigia, ad eg foor a hans fund og skilduz vid so ad hann bad mig i fridi fara hvort er eg villdi. Vil eg biooda ydur Herra mijna filgd og þioonustu, veit eg ad vera munu hier med ydur þeir menn, ad ecki munu þikia vigligri a velle ad sia enn eg em, er þad mitt hugbod ad ei lijdi langt adur fundi yckar Eriks Kgs. muni samanbera ef yckur endiz Alldur til, þiki mier þad undarligt ef eigi skal þar koma ad þier þiki Gunnhilldur eiga sona uppreisn marga, Kgr. seiger, ecki muntu gioraft mier handgenginn Eigill, miklu hefur þw meira skard hoggvid a ætt vora, enn þier muna duga ad stadfestaz hier. Far þw helldur til Islands ut og ver þar ad fodurarfi þijnum, mun þier þa ecki verda mein ad og frændum, enn hier i landi er þess von um alla þijna daga, ad vorer frændur sieu rijkaster. Enn fyrir saker Adalsteins Koongs fostra mijns, þa skalltu hafa hier frid i landi, og na logum og Landsriette: þviad eg veit ad Adalsteinn Koongur hefur mikla Elsku a þier, Eigill þackadi Koongi ord sijn, og beiddiz þess ad Kgr. skylldi fa honum sannar jardtegnar sijnar til Þordar a Avrlandi eda annara lendra manna i Sogn og a Hordalandi, Koongur seiger ad so skylldi vera.

## Cap. lxv.

Þorsteinn og Eigill bivggu ferd sijna þegar þeir hofdu lokid Erindum sijnum fara þeir þa aptur a leid, og er þeir koma sudur um Dofrafiall

rafiall, þa seiger Eigill ad hann vill fara ofann til Ravmsdals: og sijdann suður Sundaland: Vil eg seiger hann lwka Erindum mijnum i Sogni og a Hordalandi, þviad eg vil bwa skip mitt i sumar til Islands ut, Þorsteirn bad hann rada ferd sinne, skiliast þeir Þorsteirn og Eigill, foor Þorsteirn suður um dali, og alla leid til þess er hañ kom til bwa sinna: bar hann þa fram jardtegner Koongs og ordsendingar fyrir Armennena, ad þeir skilldu lata sie þad allt er þeir hafa upptekid, og Þorsteirn kalladi til. Eigill foor leidar sinnar og þeir xij. saman, komu þeir fram i Ravmsdal, feingu sier þa flutninga, fooru sijdann suður a Mære, er ecki sagt fra ferd þeirra fyrr enn þeir komu i ey þa er Hodd heiter, og fooru til gistingar a bæ þann er hiet a Blindheim, þad var gøfugur bær, þar bioo lendur madur er Fridgeir hiet, hann var wngur ad alldri og hafdi ny tekid vid fødurarfi sijnum, mooder hanns hiet Gyda hwn var syster Arinbiarnar Hersis, skorungur mikill og gøfug Kona, hun var ad radum med syne sijnum Fridgeire, hofdu þav þar ravsnar bw mikit, þar feingu þeir allgoodar vidtokur, sat Eigill um qvølldid hid næsta Fridgeire og förunavtar hanns hid næsta þar wt i fra, var þar dryckia mikil og dyrlig veisla: Gyda hwsfreya geck um qvølldid til tals vid Eigil, hwn spyr ad Arinbirne broodur sijnum og eñ ad fleyrum frændum sijnum og vinum þeim er til Englands hefdu farid med Arinbirni, Eigill seigir henne af hid lioosasta, Þa qvad hañ

 Urdunst leid hinn lióta, Ló Heidadar reide, sigrade ginukne of glaña, gañ veit um sig þraña, Þar navt eg sem optar Arin- Stalls, Siotul, biarnar, Hngrarhiallur sá er halla, Hiálpendur of for giálpa.

Eigill var allkatur um qvølldid, Enn Fridgeir og heimameñ voru helldur hlioode: Eigill sa þar mey fagra og vel búna, honum var sagt ad hwn væri syster Fridgeirs. Mæren var okat, og gret einatt um qvølldid, þad þootti þeim undarlegt er komner vooru: Enn um morguninn var vedur hvast og ei sæfært, þar þurftu þeir far ur Eyunne, þa geck Fridgeir og bædi þav Gyda til fundar vid Eigil, budu þav honum þar ad sitia med Forunavta sijna, til þess

er gott væri færivedur, og hafa þadann fararbeina þann sem þeir þyrfte: Eigill þecktist þad, sætu þeir þar vedurfaster iij nætur, og var þar hinn mesti mannfagnadur. Epter þad giordi vedur lignt: stoodu þeir Eigill þaa upp snemma um morguninn og bioggust, gengu þaa til matar og var þeim gefid Avl ad drecka, og sætu þeir um hrijd, sijdann tooku þeir Klædi sijn, Eigill stod upp þackadi Boonda og hwsfreyu beina sinn og geingu sijdann ut, Boondi og mooder hanns gengu aa gøtu med þeim, þaa geck Gyda til mæls vid Fridgeir son sinn, og taladi vid hann lægt: Eigill stood medann og beid þeirra: Eigill mællti vid meyuna: hvad grætur þw mær? eg sie þig alldri kæta, hwn mætte ongvu svara og gret ad meir: Fridgeir seiger moodur sinne hætt, ecki vil eg bidia þess, þvij þeir eru nw bwner Ferdar sinnar: Þaa geck Gyda ad Eigli og mællti: Eg mun segia þier Eigill tijdindi þav sem eru hier med oss Madur heiter Liótur hinn bleike, hann er berserkur og holmgongumadur og ospeckasæll, kom hann hijngad og bad Dottur minnar er vier svorudum skiott og synindum honum raadsins, sijdann skoradi hann til Holmgongu aa Fridgeir son minn, og skal aa morgun koma til Holmsins i Ey þaa er Vors heiter. Nw villda eg Eigill ad þw færer til Holmsins med Fridgeire, munde þad sannaz ef Arinbiørn væri hier i Landi, ad vier mundum ei þola ofrijke slijkum manne sem Liótur er. Eigill seiger, skyllt er þad hwsfreya fyrir saker Arinbiarnar frænda þijns ad eg fare ef honum þiker sier nock ud fulltyng. Þaa gerer þw vel seiger Gyda, skulum vier þaa ganga inni stofu og vera oll samann daglangt. Ganga þeir aller samann inni stofu og drucku, sætu þeir þar um daginn. Enn um qvolldid koma viner Fridgeirs þeir er til ferdar voru raadner med honum, og var þar fiolment um nottina. Var þar þaa veitsla mikil: enn epter um daginn bioost Fridgeir til ferdar og margt manna med honum, var þar Eigill i for, var þaa gott færi vedur, fooru þeir þaa og komu i Eyna Vors, þar var fagur vollur skamt fraa Sioonum, er holmstefna skylldi vera. Var þar markadur holmstadur, lagder steinar i hrijng utann um: Nw kom þar Liótur med lid sitt, bioost hann til Holmgongu, hann hafdi skiolld og sverd: Liótur var all-

mikill

mikill madur og sterklegur: og er hann geck fram a vølliñ ad Holmstadnum, þa kom a hann berserksgangur, took hann þa ad gremia illiliga og beit i Skiolld siñ. Fridgeir var madur ecki mikill. granligur og frijdur sioonum, enn ecki sterkur, hafdi hann og ei stadid i bardøgum: og er Eigill sa þad, þa qvad hann vijsu.

Er á Fridgeire færi, før heims óvit sorvar, skulum banna miøg manne Mey Eielaugie ad heya, vid þann er bítur og blótar. bøndel hvotud gaundlar, Allfeigum Skytur ægier, Avgum skiollda Bavgi.

Liótur sa hvar Eigill stood, heyrdi ord hanns og mællte, gack þu hijngad hinn mikli madur a Holminn, og berst vid mig ef þu ert allfus til og reinum med ockur: er þad miklu jafnara enn eg beriunst vid Fridgeir, þviad eg þikiunst ei ad meire madur þott ad eg legdi hann ad jordu, þa qvad Eigill.

Brátt litillar Lioote, leik eg vid hal bleikann, vid biftner bænar, bryniu riett ad synia. búinn til vigs meir enn vægdar, vanleka eg hanum, Skapa virdum vid Skiallde, skiærudriúgur á Mæri.

Sijdann biooft Eigill til Holmgongu vid Liót, Eigill hafde skiolld þann er hann var vanur ad hafa, Hann var girtur sverdi þvi er hann kalladi Nadur, Enn hann hafdi Dragvandil i hendi: Hann geck inn yfer mark þad er Holmstefnann skylldi vera, Enn Liótur var þa ei bwinn: Eigill skook sverdid og qvad vijsu.

Hoggvum Hialltvond skigdum, hæfum ravds med brande, reynum rander manna, riodum Sverd i blóde, Stífum Lioot af lífe leikum sárt vid bleikann, Kyrrum Kappa Einum Konu avrvahræ sænum.

Þa kom Liótur fram a vigvollenn og sijdann rennast þeir ad, og hoggur Eigill til Liots: Enn Liótur bar vid Skilldinum, Eñ Eigill hioo hvort hogg ad odru, so ad Liótur feck ecki hogg vid i moote og hopadi undann til hoggrumsins: eñ Eigill hioo jafnskiott

epi=

epter sem akafaz, Liótur foor ut um märksteina og vijda um vollin, geck so hin fyrsta hrijd. Þa beiddiz Liótur hvildar; Eigill liet þad og vera, nema þeir þa stad og hvijla sig. Þa qvad Eigill.

Fyrer þike mier fara, enn flemstockvandi Rekud, Hrædest Hoddabeider, Happalavst frá Kappi. Vegrat fast sá er frestar, fleinoggvar stafur hoggvinn. va heidann fær vídarr voll fyrir rotnum skalla.

Þad vooru Holmgongu log i þann tijma, ad sa er skorar a annan mann til eirnhvors hlutar, og feingi sa sigur er a skoradi, þa skilldi sa hafa sigurmaal þad er hann skoradi til; Enn ef hann feingi osigur, þa skylldi hann leisa sig þvijlijku fie sem aqvedid være. Enn ef hann fielle a holminum, þa hafdi hann fyrirgiort allre sinne eigu, og skylldi sa taka arf þann allann er hann felldi a holmi. Þad vooru og log, ef utlendur madur andadist sa er þar i Landi, atti ongvann erfingia, þa geck sa Arfur i Koongs gard. Sijdann seiger Eigill Liótur skuli bwinn verda vil eg ad vid reinum ut Holmgongu þessa, sijdann hlioop Eigill ad honum og hoggur hann, gengur hann þa so nær honum ad hann hrock fyrir, og bar þa Skiolldinn af honum, þa kom Eigill til Liots og kom a fyrir ofann Kne, og took af footinn, fiell Liótur þa, og var þegar orendur, Þa geck Eigill þar til er þeir Fridgeir vooru, var þetta verk honum allvel þackande. Þa qvad Eigill vijsu.

Fiell sá ed flest ed illa, fót hió skalld af Lioote, Ulfgrennur hefur unnid, eirveitta eg Fridgeire. seka eg lons til lavna Log briótanda i móte. jafnt var mier i giny geira, gamanleikur vid Hal bleikann.

Liótur var litt harmadur af flestum monnum, þvijad hann hafde verid hinn mesti oeyrdarmadur. Hann var Svenskur ad ætt og atti ongva frændur þar i landi, hann hafdi komid þangad, og aflad sier fiar a holmgongum, hann hafdi fellt marga gooda bændur, og skorad adur a þa til Holmgongu, og til jarda sinna og Odala. Var hann þvij ordinn stooravdigur bædi ad Londum og lavsum avrum. Eigill foor heim med Fridgeire af holmstefnunne: dvaldiz hann þar þa litla

 stund

ſtund æðtir hann foor ſuður a Mæri: ſkilduz þeir Eigill og Fridgeir með mikum Kiærleik, bavd Eigill Fridgeire um að heimta jarðer þær er Liótur hafði ætt. Foor Eigill ſijna leið, kom fram i fiorðum, það ann foor hann inni Sogn, a fund Þorðar a Aurlandi, took hann vel við honum, bar hann fram ordſendingar Hákonar Koongs, took Þorður vel ræðum Eigils, og hiet honum liðveiſlu ſinne um það mal, dvalðiz Eigill þar leingi um vörið með Þorði.

## Cap. lxvj.

Eigill giorði ferð ſijna ſuður a Hordaland, hann hafði til þeirrar ferðar roodrarferin, og þar a xxx. manna, þeir komu eirn dag i Fenhrijng a Aſk, geck Eigill þar til með xx. menn, enn x: giættu ſkipſins. Atli hinn Skammi var þar fyrir með nockrum monnum. Eigill liet hañ utkalla og ſeiger að Eigill Skalla-Grimsſon ætti Erindi við hann. Atle took vopn ſijn, og allir þeir menn er þar vooru viger fyrir, og gengu ut ſijdann: Eigill mællte, Svo er mier ſagt Atle, að þw munner hafa að varðveita fie það er eg a að riettu, og Aſgerður Kona mijn muntu heyrt hafa þar fyrri umrædt að eg kalladi mier Arf Biarnar Hollds, er Bergonundur broder þiñ hiellt fyrir mier: Em eg nw komiñ eñ að vitia fiar þeſs, Lands og lavſa avrar, og krefia þig að þw læter lavſt, og greider mier i hendur. Atli ſeiger leingi hofum vier það heyrt Eigill að þw ert ojafnaðarmaður, enn nw mun eg að ravnum koma ef þw ætlar að kalla til þeſs fiar i hendur mier, er Eirikur Koongur dæmdi Onundi brooður mijnum, ætti Eirikur Koongur þa að ráða boði og banni hier i Landi: Hugda eg nw Eigill helldur að þw munder hier komiñ að biooda mier giolld fyrir bræður mijna er þw tookſt af lijfi, og munder þw bæta vilia ran það er þw ræntir hier a Aſke, munda eg þa veita ſvör þeſsu male ef þw flytter þetta Erinde fram, Enn hier kann eg ongvu ſvara. Það vil eg ſeiger Eigill biooda þier ſem eg bavð Onundi, að Gulaþijngs log ſkipi um mal ockar, tel eg bræður þijna hafa fallið ogillda a ſiealfra ſinna verkum, þviað þeir hofðu æður rænt mig logum og landsrietti, enn tekið fie mitt að herfangi. Hef eg til

þeſsa

þesſa Koongsleiſi ad leita laga a þig um þetta maal. Koma mun eg ſeiger Atle til Gulaþijngs, og meigu vid þar ræda um þesſe maal. Sijdann foor Eigill brott med føruneiti ſitt, foor hann þa nordur i Sogn og inn a Avrland til Þordar mags ſijns og dvaldis þar til Gulaþijngs Og er menn komu til þijngs, þa kom Eigill þar, og Atli hinn Skaũi var og þar kominn, tooku þeir þa ad tala ſijn maal, og fluttu fram fyrir þa menn er um ſkylldu dœma: flutti Eigill fram fiarheimtur, eñ Atle bavd løgvorn i moot tylſtareida, ad hann hafdi ei fie þad ad vardveita er Eigill atti: og er Atle geck ad doomnum med Eida-lid ſitt, þa geck Eigill moot honum og ſeiger ad eie vill hann eida hanns taka fyrir fie ſitt. Vil eg biooda þier ønnur løg, þav ad vid gongum a Holm hier a Þijnginu, og hafe ſa fie þetta er ſigur fær. Þad vooru og løg r Eigill mællti, og forn ſidvenia ad hvorium manne var riett ad ſkora ea annann til Holmgongu, hvort er hann ſkylldi veria ſaker fyrer ſig eda ſækia. Atle ſeiger ad hann mundi ei ſynia ad ganga a holm vid Eigil, þviad þu mæler þad er eg ætta ad mæla: þviad ærinna harma a eg ad hefna a þier, þu hefur ad Jordu lagt brædur mijna tvo, og er mier mikilla muna vant ad eg halldi rettu maale, ef eg ſkal helldur laata lavſar eigner mijnar aflaga fyrir þier, enn beriaz vid þig er þu bijdur mier þad. Sijdann taka þeir Atle og Eigill høndum ſamann, og feſta þad med ſier ad þeir ſkulu a holm ganga, og ſa er ſigur fær ſkal eiga jarder þær er þeir deilldu um adur. Epter þad bwaz þeir til holmgongu: geck Eigill fram, og hafdi hialm a høfdi, og ſkiolld fyrir ſier og Keſiu i hendi, Enn ſverdid Dragvandil feſti hann vid hægri hønd ſier: þad var ſidur holmgongumanna, ad þurfa ecki ad bregda ſverdi ſijnu a holmi, laata helldur ſverdid hendi filgia, ſo ad þegar væri ſverdid tiltækt er hann villdi, Atli hafdi hinn ſama bwnad ſem Eigill: Hann var vanur i holmgongum, hann var ſterkur madur, og hinn meſti fullhugie: Þar var leiddur fram Gradungur mikill og gamall, var þad kallad blootnavt, þad ſkylldi ſa hoggva er ſigur hefdi, var þad ſtundum eitt navt, ſtundum tvø, liet þa ſitt hvort framleida, ſa er a holm geck, Og er þeir vooru bwner til Holmgongu, þa hlavpaſt þeir ad, og ſkutu fyrſt ſpiootum, og feſti hvorki ſpiootid i Skilldi annars og nam bædi i Jordu Stadar, Sijdann tooku þeir bader til ſverda ſinna,

gengu þeir ad fast og higguz aa: Geck Atli ecki aa hæl, þeir hiuggu tytt og hart, og onyttuzt skioott skillderner, Og er Skiolldur Atla var miog onytur, þaa kastadi hann honum: took þaa sverdid tveim hondum og hioo sem tijdaz. Eigill hioo til hanns aa oxlina og beit ecki sverdid, hann hioo annad og hid þridia, var honum þaa hægt ad leita hoggstadar aa Atla, ad hann hafdi ongva hlijf. Eigill reiddi sverdid af ollu Afli, enn ecki beit hvar sem hann hioo til, sier þaa Eigill ad ei mun hlyda so bwid, þviad Skiolldur hanns giordiz onytur. Þaa liet Eigill lavst sverdid og Skiolldenn og hlioop ad Atla og greip hann hondum, kendi þaa Afls munar, og fiell Atli aa bak aptur: Enn Eigill grwfdiz nidur ad Atla, og beit i sundur i honum barkann: liet Atle þar lijf sitt Eigill hlioop upp skioott og þar til er blootnavtid stood, greip annare hende i granernar enn annare i hornid, og snaradi so ad fæturner horfdu upp, enn i sundur halsbeinid. Sijdann geck Eigill þar til er stood foruneyti hanns: þaa qvad Eigill.

Beitra misa brogdum, blár Dragvandill unda, af því ad
Eggiar deifde, Atli fram hinn Skamme, veitta eg Afls
vid Ite avrmalgastan Kiarva. Jáxlbródur liet eg eida: Eg
bar Savd med navdum.

Sijdann fieck Eigill jarder þær allar er hann hafdi tildeillt, og hann kalladi ad Asgerdur kona hanns hafdi aatt ad taka epter fodur sinn: Ecke er getid ad þaa yrde fleira til tijdinda aa þvi Þijngi, Eigill foor þaa fyrst inni Sogn og skipade Jarder þær er hann hafdi þaa feingid ad eigin ordi, dvalduz hann þar miog leingi um vorid, sijdann foor hann med foruneyte sitt avstur i Vijk, foor hann þaa aa fund Þorsteins, og var þar um hrijd.

## Cap. lxvij.

Eigill bioo skip sitt um sumarid, og foor þegar hann var bwinn. Hann hiellt til Islands, honum foorst vel, kom hann til Borgarfiardar, og kom skipi sijnu skamt fraa bæ sijnum, liet hann flitia heim Varning sinn, enn setti upp skipid, var Eigill vetur þann ad bwi sijnu: Eigill hafdi

nw feingid allmikid fie: var hann madur stoor avdigur, og hafdi mikid bw og reisulegt. Ecke var Eigill ihlutunarsamur um mœal manna, og otilleitinn vid flesta menn þœ er hann var hier œ landi; giorduz menn og ecki til þess, ad sitia yfer hlut hauns, Eigill var þœ ad bwi sijnu so ad þad skipte vetrum ei allsœm. Eigill og Asgerdur œttu börn þesse: Bødvar hiet son þeirra, annar Gunnar, Þorgerdur hiet dootter hanns og Bera, Þorsteirn var yngstur, oll voru born Eigils man̄vœn og vel viti borin, Þorgerdur var ellst barna Eigils, þar næst Bera.

# Cap. lxviij.

Eigill spurdi þav tijdindi avstan um haf, ad Eirikur Bloodox hafdi fallid i vestur Vijking, Enn Gunnhilldur og syner hennar vooru farner til Danmerkur sudur, og i burt wr Einglandi var lid þad allt er þeim Eirike hafdi þangad filgt. Arinbiørn var þœ kominn til Noregs, hafdi hann feingid veislur sijnar og eigner þær hann hafdi œtt, og var kominn i mikinn Kiærleika vid Koong. Þotti Eigli þœ enn fysilegt gioraſt ad fara til Noregs. Þad filgdi og tijdinda sogu, ad Adalsteirn Koongur var andadur, ried þœ fyrir Einglande Jatmundur brooder hans. Eigill bioo skip sitt og red hœseta til, Ønundur Sióni redst þar til, sonur Ana frœ Anabrecku, Ønundur var mikill og þeirra manna sterkastur er þœ vooru þar i sveit: ei var um þad einmœllt ad hann mundi ei hamramur. Ønundur hafdi opt verid i forum Landa i millum, hann var nockru elldri enn Eigill, med þeim hafdi leingi verid vingott: Og er Eigill var bwinn liet hann i haf, og greiddiz þeirra ferd vel og komu ad midiu Noreg: Og er þeir sœu land, stefndu þeir inni fiordu, og er þeir feingu tijdindi af Landi var þeim sagt ad Arinbiørn var heima ad bwum sijnum. Helldur Eigill þangad Skipi sijnu i hofn þœ sem næst var Bœ Arinbiørns. Sijdann foor Eigill ad fin̄a Arinbiørn, og vard þar fagnadarfundur mikill med þeim, bavd hann Eigli til sijn til vistar, og ollu foruneite hanns, þvi er han̄ villdi ad þangad fœre. Eigill þecktist þad og liet hann rœda skipi sijnu til hlunns, enn hœsetar vistuduz: Eigill foor til Arinbiørns med xijta.

mann, **Eigill** hafdi lœtid giora Langskips segl miøg vandad: Segl þad gaf hann Arinbiørn og enn fleyri gæfur þær er sæmilegar vooru: **Eigill** var um veturinn i goodu yferlæti, foor hann þa sudur i Sogn ad Landskylldum sijnum, dvaldiz hann þar miog leingi, sijdann foor hann **nordur i fiordu.** Arinbiørn hafdi Jolabod mikid, bavd til sijn vinum sijnum og hieradsbændum, var þar fiolmenne mikid og veisla good. Hann gaf **Eigli** ad Jolagiof Slædur, giorvar af silki og gullsavmadar miøg, settar Gullknoppum allt i gegn nidur. Arinbiørn hafdi lœtid giora Klædi þav epter vexte **Eigils**, Arinbiørn gaf **Eigli** alklœdnad ad Jolum nyskorin, vvoru þar skorin i Ensk klædi med morgum litum. Arinbiørn gaf margskins vingiafer um Jolin þeim mønnum er hann høfdu heimsoott, þviad Arinbiørn var allra manna orastur og mestur skorungur. Þa orti **Eigill** vijsu

Siálfráde liet Slædur, silke Dreingur of feinge, gullknappadar greppi, get eg alldrei um betra, **Arinbiørn** hefur árnad, eirarlavst eda meira, sid man Seggur of fædast slíkur Oddvita Ríke.

## Cap. lxix.

**Eigill** feck Ogledi mikla epter Joolin so ad hann qvad ei ord: og er Arinbiørn fann þad, þa took hann rædu vid **Eigil** og spurdi hvoriu þad gegndi, Ogledi sw er hann hafdi, vil eg seiger hann þw lœtir mig vita hvort þw ert siwkur eda ber annad til, meigum vier þa bæta ef vier vitum. **Eigill** seiger, øngvar hef eg Kvellisootter: Enn ahyggiur hef eg miklar um þad hvornin eg skal na fie þvi er eg vann til, þa er eg felldi **Liót** hinn Bleika nordur a Mæri: Mier er sagt ad Armenn Koongs hafe þad fie allt upptekid, og kastad a hanns eign, Enn eg villda hafa þitt lidsinne um þessa fiarheimtu. Arinbiørn seiger, ecki ætla eg þad fiærri Landsløgum, ad þw eignadiz fie þad, enn þo þiki mier nw fied fastlega komid: Er Koongs gardurinn rwmur inngangs enn þravngur burtfarar: Hafa

oss

oss ordid margar fiarheimtur torsottar vid ofureflismenn slijka, og sootum vier þaa i meira travsti vid Koong enn nw er, þviad vinaatta ockar Hákonar stendur grunt, þo ad eg verdi so ad giora sem forngvedid ord er: ad þá verdur Eik ad fága er under skal búa. Þar leikur þo minn hugur aa seiger Eigill, ef vier hofum Log ad mæla ad vier freystum til maa so vera ad Koongur unni oss hier af riette, þviad mier er sagt ad Koongur sie madur riettlaatur og halldi vel Log þav er hann setur hier i Landi. Telst mier þad hellst i hug ad eg muni fara aa fund Koongs, og freysta þeirra mayla vid hann. Arinbiørn seigiz ecki vera fws þess, þiki mier sem hier muni ohægt samann ad koma Eigill, Kappi þijnu og dyrfd, enn skaplindi Koongs og rijki hanns, þviad eg hygg hann vera ongvañ vin þinn, og þikia honum þo saker til vera: Vil eg helldur ad vid laatum þetta maal nidurfalla, og hofum ei uppi. Enn ef þw villt þad Eigill, þaa skal eg helldur fara aa fund Koongs med þessa maalaleitan, Eigill seigiz kunna þess mikla þock og Ofusu og hann vill þennañ kost giarnan: Hákon var þaa aa Rogalandi. enn stundum aa Hordalande, vard ecki torsott ad sækia hanns fund: Var þad og ei miklu sidar er rædann hafdi verid: Arinbiørn bioo þaa ferd sijna: Var þad þaa giort lioost fyrir mønnum, ad hann ætladi til Koongs fundar. Skipadi hann hwskorlum sijnum xx. sessu er hañ aatti, enn Eigill skylldi heima vera. Villdi Arinbiørn ei ad hann færi: foor Arinbiørn þaa er hann var bwinn, og foorst honum vel fann hann Hákon Koong, og feck þar goodar vidtokur, og er hann hafdi litla hrijd dvalist þar, bar hann upp erindi sijn vid Koong og seiger ad Eigill Skalla-Grimsson sie þar kominn til Lands, og hann þoottist eiga fie þad allt er aatti Liótur hinn Bleike: Er oss so sagt Koongur ad Eigill mun Log mæla um þetta, enn fied hafa tekid upp Armenn ydrer og kastad aa ydvare eigu, Vil eg ydur þess bidia Herra, ad Eigill naai þvi af Logum. Koongur svarar hañs maale og took seint til orda: Eie veit eg hvi þw gengur med slijku maale fyrir hønd Eigils, Kom hann eitt sinn aa minn fund og sagdi eg honum ad eg villdi ecki hier i Landi vister hanns, af þeim sokum sem ydur mun aadur kunnugt. Nw þarf Eigill ecki ad hefia

upp

upp slijk tilkall sem vid Eirik broodur minn: Enn þier Arinbiørn er þad ad seigia ad þw skallt ecki vera hier a landi til þess, ad meta meira utlenda menn enn mig eda mijn ord, þviad eg veit ad huger þiner standa þar til er Haralldur Eiriksson er foosturson þiñ og er þier sa kostur bestur, ad fara til fundar vid þa brædur og vera med þeim, þviad mier er mikill grunur ad þier munud slijker menn aller tiltaks ef þad þarf ad reina um skipte vor Eiriks sona: Og er Koongur took þessu maale so þvert, þa sa Arinbiørn ad ecki mundi tia ad leita þeirra maala vid hann, bioost hann þa til heimferdar. Koongur var helldur stiggur og oblijdur til Arinbiørns sijdann hann visse erindi hanns. Arinbiørn hafdi þa og ecki skaplydi til ad miwklæta sig vid Koong um þetta maal, skilduz þeir vid so bwid: Foor Arinbiørn heim og sagdi Eigli Erindislok sijn, nuu eg ei slijkra maala optar leita vid Koong. Eigill vard all ofryn vid þessa sogu, þottist þar mikils fiaar missa, og ei ad riettu. Faam dogum sidar var þad miog snemma eirn morgun þa er Arinbiørn var i herbergi sijnu, var þa ecki margt manna, þa liet hañ kalla þangad Eigil, og er hann kom þar þa liet Arinbiørn lwka upp kistu, og reiddi þar wr xl. merkur Sillfurs og mællte so, þetta fie geld eg þier Eigill fyrir Jarder þær er Liótur hinn Bleike hafdi att, þiki mier þad sannligt ad þw hafer þesse lavn af ockur Fridgeire frændum, fyrir þad er þw leister lijf hanns af Lióte, Enn veit eg ad þw liest hann mijn ad nioota er eg þvi skylldur ad laata þig ei Logræning vera af þvij maale: Eigill took vid Fienu og þackadi Arinbwrne, giordist Eigill þa enn enteite.

## Cap. lxx.

Arinbiørn var þennann vetur heima ad bwum sijnum, Enn epter um vorid lysti hann þvi yfer, ad hann ætlar ad fara i Vijking. Arinbiørn hafdi Skipakost goodann, bioo hann um vorid iij: Langskip og oll stoor, hann hafdi CCC. manna, hann hafdi og hwskarla a skipi sijnu, og var þad allvel skipad, hann hafdi og marga

Boon-

Boondasonu med sier. Eigill redst til farar med honum, styrdi hann Skipi og foor med honum margt af foruneyte þvi er hann hafdi haft med sier af Islande: Einn Kavpskip þad er Eigill hafdi af Islandi, liet hann hafa avstur i Vijk, fieck hann þar manna til ad fara med varnad sinn: Enn þeir Arinbiørn og Eigill hielldu Lanaskipunum sudur med Landi, sijdann stefndu þeir lidinu sudur med Saxlandi, og heriudu þar um sumarid, og feingu sier fie: Enn er havsta took, heriudu þeir nordur aptur og laa vid Frijsland: Einhvoria nott þa er vedur var kyrt, logdu þeir upp i moodu eina; þar er illt til hafna og utfiara mikil: Þar vooru a land upp sliettur miklar og skamt til skoogar, þar vooru Veller blavter, þviad regn hofdu verid mikil. Þar riedu þeir til uppgongu og lietu epter þridiwng Lids ad giæta Skipa. Þeir gengu upp med Anni milli Skoogarins. Þa vard braatt fyrir þeim þorp eitt, og bygdu þar marger bændur. Lidid rann wr Þorpinu a landid þar er maatte þegar er vart vard vid herinn: Enn Vijkingar sottu epter þeim. Vard þa sijdann annad þorp og hid þridia. Lidid flydi allt þad er þvi kom vid. Þar var jafnlendi og sliettur miklar: Dijki vooru skorin vijda um Landid, og stood i votn, hofdu þeir lukt um Akra sijna og Eingi: Enn i sumum stodum vooru setter stavrar stoorer: Yfer Dijkin þar er fara skyllde vooru brwr, og lagder yfer vider. Landsfolkid flydi i morkina: Enn er Vijkingar vooru komner langt i bygdina, þa sofnudust Fryser samann i Skooginn: Og er þeir hofdu avk d CCC. manna þa stefna þeir i moote Vijkingum og raada til Orustu vid þa, vard þar hardur bardagie, enn so lavk ad Fryser flydu enn Vijkingar raaku flootann, dreifdist Bæarlidid vijds vegar þad er undann foor, gerdu þeir og so er epter fooru, kom þa so ad faaer vooru hvorer samann: Eigill sotti þa hart epter þeim, og faaer menn med honum, enn miog marger fooru undann. Komu Fryser þar ad er Dijke vooru fyrir þeim og fooru þar yfer. Sijdann tooku þeir upp bryggiurnar, þa koma þeir Eigill ad odrumeigin: red Eigill þegar til og hlioop yfer dijkid, enn þad var ecki annara manna hlavp, enda ried og eingi til: Enn er Fryser saau þad, þa sækia þeir ad honum, enn hann vardist, þa sottu ad honum xj. menn, Enn so lavk þeirra vidskiptum ad hann felldi þa alla: Epter þad stavt Eigill yfer Bryggiunne og foor þa aptur yfer dijkid, sa hann

þaa ad lid þeirra allt hafdi snwid til skipana: Enn hann var þaa stadd-ur nær skoogienum: sijdann foor Eigill fram med Skogienum, og so til skipana ad hann ætti kost Skoogarins ef þyrfte. Vijkingar hofdu haft mikid Herfang ofann og strandhøgg, og er þeir komu til Skipana hiug-gu sumer nidur fied: Enn sumer fluttu ut aa Skipinn: Sumer stoodu i Skialldborg fyrir ofann, þviad Fryser vooru ofann komner og hofdu mikid lid, og skutu aa þaa: hofdu Fryser þaa adra Fylking: Og er Eigill kom ofann og hann saa hvad tijdt var, þaa vatt hann ad sem snarast þar sem mugurinn stood, hafde hann Kesiuna fyrir sier og took hana tveim høndum, Enn kastadi Skilldinum aa bak sier. Hañ lagdi þaa Kesiunne og stock fraa allt þad er fyrir stood, og Od hann fram i gegnum Fylkingina: sotti hann so ofann til manna sinna. Þottust þeir hafa hann wr heliu heimtann, ganga þeir sijdann aa skip sijn og hielldu brott fraa landi. Sigldu þeir þaa til Danmerkur, og er þeir komu til Limafiardar og Lagma hraalse, þaa ætti Arinbiørn hwsþijng vid lid sitt, og seiger monnum fyrirætlan sijna. Nw mun eg seiger hann leita aa fund Eiriks sona med lid þad sem mier vill filgia: Eg hefi nw spurt ad þeir brædur eru hier i Danmorku og hallda hier veturvist enn er aa sum-rum i hernadi. Vil eg nw gefa leifi ollum monnum mijnum ad fara til Noregs þeim er þad vilia helldur enn filgia mier. Synez mier þad raad Eigill ad þw snwer til Noregs, og leiter enn sem braadaz til Islands ut þegar vid skiliumst, sijdann skiptust menn aa Skipunum, rieduz þeir til Eigils er aptur villdu fara til Noregs: Enn hitt var meire hluti Lids miklu er filgdi Arinbirne. Skilduz þeir Arinbiørn og Eigill med blijd-ri vinaattu. Foor Arinbiørn aa fund Eiriks sona og i sveit med Har-alldi Graafelld foostursyne sijnum, og var sijdann med honum medann þeir lifdu bader. Eigill foor nordur i Vijkina, og hiellt inni Osloar-fiord, var þar fyrir Kaupskip hanns, þad er hann hafdi laatid flitia sudur um vorid, þar var og varnadur hanns og sveitungar þeir er med skipinu hofdu farid. Þorsteirn Þoruson kom aa fund Eigils, og bavd honum med sier ad vera um veturinn med þeim monnum er hann villdi med sier hafa: Eigill þektist þad og liet uppsetia skip sijn og færa varnad tilstadar: Enn lid þad er honum filgdi vistadist þar sumt: Enn sumer fooru nordur i Land, þar er þeir ættu heimile; Eigill foor til

Þorsteins

Þorsteins og vooru þar samann x. eda xij. Eigill vár þar um veturinn i goodum fagnadi.

## Cap. lxxi.

Haralldur Koongur hinn Haarfagri hafdi lagt under sig Vermaland avstur. Vermaland hafdi fyrst unnid Olafur Tretelgia, fader Haldanar Hvitbeins, er fyrst var Koongur i Noregi sina Kynsmanna: Enn Haralldur Koongur var þadann kominn ad Langfedga tale, og hofdu þeir aller langfedgar rædid fyrir Vermalande og tekid Skatta af enn sett menn yfer til Landgiæslu, og er Haralldur Koongur var gamall ordinn, þaa ried fyrir Vermalandi, Jall saa er Arnvidur hiet: Var þar þaa sem miøg vijda annarstadar, ad skattar greidduz ver enn þaa er Haralldur Koongur var aa liettasta Skeidi alldurs. So og þaa ad syner Haralldz deilldu um Rijke i Noregi, var þaa lijtt sied epter um Skattløndin, þav er fiærri læu: Enn þaa er Hákon sat nw i fridi, þaa leitadi hann epter um rijke þad allt er Haralldur fader hañs hafde haft. Hákon Koongur hafdi sendt menn avstur i Vermaland xij. samann, hofdu þeir feingid Skatta af Jarlinum, og er þeir fooru aptur um Eidiskoog, þaa komu ad þeim Stigamenn og dræpu þaa alla, aa somu leid foor um adra sendimenn er Hákon Koongur sendi avstur aa Vermaland, ad menn vooru drepner enn sie kom ei aptur. Var þad þaa sumra manna mæl ad Arnvidur Jall mundi setia menn sijna til ad dræpa menn Koongs eda færa Jarlinum. Þaa sender Hákon Koongr hina þridiu menn, var hann þaa i Þrandheim, og skylldu þeir fara i Vijk avstur til fundar vid Þorstein Þoruson, med þeim ordum ad hann skylldi fara avstur i Vermaland, ad heimta skatta Koongi til handa: Enn ad ødrum Kosti skylldi Þorsteinn farã wr Landi. Þviad Koongur hafdi þaa spurt ad Arinbiørn Moodurbrooder Þorsteins var kominn sudur til Danmerkur og var med Eiriks sonum: þad og med ad þeir hofdu þar miklar sveiter, og vooru i hernadi aa sumrum: Þootti Hákoni Koongi þeir aller saman ecki trwleiger, þviad honum var von Ofridar af Eiriks sonum ef

 þeir

þeir hefdi Styrk nockurn til þess ad giora uppreist i mote Hákoni Koongi, þaa giordi Hákon Koongur alla frændur, Maaga og vini Arinbiørns wr landi, eda gerdi þeim adra afurkosti: Kom og þad þar fram er Þorsteirn var, ad Koongur giordi fyrir þaa sok þetta Kosta-bod. Madur saa er Erindi þetta bar, hann var allra Landa madur, hafdi verid longum i Danmork og i Sviavelldi, var honum þar allt kunnugt fyrir, bædi um leider og mannadeili. Hann hafdi og vijda fa-rid um Noreg: Og er hann bar þetta maal Þorsteine Þorusyne þaa seiger Þorsteirn Eigli med hvorium erindum þesser menn eru til hañs komner, og spurdi hvoriu svara skylldi. Eigill seiger, Avdsætt lyst mier um ordsending Koongs ad hann vill þig wr Landi sem adra frændur Arinbiørns: Þviad þetta kalla eg forsending, so gofgum manne sem þw ert: Er þad mitt raad ad þw kaller til maals vid þig sendimeñ Kongs og vil eg vera vid rædu ydra, siaaum þaa hvor i gioriz. Þorsteirn gierde sem hann mællte: Kom þeim i talid, sogdu þaa sendimenn allt hid sanna fraa Erindum sijnum og ordsending Koongs, ad Þorsteirn skylldi fara þessa sendifor, enn vera wtlægur ad odrum Kosti. Þaa sei-ger Eigill, sie eg giorla um erindi ydart, ef Þorsteirn vill ei fara, þaa munu þier fara samt ad heimta Skattenn: sendimenn seiger ad hann gat riett: Eie mun Þorsteirn fara þessa ferd þviad hann er ecki þess skylldur so gofugur madur, ad fara so Orijfliga sendiferd: Enn hitt mun Þorsteirn giora er hann er tilskylldur ad filgia Koongi innan Lands og utan Lands ef Koongur vill þess krefia. So og ef þier vilied nockra menn hafa hiedann til þessarar ferdar þaa mun ydur þad heimillt, og allan farargreida þann er þier vilied Þorsteine tilseigia, sijdann toludu sendemenn sijn i mille og kom þad aasamt med þeim ef Eigill villdi fara i ferdina, er Koonge seigia þeir, all illa til hanns, og mun honum þikia vor ferd allgood ef vier komum þvi til leidar ad hann sie drepinñ, maa hann þaa reka Þorstein wr Landi ef honum lijkar: Sijdañ seigia þeir Þorsteine ad þeim lijkar ef Eigill fer, og sitie Þorsteirn heima. Þad skal þaa vera seiger Eigill, ad eg mun leisa Þorstein undan ferd þessare: eda hvorsu marga þikiz þier þurfa hiedann ad hafa. Vær erum samann viij. seigia þeir, villum vier ad hiedan fari jv menn, erum vær þaa xij. Eigill seiger so skal vera. Onundur Sioone og þeir nock-

rer

rer menn hanns hofdu vopnast, og farid wt til Sioovar ad siaa Skip þeirra og annan varnad, Þeir hofdu sett epter nockra menn til vardveislu: Þootti þeir Önundi lidliett ad siaa, Koongsmenn laata nw Oduliga um ferdinaz og villdu ecki bijda.

## Cap. lxxij.

Eigill bioost til ferdar og iiij. menn adrer, vooru þad hanns forunavtar. Hofdu þeir hesta og Sleda sosem Koongsmenn, þaa vooru sniooar mikler og breitter veiger aller, ræda þeir til ferdar er þeir vooru bwner og Oku upp aa land: og er þeir soottu avstur til eida, þaa var þad aa eirne noottu ad snioor fiell mikill, so ad Ogiorla saa veigina forst þeim þaa seint um daginn epter. Þviad Kafhlavp var þegar af fooru veigerner: og er æleid daginn dvolduz þeir og ædu hestum sijnum: Þar var nær Skoogarhaals einn. Þaa mællti þeir vid Eigil: nw skiliaz hier veiger, fram unndann Haalsinum byr boondi saa er heiter Avalldur vinur vor, munum vier forunavtar fara þangad til gistingar: Enn þier skulud fara hier upp aa haalsinn, og þaa er þier komid þar mun bratt verda fyrir ydur bær mikill, og er ydur þar vijs gisting. Þar byr stooravdigur madur er heiter Armóodur Skegg, Enn aa morgun ærdeigis skulu vier hittaz, og fara annad Kvolld til Eidiskoogs, þar byr goodur boondi er Þorfinnur heiter: Sijdann skilia þeir, fara þeir Eigill uppaa haalsinn: Enn fraa Koongs mønnum er þad ad seigia, ad þegar er leite bar aa mille þeirra Eigils, þaa tooku þeir Skijd sijn er þeir hofdu haft og stigu þar aa, Lietu sijdann ganga aptur aa leid sem þeir mattu: fara þeir noott og dag, og snieru til Upplanda, og þadann nordur um Dofrafiall, og liettu ei fyrr enn þeir komu aa fund Hákonar Koongs, og søgdu honum sijna ferd sem farid hafdi: Enn Eigill og forunavtar hanns fooru um qvolldid yfer haalsinn. Var þad þar skiootaz af ad seigia ad þeir fara þegar af veiginum: var sniooinn mikill, laau hestarner aa kafe aañad skeid so ad draga vard upp: þar voru Kleifar og Ker: og Enneskoogar nockrer: Enn Kerin og Kleifarnar var allt torsottur vegur, var þeim þaa seinkan mikil ad hestunum: Enn mannfærdin var hin

þyngsta: mædduz þeir þa miog, enn þo komust þeir af hælsinum: og sau þa fyrir sier bæ mikinn, og þangad soottu þeir. Og er þeir komu i twnid þa sau þeir menn wte var þad Armodur og sveinar hanns, kostudust þeir þa ordum a, og spurdu tijdinda: Og er Armodur visse ad þeir vooru sendimenn Koongs, þa baud hañ þeim gisting, þeir þecktust þad, tooku hwskarlar Armodar vid hestum þeirra og reidskopum, Enn bad Eigil ganga inni stofu, þeir giordu svo, Armodur setti Eigil i Aundveigi a enn Oædra beck, og þar forunauta hanns utar fra. Þeir rædduz margt um hvorsu Ervidlanga þeir höfdu farid um qvolldid: Enn heimamonnum þootti mikil undur er þeir hofdu fram komist, og sogdu ad þar væri ongvum manne fært þo ad snioolaust væri. Þa mællte Armodur, þiker ydur ecki sa beine bestur, ad ydur sieu bord sett, og gesiñ naattverdur: Enn sijdann fare þier ad sofa, munu þier þa hvilast best, þad lijkar os allvel seiger Eigill. Armodur liet þa setia þeim bord, Enn sijdann vooru settet fram stoorer askar fuller med skyr, þa liet Armodur sem honum þætti þad illa er hann hafdi ei mungaat ad gefa þeim: þeir Eigill vooru miog þyster af mædi, tooku þeir upp Askana og drucku akaft skirid, og þo Eigill miklu mest: Eingi kom onnur vistin fram, þar var margt hiodna, Hwsfreya sat a þverpalle og þar konur hia henne. Dotter Boonda var a golfinu x. vetra eda xj: Hwsfreya kalladi hana til sijn og mællti i Eyra henne, sijdann foor mærin utar fyrir bordid þar er Eigill sat, hwn qvad vijsu.

Því sende mín Móder, mig vid þig til fundar, og ord
bera **Eigli**, ad þier varer skylldud, Hilldur mællte þad
Horna, Haga þú so maga, eiga Vorer Gester ædra nest
á frestum.

Armodur lavst Meyna og bad hana þegia. Þw mæler þad jafnann er verst gegner: Mærin geck a burt, Enn Eigill skavt nidur skiraskinum, og var þa nær toomur, vooru þa i burt tekner skyrasker fra þeim, gengu þa og heimamenn i sæti sijn, og vooru bord upptekin um alla stofuna og sett a vist, þvi næst var Ol innborid

og

og var þad hid sterkasta munngát. Var þá brátt druckinn einminnungur, skylldi einn madur drecka af dyrshorni, var þar mestur gávmur ad gefenn, er Eigill var og sveitwngar hanns skylldi drecka sem ákafaz. Eigil drack Ofleitulega fyrst langa hrijd. Enn er forunavtar hanns gordnz Ofærer, þá drack hann fyrir þá þad er þeir mættu ei: geck so til þess er bordun var ute, giördiz þá og aller miøg druckner þeir er inni vooru: Enn hvort sinn er Armodr drack, þá mællti hann dreck eg til þijn Eigill: Enn hwskarlar drucku til-fornnavtum Eigils, og hofdu hinn sama formála. Madur var til þess feinginn ad bera þeim Eigli hvort horn fullt, og eggiade sá miøg ad þeir skylldu skiott drecka: Eigill mællte vid fornavta sijna, ad þeir skylldu þá ecki drecka: Enn hann drack fyrir þá, er þeir mættu ei annann veg undannkomast: Eigill fann þá ad hönum munde ei so bwid eira, stood hann þá upp og geck um golf þvert, þangad er Armodur sat: hann took höndunn i Axler hönum og keykte hann aptur á bak ad stofunum, sijdann þeitti hann upp wr sier spiju mikille og gavs i Andlit Armódi i avgun og nasernar og munnenn, og rann so ofan á bringuna, enn Armodi lá vid andhlappi, og er hann fieck öndinne frá sier hrundid, þá gavs upp spija, enn aller vikn þeir er hiá vooru hwskarlar Armódar, og seiger ad Eigill skylldé fara allra manna armastur, og hañ væri hinn vesti madur af þessu verke, ad hann villdi ei ganga wt er hann villdi spija, enn verda ei ad undrum inni dryckiustofunne: Eigill seiger, ecki er ad hallmæla mier um þetta, þott eg giore so sem ad Boondi giorer, þvij spijr hann nw af ollu afli eie sijdur eñ eg. Sijdann geck Eigill til rumsins, og settist nidur, bad þá gefa sier ad drecka: og qvad Eigill þá vid ravst.

Titt er um tod ad votta, tætte ber at eg hætta, Þöngul þessar gongu þin kinn ala minne: Margur velur gestur þar er gister, gialld finn eg vid fialldan Armoode liggur ædra, elladugg i Skegge.

Armódur hlioop upp og wt: Enn Eigill bad gefa sier ad drecka, þá mællte hwsfreya vid þann mann er þeim hafdi skeinkt um qvolldid

did, ad hann skyllde gefa ad drecka so ei skortade þa, medann þeir villdu drecka. Sijdann took hann dyrshorn mikid og filldi, og bar til Eigils: Eigill kveisdi af horninu i einum dryck. Þa qvad hann.

Dreckum úr þo ad Eckils, Eikrídur bere tídum, Hornasund ad Hende, Hvor full seiger Bragarulli leife eg vætt þo ad lavfa, leckstærer mier færi, Hrostatiorn i Horni, Horn til dags ad morne.

Eigill drack um hriid, og kveisdi hvört horn er ad honum kom, enn litil var þa gledi i stofunni, þott nockrer menn drycke: sijdann stendur Eigill upp og forunavtar hanns, og taka vopn sijn af vegginum er þeir hofdu uppsett. ganga sijdann til Kornhlødu þeirrar er Hestar þeirra vooru inne, løgouz þeir þar nidur i halm og svafu um Noottina.

# Cap. lxxiij.

Eigill stood upp um morguninn þegar dagadi, biugguz þeir forunavtar og fooru þegar er þeir vooru buner aptur til bæarins og leita Armóds, og er þeir komu til Skemmuburs þess er Armódur svaf i og Kona hanns og Dotter, þa hratt Eigill upp hurdinne og geck til reckiu Armóds, hann bra þa sverdi, enn annari hendi greip hann i skegg Armódi, og hnykti honum a stock fram, enn Kona Armódar og dotter hlupu upp, og badu Eigil ad hann dræpi ei Armód: Eigill seiger ad hann skylldi þad giöra fyrir þeirra saker þviad þad er makligt, Enn verdleika hefur hann til ad eg dræpe hann. Þa qvad Eigill.

Nytur alsogull íter, **Armoodur** Konu sinnar oss er vid ognar hveiser, ottalavst og Dotter. þeye munntu þvi þennann, þycktar verdur tyrer Dryckiu, grepp skulum á Veg vappa vitt svagornu líta.

Sijdann sneid Eigill af Skeggid vid hokuna, og krepti fingrinum i Avgad, so ad uti laa a kinnenne, epter þad geck Eigill a brott til forunavta sinna, fara þeir þa leid sijna, koma ad dagverdarmaale til

bæar

bæar Þorfinns, hann bioo vid Eidskoog. Þeir Eigill krofdu dagverdar og æa Hestum sijnum. Þorfinnur Boondi liet heimillt skylldi þad, ganga þeir Eigill þaa inni stofu: Eigill spurdi ef Þorfinnur hefdi var ordid vid forunavta hanns, hofdum vier hier mællt moot med oss. Þorfinnur seiger so: vj. menn fooru hier samann nockru fyrir dag, og vooru vopnader miog. Þaa mællte hwskarl Þorfinns: Eg ok i nóott eptir vidi, og fann eg vj. menn aa leid, og vooru þad hwskarlar Ármóds og var þad miklu fyrir dag, Nw veit eg ei hvort þeir munu aller og hiner somu er þw sagder fraa: Þorfinnur seiger ad þeir menn er hann hafdi hitt: hofdu sijdar farid enn hwskarlinn kom heim med vidarhlassid: og er þeir Eigill saatu og motuduz, þaa saa Eigill ad kona siwk laa i þverpallenum: Eigill spurdi Þorfinn, hvor kona sw væri er þar var so þwnglega halldin: Þorfinnur seiger ad hwn hiet Helga og var dotter hanns, hefur hwn haft langann vanmaatt, og þad var krom mikil, feck hwn ongva nott svefn, og var sem hamstolin væri. Hefur nockurs i verid leitad seiger Eigill um mein hennar, Þorfinnur seiger ristnar hafa verid rwner og er saa eirn Boondason hiedann skamt er þad giordi, og er sijdann miklu verr enn aadur, eda kantu Eigill nockud giora ad siwkum monnum. Eigill seiger vera kann ad ei spilliz vid þo ad eg komi til: og er Eigill var mettur, geck hann þar til er Konann laa, og rædi vid hana, hann bad þaa hefia hana wr rwminu, og leggia under hana hrein klædi, og var nw so giort, sijdann rannsakadi hañ rwmid er hwn hafdi hvilt i, og þar fann hann talkn og voru þar aa rwner. Eigill las þær, og sijdann telgdi hann af rwnirnar, og skoof þær i elld nidur, hann brendi talknid allt, Og liet bera i vind klædi þau er hwn hafdi haft aadur. Þaa qvad Eigill vijsu.

Skal ei madur rúner rista, nema ráda vel kunne, þad
verdur morgum manne, er um mirkvann Staf villist, sá
eg þad á telgdu talkne, tíu Lavnstafe ristna, þad hefur
lavkalyude, Langs ofstrega feingid.

Eigill risti rwner, og lagdi þær under hægindid i hvijluna þar er hwn hvijldi, honum þootti sem hwn vakned wr svefni, og sagdi ad hwn var þaa heil, enn þo var hwn mattlijtil: Enn fader hennar og mooder urdu

skoorum seigin, bavd Þorfinnur ad Eigill skylldi þar hafa allann fararbeina þann er hann þyrfte vid.

## Cap. lxxiv.

Eigill seiger forunavtum sijnum, ad hann vill fara ferd sijna, og bijda ei leingur. Þorfinnur atte son er Helgi hiet, hann var vaskligur madur, þeir Fedgar budu Eigli foruneyte sitt um skoogiñ, sogduzt þeir vita til sanns, ad Armódur Skegg hafdi giort vj. meñ a skoogiñ fyrir þa og þolijkara, ad vera mundu fleire saternar a Skooginum, ef hin fyrsta slippi, vooru þeir Þorfinnur jv. samann er til ferdar buduzt. Þa qvad Eigill.

Veistu ef eg fer med fióra, fære þú sef þá er være, hlysa hveite Kliúfum, Hialldur gods vid mig rodnum, enn ef eg em med átta, erat þad xij. eg Skelfe, at samtoge sverde, svartbrúnum mier hiarta.

Þeir Þorfinnur redú þessu ad þeir fooru a Skooginn med Eigli og vooru þeir þa viij: samann, og er þeir komu þar er fyrirsatinnar vooru, þa sau þeir þar menn, Enn þeir Hwskarlar Armódar er þar satu sau ad þar vooru viij: menn, þotti þeim sier ecki færi til ad rada, leinduzt þeir i burt a skooginn, Enn er þeir Eigill komu þar sem nioosnernar hofdu verid, þa sau þeir ad ei var allt fridt. Þa mællte Eigill ad þeir Þorfinnur skylldu aptur fara: Enn þeir budu ad fara lengra, Eigill villdi þad ei og bad þa fara heim, Enn þeir giordu so og hvurfu aptur. Enn þeir Eigill hielldu fram ferdinne og vooru þa jv. samann. Og er a leid daginn, urdu þeir Eigill varer vid, ad þar voru vj. menn a skooginum, og þoottuzt vita ad þad mundu hwskarlar Armódar. Nioosnarmenn hlupu upp og riedu ad þeim Enn þeir i moot og vard sa fundur þeirra, ad Eigill felldi ij menn, enn hiner er epter vooru hlupu þa i skooginn, sijdann fooru þeir Eigill sijna leid, og giorduz þa ecki til tijdinda adur þeir komu af skooginum, og tooku

gisting

gifting vid Skooginn ad Boonda þeim er Alfur hiet, og vár kalladur Alfur hinn Avdgi. Hann var madur gamall og avdigur ad fie, madur einrænn, ſo ad hann mætti ecki hioon hafa med ſier nema fæein, goodar vidtokur hafdi Eigill þar, og var Alfur vid hann mælreitinn, ſpurdi Eigill margra tijdinda: Enn Alfur ſeiger ſlijkt er hann ſpurdi, þeir ræddu fleſt um Jarlinn, og um ſendimenn Noregs Koongs þæ er fyr hofdu farid avſtur þangad, ad heimta ſkatt, Alfur var eingi vinur Jarls i rædum ſijnum.

## Cap. lxxv.

Eigill biooſt ſnemma um morguninn til farar og þeir forunavtar eñ ad ſkilnadi gaf Eigill Alfi Lodolpu, Alfur took þackſamlega vid giofiñe, og mæ hier giora mier af Lodkæpu, og bad Eigil þar koma til ſijn er hann færi aptur, ſkilduz þeir viner og foor Eigill ferdar ſinnar og kom Aptann dags til hirdar Jarlſins Arnvidar, og fieck þar allgoodar vidtokur. Var þeim forunavtum ſkipad næſt ondveigis mañe: og er þeir Eigill hofdu þar verid um noott, þæ berq þeir upp Erindi ſijn vid Jarlinn, og ordſendiñg Noregs Koongs, og ſeigia ad hann vill hafa ſkatt þann allann af Vermalandi ſem ædur hefur epterſtadid, ſijdann Arnvidur Jarll var þar yferſettur. Jarlinn ſeiger ad hann hefdi af hondum greidt þann allann ſkatt af Vermalandi, og feingid i hendur ſendimonnum Koongs, enn ei veit eg hvad þeir hafa ſijdann vidgiort, hvort þeir hafa feingid Koongi, eda hafa þeir hlavpid af landi æ brott med: Enn af þvi þier berid ſannar jardtegner til ad Koongur hefur ydur ſendt, þæ mun eg greida ſkatt þann allann ſem hann æ ad riettu, og fæ ydur i hond: Enn ei vil eg æbirgiaz ſijdann hvornveg ydur ferſt med dveliaz þeir Eigill þar um hrijd: Enn ædur Eigill foor i burt greider Jall þeim ſkattinn, Var þad ſumt i ſilfri ſumt i græveru: Og er þeir Eigill vooru buner þæ fooru þeir aptur æ leid: ſeiger Eigill Jarli ad ſkilnadi þeirra: Nu munum vier færa Koongi ſkatt þennan er nu hofum vier vidtekid: Enn þad ſkalltu vita Jall, ad þetta er fie miklu minna enn þad Koongur þikiz hier eiga, og er þad þo ecki talid er honum mun þikia ad þier eigid ad giallda epter ſendimenn hanns mañgiolld,

þaa er menn kalla ad þier munud hafa drepa laatid. Jall seiger ad þad var ei satt, skilduz þeir ad þessu: Og er Eigill var aa burtu, þaa kalladi Jall til sijn brædur sijna tvo, er hvorutveggi hiet Ulfur, hañ mællti so: Eigill saa hinn mikli er hier var um hrijd ætla eg ad oss mune vera ad ollu ofarfur er hann kemur til Koongs. Meigum vier af þvi marka hvornin ad hann mune bera fyrir Koongi vort maal, er hann joos slijku i avgu oss upp, um aftoku Koongs manna. Nw skulu þid fara epter þeim og drepa þaa alla, og laata þaa ecki bera roog þetta fyrir Koong, þiki mier þad raaligaz ad þid sætid þeim vid Eidaskoog. Hafid med ydur menn so marga ad þad sie vijst ad eingi þeirra komist undann, enn þier faaid ecki mannspell af þeim. Nw bwaz þeir brædur til ferdar og hofdu xxx. manna, fooru þeir aa Skooginn og kunnu þeir þar hvorn stig fyrir, hielldu þeir þaa nioosn um ferd Eigils: A Skooginum vooru tvennar leider var onnur ad fara yfer aas nockurn, og var þar klif bratt, og ein stigi yfer ad fara, og saatu xv. i hvorium stad.

# Cap. lxxvj.

Eigill foor til þess er hann kom til Alfs og var þar um noott, Epter um morguninn stood hann upp fyrir dag, bioost þaa til ferdar, og er þeir Eigill saatu yfer dagverdi, þaa kom þar Alfur Boondi, hañ mællte snemma bwist þier Eigill, Enn hitt mundi mitt raad, ad hrada ecki ferdinne, siaast helldur fyrir, þviad eg ætla ad menn mune setter fyrir aa Skooginn: Enn eg hefi ecki menn til ad faa þier til filgdar so ad þier sie stirkur ad. Enn þad vil eg biooda ad þw dveliest hier med mier, þar til er eg kann þad ad seigia þier, ad fært mun um Skooginn: Eigill seiger þad mun ecki nema hiegome eirn, mun eg fara veg minn sem eg hefi aadur ætlad, þeir Eigil biuggust til ferdar: Enn Alfur latti, og bad hann aptur fara ef hann yrdi var vid ad vegurinn væri trodinn, sagdi ad þar hefdi eingi madur farid yfir skooginn avstann ad siidann ad Eigill foor avstur, nema ad þesser hafi farid er mier er von ad ydur vilie finna. Hvad ætlar þw hvorsu marger þeir mune vera seiger Eigill ef so er sem þier seigid, þvi ecki erum vier uppnæmer þo nockur sie lidsmunur.

munur. Hann seiger, Eg var fram til Skogarins og hwskallar mijner med mier, og komu vier at mannafar, og lꝏ sw slood fram at skooginn, og mundi þeir hafa verid marger samann: Enn ef þw trwir ei þvi er eg seigi þier, þꝏ far þw þangad at sloodina, enn snw aptur ef þier sinist sem eg seige. **Eigill** foor sijna leid, og sem þeir komu at þann veg sem at skooginn lꝏ þꝏ sꝏu þeir þar bædi manna spor og hrossa. Þꝏ mællti forunavtar **Eigils** ad þeir skylldu aptur snwa, þvi munu vier þad giora seiger **Eigill**, þiki mier þad ei undarlegt þo menn hafi farid um Eydaskoog þviad þad er Alþydu leid: sijdann fara þeir og hiellst ferillinn, og var þꝏ fiolde spora, og er þeir koma þar er leider skildi, þꝏ skildi og sloodina, og var þꝏ nær jafnmorg ad sioa i hvorium Stad. Þꝏ mællti **Eigill**: Nw þiki mier vera meiga, ad Alfur hafi satt sagt skulu vær nw bwast um, so sem oss sie von ad fundur vor mune verda Sijdann kasta þeir **Eigill** af sier Skickium og ollum lavsaklædum, leggia þeir þad i sleda, **Eigill** hafdi haft i sleda sijnum bastlijnu miog mikla, þviad þad er sidur manna er aka langar leider, ad hafa med sier lavsatavger ef ad reidä þarf ad giora. **Eigill** took hellustein mikinn og lagdi fyrir briooſt sier og qidinn, sijdann ræbende hann þar ad tavginne og vafdi henne so um sig nedann, og allt upp um herdarnar: Þꝏ qvad **Eigill**: Skoogur er at þann veg at, enn mörk stoor at annann ad byggdinne, Enn um midiann Skooginn er vijda smꝏvidi og ker enn sumstadar skooglavst med ollu: **Eigill** snere leid hina skemri yfer hꝏlsinn, Aller hofdu þeir skiolld og hiꝏlma, Hoggvopn og lagvopn: **Eigill** foor fyrir, og er þeir komu ad hꝏlsinum þꝏ var þar undir nider skoogur, enn skooglavst upp i klifinu: Enn er þeir vooru komner upp i klifid, þꝏ hlupu vij. menn wr Skooginum og upp i kleifina epter þeim og skutu ad þeim: þeir **Eigill** sneruz vid og stoodu þeir jafnt framt um þvera gotuna, þꝏ komu adrer menn ofann ad þeim at hamrinn, og gryttu þeir þadann at þꝏ og var þeim þad miklu hættara, þꝏ mællte **Eigill**: Nw skulu þier fara at hæli undann i kleifinne, og hlyfast sem þier meigid, enn eg mun leita uppꝏ bergid, þeir giordu so. Og er **Eigill** kom upp wr klifinu, þꝏ vooru þar fyrir viij. menn og gengu aller senn ad honum, og soottu hann. Enn ecki er ad seigia frꝏ hoggva vidskiptum, utann so lavk ad hann felldi þꝏ alla, sijdann geck

hann a bergid fram og bar ofann grioot, og stood þar ecki vid, laau þar epter iij. ener Vermsku, enn iiij. komust i Skooginn og vooru þeir saarer og barder. Sijdann tooku þeir Eigill hesta sijna og foru fram a leid, til þess er þeir komu yfer haalsinn: Enn þeir hiner Vermsku er undann hofdu komist, gerdu nioosn felogum sijnum þeim er vid fenin vooru, stefndu þeir þa fram hina nedri leidina, og so fram fyrir þa Eigil a veiginn, þa sagdi Ulfur fielogum sijnum. Nw skulum vier fara ad raadum vid þa stilla so til ad þeir naai ei ad renna. Hier er þann veg til farid seiger hann, ad leidin liggur fram med haalsinum: Enn feninu vijkur upp ad, og er þar hamar fyrir ofann, enn bravtinn liggur þar fram i milli og er ei breidare enn gotubreid. skulu sumer fara fram um hamarinn, og taka vid þeim ef þeir vilia fram; Enn sumer skulu leynast hier i Skooginum, og hlavpa sijdann a bak þeim er þeir koma fram um, giætum so til ad eingin komist undann, Þeir giordu so sem Ulfur mællti, Foor Ulfur fram um bergid og x. menn med honum: Þeir Eigill fara sijna leid og vissu ei til þessarar Raadagiordar, fyrenn þeir komu i einstigid, þa hlupu þeir menn a bak þeim og hiuru þegar vopn a þa, þeir Eigill snerust i moote þeim og vorduz. Nw drifu menn ad þeim þeir er verid hofdu fyrir framann hamarinn: og er Eigill saa þad, snerist hann i moote þeim, var þar skamt hoggva i mille: og felldi Eigill þar suma i gotunni: Enn sumer hvorfu aptur þar er jafnlendid var meira: Eigill sootti þa epter þeim: þar fiell Ulfur og ad liktum felldi Eigill þar eirn xj men, Sijdann sootti hann þar til er forunavtar hanns vordu gotuna fyrer viij. monnum. Vooru þar hvorutveggi saarer: Og er Eigill kom til, þa flydu hiner Vermsku, Enn Skoogurinn var vid siaalft, komust þeir undann v. og aller saarer miog enn iij. fiellu þar. Eigill hafdi morg saar enn eiginn stoor: fooru þeir nw sijna leid. Hann batt saar forunavta sinna, og vooru eiginn bannvæn, settuz þeir þa i sleda og oku þad er epter var dagsins: Enn þeir ener Vermsku er undann komust tooku hesta sijna og droousst avstur af Skoogienum til byggda, vooru þa bundenn saar þeirra, fa þeir sier forunevte til þess er þeir komu a fund Jalls, og seiger honum sijnar ofarer.

Þeir seigia og ad hvortveiggi Ulfur er fallinn, og davdur var hælf ur þridie tugur manna,' enn v. einer komust undann med lijfi, þo þeir aller særer og barder. Jarl spurdi hvad þa væri tijdinda um Eigil og hanns forunavta: Þeir seigia Ogiorla vissu vær hvorsu miog þeir vooru sarer, enn ærid diarflega soottu þeir ad oss þa er vier voorum viij. enn þeir jv. þa flydum vier, komust v. a skoog= inn enn iij. lietust: Enn ei sænum vier annad enn þeir Eigill væri þa spænnyer. Jarl seiger ad þeirra ferd var ordinn hin vesta, mun= da eg kunna þvi gd vier hefdum mannalæt mikid, ef þier hefdud drepid þa nordmeñena. Eñ nw er þeir koma vestur af Skoogien= um og seigia þesse tijdindi Noregs Koongi, þa eigum vier at hon= um von hinna mesta Afurkosta.

# Cap. lxxvij.

Eigill foor til þess er hann kom vestur af skoogienum, soottu þeir til Þorfinna ad qvolldi, og feingu þar allgoodar vidtokur, vooru þa bundinn sar þeirra Eigils, Nockrar nætur vooru þeir þar. Helga Boondadootter var þa a footum og heil meina sinna, þack= adi hwn og øll þav Eigli, þeir hvildu sig þar og Eyki sijna: Eñ madur sa er Helgu hafdi rwnir ristid var þadann skamt a bort, kom þad þa upp ad hann hafdi bedid hennar, Enn Þorfinnur villde ei gipta hana, þa villdi Boondason glepia hana, Enn hwn villdi ecki, þa villdi hann rista henni mannrwner, enn hann kunni þad ei: og hafdi hann þad risted henni er hwn feck meinsemie af: Og er Eigill var til burtfarar bwinn, þa filgdu þeir fedgar hon= um a gotu, vooru þeir þa samann x. eda xij: fooru þeir þa dag= þann allann med þeim til verndar fyrir Armódi og hwskorlum hañs Og er þesse tijdindi spurduz ad Eigill hafdi barist vid Ofurefli lids a Skoogienum og sigrad, þa þootti Armódi einginn von ad hann mundi reisa rond vid Eigli, sat Armódur þvi heima vid alla sijna menn. Þeir Eigill og Þorfinnur skiptust giofum vid adskilnadi, og mælltu til vinattu med sier. Sijdann fooru þeir Eigill leid sij= na

na, og er ecki sagt ad til tijdinda yrdi i ferd þeirra ædur þeir komu til Þorsteins, vooru þa græd sar þeirra, dvolduz þeir Eigil þar til vors: Enn Þorsteirn feck sendimenn til Hákonar Koongs ad færa honum Skatt þann sem Eigill hafdi soott til Vermalands. Og er þeir komu a Koongs fund, þa sogdu þeir honum tijdindi þav er giorst hofdu i ferd þeirra Eigils og færdu honum skattinn. Koongur þoottist þa vita ad þad mundi satt vera er ædur hafdi hann grunad um, ad Arnvidur Jall mundi hafa latid drepa sendimenn hanns tvenna er hann hafdi ædur avstur sent, seiger Koongur ad Þorsteirn skylldi þa hafa Landsvist og vera i sætt vid hann. Fara sendimenn sijdann heimleidis, og er þeir koma aptur til Þorsteins, þa seigia þeir honum ad Kongur liet vel yfer þessari ferd: og Þorsteirn skylldi þa vera i sætt og vinættu vid Koong. Hákon Koongur foor i vijk avstur um sumarid, Enn þadann giordi hann ferd sijna avstur a Vermaland med mikid lid. Arnvidur Jall flydi undann, enn Koongur took stoor giolld af bændum þeim er honum þoottu i soktum vid sig so sem sagt er af þeim skottum er hann sootti, setti hann þar yfer Jarl annann, og took Gislar af honum og bændum. Hákon Koongur foor i þeirre ferd vijda um Gavtland id vestra, og lagdi þad under sig so sem sagt er i sogu hanns, og finnst i kvædum þeim er um hann hafa ort verid, þa er og sagt ad hann foor til Danmerkur og heriadi þar vijda, þa hraud hann xij skip af Donum med tveimur sijnum Skipum: Og þa gaf hann Koongs nafn Triggva Olafssyne broodur syne sijnum og valld yfer Vijkinni austur. Eigill bioo nu Kavpskip sitt um sumarid, og ried þar til foruneite: Eñ Langskip þad er hann hafdi haft um havstid ur Danmorku, gaf hañ Þorsteine ad skilnadi: Þorsteirn gaf Eigli goodar giafer og mælltu til mikillrar vinættu med sier. Eigill giordi sendimenn til Þordar a Aurland Mags sijns, og feck honum umbod sitt ad skipa jarder þær er Eigill ætti i Sogn, og a Hordalandi, og bad hann selia ef kavpendur væri til. Og er Eigill var buinn ferdar sinnar og byr gaf, þa siglir hann ut epter Vijkinne, og so leid sijna nordur fyrir Noreg, og sijdañ i haf ut, byriade þeim til goods lutar komu af hafi i Borgarfiord, og hiellt Eigill Skipinu inn epter firdinum, og til hafnar skamt fra bæ sijnum, og liet heimflitia varnad sinn, enn rada skipi til hluuns.

Eigill

Eigill foor heim til bw sijns, urdu menn honum fegner, dvaldiz Eigill þar þann vetur.

## Cap. lxxviij.

Þaa er þetta var tijdinda, ad Eigill var nw kominn wr þessari ferd. þaa var Hieradid albygt, vooru þaa andader aller Landnaamamenn, enn syner þeirra lifdu og sonarsyner og biuggu þeir þaa i Hieradinu. Ketill Gufa kom til Islands þaa er land var miøg bygt. Hann var hinn fyrsta Vetur aa Gufuskaalum aa Romshvalanesi. Ketill hafdi komid vestann um haf af Irlandi, hann hafdi med sier þræla marga Irska. Lønd øll vooru bygd i þann tijma aa Romshvalanese, redst Ketill þvi þadann aa burt, og inn aa nes, er þar kallad aa Gufunese, og feck þar eckert Land, þadann foor hann inni Borgarfiord, og fieck sier þar Bwstad er sijdann er kallad ad Gufuskaalum, þar sellur aa er heiter Gufaa, i hana setti Ketill upp skip sitt. Þordur Lambason bioo þaa aa Lambastødum, hann var kvongadur, og atti son er Lambi hiet, hañ var þaa vaxinn miøg, mikill og sterkur ad jofnum Alldri: Epter um sumarid er menn ridu til Þijngs, reid Lambi til Þijngs, enn Ketill Gufa var þaa farinn vestur i Breidafiord ad leita þar um bwstadi. Þaa hlupu Þrælar hanns aa brott og liettu ei fyrr enn aa Lambastødum þeir draapu þar allt, enn brendu inne Þord og hiw hanns øll, enn brutu upp bwr hanns og baaru wt gripi og voru, sijdann raku þeir heim hross og klifiudu, og fooru sijdann wt til Alptaness. Þann morgun um Solaruppraasar skeid kom Lambi heim, og hafdi hann sied elldiñ um nootina, þeir vooru nockrer menn samann, hann reid þegar ad leita Þrælanna, ridu þar menn af Bæium til moots vid hann, Og er Þrælarner saau eptersør, þaa stefndu þeir undann enn lietu lausan raansfeing sinn, hlupu sumer aa Mijrar ut, enn sumer ut med sioo, til þess ad fiørdur vard fyrir þeim, þaa soottu þeir Lambi epter þeim, og draapu þann er Kore hiet, þvi heiter þar sijdann Koranes. Enn Skorre og Þormodur og Svartur gengu aa kaf og somludu fraa Landi, sijdann leitudu þeir Lambi ad Skipum, og reru ad leita þeirra, og fundu þeir

Skorra i Skorey, og drœpu hann þar. Þa reru þeir wt til Þormodsskers, og drœpu þar Þormod: er vid hann Skerid kent, þeir hefndu Þrælana enn fleyri þar sem sidann er ornefni viokend. Lambi bioo siidann a Lambastodum, og var gilldur boondi, hann var ramur ad Afli, enn eingi var hann uppodstumadur. Ketill Gufa foor siidañ vest ur i Breidafiord, og stadfestuz i Þorskafirdi, og er vid hann kendur Gufudalur, og Gufufiordur. Hann atte Jri dotter Geirmundar Heliarskinns. Vali hiet son þeirra: Grimur hiet madur og var Sverlingsson, Hann bioo ad Mosfelli fyrir nedann heide, hann var avdigur og ættstoor, Ranveig var syster hanns sammædra er atti Þoroddur Gode i Avlvese. Var þeirra son Skapte Løgsøgumadur siidañ. Hañ bad Þordisar Þorolfsdotter, brooðurdootter Eigils og stiwpdootter. Eigill unni Þordise øngvum mun minna enn siinum børnum, hwn var hin friidasta Kona: Enn fyrir þvi ad Eigill visse ad Grimur var gøfugur madur, og sa rædakostur var bestur þar, þa var þad ad rædi giort, var Þordis gipt Grime, leisti Eigill þa af hendi fødur arf hennar, foor hwn til bws med Grime og biuggu þav leingi ad Mosfelli.

## Cap. lxxix.

Olafur hiet madur son Høskullds Dalakolls og son Melkørku dotter Mirkiartans Irakoongs. Olafur bioo i Hiardarhollti i Laxardal vestur i Breidafiardar dølum. Olafur var stooravdigur ad fie, hañ var þeirra manna friidastur siinum er þa var a Islandi: Hann var skørungur mikill. Olafur bad Þorgerdar dootter Eigils. Þorgerdur var væn kona og qvenna mest, vitur og helldur skapstoor, eñ hvorsdagslega kyrlaat: Eigill kunni øll deili a Olafi og visse ad þad giaford var gøfugt, og fyrir þvi var Þorgerdur gipt Olafi, foor hwn til bws med honum i Hiardarhollte. Þeirra børn vooru þav Kiartan, Þorbergur, Halldoor, Steindor, Þyridur, Þorgbiørg og Berþora. Hana atti Þórhallur Godi Oddason, Þorbiørg atti fyrre Asgeir Knattarson, enn siidann Vermundur Þorgrimsson. Þuride atti Gudmundur Sølmundarson, vooru þeirra syner Hallur og Viga-Bárdi.

Bárdi. Avsur Eivindarson brooder Porodds i Avlvesi fieck Beru dootter Eigils. Bøðvar son Eigils vár þa frumvaxta, hann var hiñ efnilegasti madur frijdur sijnum mikill og sterkur, so sem verid hofdu þeir Eigill og Þorolfur a hanns alldri: Eigil unni honum mikit, var Bøðvar og elskur ad honum. Þad var eitt sumar er skip var i Hvitaa og var þar mikil Kavpstefna, hafdi Eigill þar keypt vid marga, og liet flitia heim a skipi, fooru hwskarlar og hofdu skip aattært er Eigill aatti. Þad var þa eitt sinn ad Bøðvar beiddist ad fara med þeim: eñ þeir veittu honum þad, foor hann þa inn ad Vollum med Hwskorlum þeir vooru vj samann a Attæru skipi, og er þeir skylldu wtfara, þa var flædurin sijd dags, og er þeir urdu hennar ad bijda, þa fooru þeir um qvolldid sijd, þa hlioop a wtsynningur steinodur, enn þar geck i moot wtfallsstravmur, giordi þa sioo stoort a firdinum sem þar kañ opt vera. Lavk þa so ad skipinu hvolfdi undann þeim og tyndust þeir aller Enn epter um daginn skavt upp Lijkunum, kom Lijk Bøðvars inn i Einarsnes: Enn sum komu fyrir sunnan fiordinn, og rak þangad skipid fannst þad inn vid Reikiarhamar, þann dag spurdi Eigill þesse tijdindi, og liet leita lijkianna, hann fan riett lijk Bøðvars took hann þad upp og setti i kne sier, og reid med uti Digranes til havgs Skalla Grims: hann liet þa opna havginn, og lagdi Bøðvar þar nidur hia Skalla-Grime, var sijdann aptur laatinn havgurinn, og var ei fyrri lokid enn um dagseturskeid: Epter þad reid Eigill heim til Borgar, og er hann kom heim, þa geck hann þegar til lokreckiu þeirrar er hann var vanur ad sofa i, Hann lagdist nidur og skavt fyrir loku, eingi þorde ad krefia hann til maals: Enn so er sagt ad þa er þeir logdu Bøðvar nidur, ad Eigill var so bwenn, hosan var streingd fast ad beine. Hann hafde Fustans kyrtil ravdann þravngvann, upplitinn og læst ad sijdunne: Eñ þad er søgn manna, ad hann þrutnadi so ad Kyrtillinn rifnade af honum og so hosurnar. Enn epter um daginn liet Eigill ecke upp lokreckiuna, hann hafdi þa og øngvann mat nie dryck, la hann so þann dag og nootina epter: eingi madur þordi ad mæla vid hann: Enn hinn þridia morgun þegar er lysti, þa liet Asgierdur skioota hesti under mann, sa reid sem aakaflegaz vestur i Hiardarhollt, og liet seigia Þorgerdi þesse tijdindi oll samann, og var þad um noonskeid er hann kom þar,

 hann

hann sagdi og bad med ad Asgerdur hefdi sent henne ord, ad koma sem fyrst sudur til Borgar. Þorgerdur liet þegar sødla sier hest og filgdu henne ij: menn: ridu þav um qvølldid og noottina til þess er þav komu til Borgar. Geck Þorgerdur þegar inn i Elldahws, Asgerdur heilsadi henne, og spurdi hvort þav hefde nattverd etid. Þorgerdur svarar hatt, Ongvann hef eg nattverd haft og ongvann mun eg fyrr enn ad Freyu. Kann eg mier ecki betri raad enn fader minn, vil eg nw ecki lifa epter fødur minn og broodur. Hwn geck ad Lokhvijlunne og kalladi, Fader luk upp hurdunne, Vil eg ad vid førum eina leid bædi: Eigill sprette fra lokunne, geck Þorgerdur upp i hvijlugolfid, og liet loku fyrir, lagdiz hwn nidur i adra reckiu er þar var. Þa mællte Eigill Vel giorer þw dootter er þw villder filgia fødur þijnum, mikla Ast hefur þw synt vid mig: hvor von er þad eg mune lifa vilia vid harm þenna. Sijdann þøgdu þav um hrijd, þa mællti Eigill: hvad er nw dootter tiggur þw nw nockud: Eg tygg søl seiger hwn, þviad eg ætla mier muni þa verra enn adur, ætla eg ella ad eg muni ofleingi lifa: Er þad illt manne seiger Eigill, all illt seiger hwn, eda villtu eta, hvad mun varda seiger Eigill: Enn stundu sijdar bad hwn gefa sier ad drecka Þa mællte Eigill, slikt fa þeir ed sølin eta, þyster æ þess meir. Villtu drecka fader seigir hwn, hann took vid og svalg stoorum og var þad i dyrshorne, Þa mællti Þorgerdur: Nw er vid villt, þetta er mioolk, Þa beit Eigill skard wr horninu, þa mællte Þorgerdur: hvad skulu vid nw raads taka? lokid er nw þessare ætlann. Nw villda eg fader ad vid leingdum lijf ockart, so ad þw mætter yrkia Erfiqvædi epter Bødvar, enn eg mun rista a kefli. Enn sijdann deyum vid ef ockur synist: seint ætla eg Þorsteirn son þinn yrkia qvædi epter Bødvar. Enn þad lijdur eingi ad hann sie ei er[illegible]ar. Eigill seiger þad ovænt ad hann mundi þa yrkia meiga, þott hann leitadi vid, enn freysta ma eg þess seiger hann. Eigill hafdi þa att son er Gunnar hiet, og hafdi sa og andaz litlu adur: Sijdann hoof Eigill upp Kvæded, So hlioodande

Mioc er om tregt
túngu at hræra
eþr lopt vægi

liódpundara
era nú vænlegt
um viþris þyfe

ne hægdrægt or
hugar fylsnom.
Erat andþeitz
þvíat ecci velldr
hofuglegr
or hugaritaþ
fagna fundr
þiybia niþia,
árborinn or
iautunheimom.
Lista lavf er
lifnadi a
noccvers nocckva bragir
iautuns half
undir þiota
náins niþr
fyre naviidyrom.
Þviat ætt min
á enda stendr
sem hræbiarnar
hlinnar marca.
era kaser maþr,
sa er þogla ber
frænda hrærs
af fletom riþr.
Þó man ec mitt
oc moþor hrer
fauþr fall
fyrst om telia
þad ber ec ut

or orþ-hafe
mærþar timbr
mále lavfaþ.
Grimt vas um hliþ
þat es hraun of bravt
fauþr mins
a frændgarde.
veit ec ofullt
oc opit standa
Sonar skard
es mer sær ofvann
Mioc hefr rán
rikt of mig
em ec og snaþr
at ástvinom
beit mare band
minnar ættar
þvi mest ufcom
þat af mer sialfom.
Veiztu om þá soc
ferde af ræcac
var aulsmiþ
allra tima
raþa vags bræþr
om voga mættac,
færa ec andvigr
ægis manna.
Enn ec ecki
eigna þottumz
facar afl

viþ sugs bana.
þviat alþioþ
fyrer augom verde
gamals þegns
gengeleysi.
Mic hefir mar
miclu ræntaun
grimt er fall
frænda at telia
siþar er min
æ munvego
ættar sciaulldr
af life hvarf.
Veit eg þat sialfr
at i syne mínom
vas ilgs þegns
efni vaxit.
er sa randviþr
rauccuaz gerdi
uns hergauts
hendur of tæci.
Allet flest þat
es faþir mælti
þott aull om þioþ
annaþ segdi.
oc mer upp helt
of verberge
oc mitt afl
mest um studdi.
Opt cæmr mer
manna hiarnar
i birvindi
bræþra leyse
hyggiomz om aur
hauldr þróaz
nysomz hins
og hyg at þvi.
Hvar mer hygaþr
a hliþ standi
annar þegn
viþ odræþi
þarf ec þes opt
of her gaurom
verd ec varfleygr
er vinir þverra.
Gioc es torfinþr
sa es trua knegom
of alþioþ
elgiar galga.
þviat nifgoþom
niþia steypir
broþr her viþ
baugom setr.
Finn eg þad opt
ef fiarbeiþir
þat es oc mælt,
at einge gete
sonar idgiaulld
nema sialfr álitom
þann nid er oþrom se

borinn madr i bróþr, staþ.
Eremca þockt
þioþa sinne
þott serhvor
sattom hallde
bir es byscips
i bæ comin
qvanar son
cynnis leita.
Enn mer fanz
i faustom þá ec
hrosta hilmir
a hende stendr
maca ec upp
i mar grimo
rynis reiþ
retto at haffva.
Sizt son minn
sottar brimi
heiptuglegr
or hendi nam.
þann eg veit
at varnaþi
vamma var
viþ námæli.
Þat man ec enn
at upp um hóf
i goþheim
gavta spialli
ættarasc
þann er ox af mer
ec kynviþ
qvonar minnar.
Attac gott
vid geira droTinn
giordiz eg tryggr
at trua honom
aþr um at
vagna runni
sigr hofunde
umsleit viþ mic.
Bloica ec þvi
broþr vins
goþs raþar.
at ec giarna sec
þo hef misvinr
mer umfengnar
bolva bætor
ef hid betra teldi.
Gafumz iþrot
ulfs ec bagi
vigi vanr
vammi firda
oc þat geþat
es ec gordi mer
visa fiendr
at uelaundom.
Nv er mer torfellt
tveggia baga
niorva nipt

a nesin' stendr.
scal ec þó glaþr
með goþan vilia
oc uhryggr
heliar bída.

Epter qvædet took Eigill að hressa, so sem fram leið að yrkia qvæðið, og er lokið var með øllu qvæðinu, þa færði hann það Asgerði og Þorgerði og hioonum siinum, reis hann þa upp wr reckiu, og settist i øndvegi, qvæði þetta kallaði hann sonardræpu. Siiðann liet Eigill erfa sonu sijna epter fornri siðveniu, Enn er Þorgerður foor heim, þa leiddi Eigill hana i burt með giofum: Eigill bioo að Borg langa æfi, og varð maður gamall, Enn ecki er getið að hann ætti maalaferle við menn hier a landi: Ecke er og sagt fra holmgøngum hanns eða vigaserle siiðann hann staðfestist hier a landi: Ecke for Eigill af Islandi epter það þetta varð tijðinda er nw var aaður frasagt, og bar það mest til þess að Eigill matti ei vera i Noregi fyrir þeim søkum sem fyr var sagt að Koongur þoottist eiga við hann. Hafði Eigill Bw ravsnarsamlegt, þviað fie skorte hañ ei, enda hafði hañ og gott skaplindi til þess.

Hákon Koongur Aðalsteins fostri red fyrir Noregi langa stund: Enn hinn efra hlut æfi hanns, þa komu synir Eiriks Blóðøxar til Noregs og deilldu til Riikis i Noregi við Hákon Koong, og attu þeir orostur samann, og hafði Hákon jafnann sigur: Enn sijðustu orustu attu þeir a Hørðalandi i Storð a Fitium þar feck Hákon Koongur osigur, og þar með banasar: Epter það tooku þeir Eiriks syner Koongdoom i Noregi: Arinbiørn Herser var með Haralldi Eiriksfyne og giordiz raadgiafi hanns, og hafði af honum veislur stoorliga miklar, var hann forstiore fyrir Liði og Landvorn: Arinbiørn var hermaður mikill og sigursæll, hann hafði að veislum Firdafylke. Eigill Skalla-Grim son spurði þesse tijðindi, að Koongaskipti var orðið i Noregi, og það með að Arinbiørn var þa kominn i Noreg til bwa sinna, og hañ var þa i virding mikilli, þa orti Eigill qvæði um Arinbiørn. Einar hiet maður, hann var sonur Helga Ottarsonar, Biarnarsonar hins avstræna er nam Land i breiðafirði: Einar var brooðer Osvifs ens spaka: Einar var þegar a wnga alldri mikill og sterkur: og enn mesti atgiørvis maður hann took að yrkia þegar hañ var wngur, og var maður naamgiárn. Það var eitt sumar a Þijngi, að Einar geck til bwðar Eigils Skalla-

Skalla-Grímssonar og toíudiz þeir við, og kom þar brætt talenu að þeir ræddur um Skalldskap, þotti hvorutveggia þær rædur skemtilegar sijdann vandiz Einar optlega að ganga til tals við Eigil: giordiz þar vinætta mikil: Einar hafdi litlu aður komid wt wr forum: Eigill spurdi miog utann tijðinda, og að Vinum sijnum sem hann þoottist vita að Viner hanns vooru, so og um stoormenne. Einar spurdi imoot Eigil að þeim tijdindum er fyrr hofdu giorst um ferder Eigils og stoormensku hanns, enn það tal þotti Eigli gott og rættist af vel: Einar spurde Eigil hvar hann hafde þess verið staddur, að hann hefdi mest reint sig, og bad hann það seigia sier: Eigill qvað Vijsu.

Bardist eg eirn vid átta, enn xj. tvisvar so feingum vals varge, Vard eg eirn bane þeirra, skiptum hart af heiptum Hlyfa skelfeknífum, Liet eg af Emla aske Elld valkostu kastad.

Þeir Eigill og Einar mælltu til vinættu med sier að skilnadi: Einar var longum utanlendis med tignum monnum. Hann var or madur optast fielitill, enn skorungur mikill og dreingur goodur. Hañ var hirdmadur Hákonar Jarls Sigurdarsonar. J þann tijma var i Noregi Ofridur mikill og bardagar med þeim Hákone Jarli og Eiriks sonum, og stuckú ymser wr Lande. Haralldur Koongur Eiriksson fiell sudur i Danmork að Hælse i Limafirdi og var hann svikinn, þa bardist hann vid Harallð Knútson er kalladur var Gullharalldur, og var þar þa Hákon Jall. Þar fiell og þa med Haralldi Koongi Arinbiorn Hersir er fyr var fræsagt. Og er Eigill spurdi fall Arinbiarnar, þa qvad hann Vijsu.

Þverra nú þeir er þverru, Þingkyrtingar Jngva Hvar skal eg milldra manna, madvcitar dag leita, þeita er Hauks handan, Háfioll digulsmáse, Jardargiord med ordum, ein ellda mier hielldu:

Einar Helgason skalld var kalladur Skalaglam. Hann orte drapu um Hákon Jall er kollud var Vallekla, og var það miog leingi að Jallinn villdi ei hlyda qvædinu, þviað hann var reidur Einare, þa qvad Einar.

 Ger-

Gerda eg um virda, Vord þann er situr ad Jordu, Jdruust þess medann adrer, aurfva nader svafn, Hyckader Haddastockum. Hinn Veg sottagrem þótta, Víser fræer, Vísa, ferre Skálld hin Verre.

Jallinn villde ei ad Einar færi aa brott, og hlyddi þaa qvædinu: sijdann gaf hann Einare skiolld, og var hin mesta gersemi, og var skrifadur fornsøgum, mille skaptana. Vooru lagdar yfer speingur af Gulle og settur steinum. Sijdann foor Einar til Jslands til vistar med Osvífi Broodur sijnum. Enn um havstid reid Einar vestann, og gisti ad Borg, var þaa Eigill ecki heima, og var hann farinn nordur til Hierada, og var hanns þaa heim von. Einar beid hañs iij: nætur, Enn þad var einge sidur ad sitia leingur enn iij. nætur ad kynni. biooſt Einar þaa aa brott: Og er hann var bwinn, þaa geck hann til rums Eigils, og festi þar upp skiolldinn þañ hiñ dyra, og seiger heimamønnum ad hann giæfi Eigli Skiolldinn. Sijdann reid Einar i brott. Enn þann sama dag kom Eigill heim, eñ er hann kom inn til rum sijns, þaa saa hann skiolldinn, og spir hvor gersimi þaa ætti? Honum var sagt ad Einar Skalaglam hafdi þar komid, og gefid honum Skiolldinn. Þaa mællti Eigill: gefi hann allra manna armastur, ætlar hann eg skule þar sitiska yfer og yrkia um skiolld hanns. Nw takid Hest minn, og skal eg rijda epter honum og drepa hann: Honum var þaa sagt ad Einar hafdi ridid snemma um morguninn mun hann nw kominn vestur til dala. Sijdann orte Eigill drapu, og er þetta upphaf ad.

Mál er lofs ad lysa Liósgard of þá er eg barda', mier kom Heim ad Hendi, Hoddsendis boo enda skalat algrundar gilia, glaums misfeinguer taumar, Hlyde þier til orda, jardgróens mier verda.

Eigill og Einar hielldu vinattu sinne medan þeir lifdu bader: Eñ so er sagt ad færi skiolldurinn umsijder, ad Eigill hafde hann med sier i brwdferd, þaa er hann foor nordur aa Vijdimijri, med Þorkatle Dunnatssyni, og þeir Ravdabiarnar syner Trefill og Helgi.

Þaa

Þa var spillt skylldinum, og kastad i Syruker, Enn sijdann liet Eigill taka af bwnadinn, og vooru xij avrar gulls i spongunum.

# Cap. lxxx.

Þorsteirn son Eigils þa er hann Ox upp var hann allra maña frijdastur sijnum, hvijtur a Haar og biartur alitum, Hann var mikill og sterkur og þo ecki epter þvi sem Fader hanns var. Þorsteirn var vitur madur og kyrlatur, hoogvær, stilltur manna best: Eigill unne honum lijted, Þorsteirn var og ecki vid hann astwdligt. Enn þav Asgerdur og Þorsteirn unntust mikid: Eigill took þa at elldast miog. Þad var eitthvort sumar er Þorsteirn reid til Alþijngis, enn Eigill sat þa heima, enn adur Þorsteirn fære heimann, stilltu þav Asgerdur so til, at þav tooku wr kistu Eigils Silkeslædurnar Arinbiarnarnavta, og hafdi Þorsteirn til Þijngs, og er hann hafde a Þijnginu þa vooru honum dragsijdar, og urdu savrgar nedann þa er þeir vooru i Logbergis gavngu, og er hañ kom heim, þa hyrdte Asgerdur slædurnar þar sem adur vooru. Enn miog miklu sijdar, þa er Eigill lavk upp kistu sijna, þa sier hann at spillt var slædunum, og leitade þa mals vid Asgerdi hvorier þad gegnde, hwn sagde þa id sannasta: þa qvad Eigill.

Agta eg erfi nytia, Arfa mier til þarfa, mig hefr sonr, of svi
kit i þier qvikaun, velmætte þess varna, vigrídande bída,
um haf skída hlæda, hliótendur ofuis grióta.

Þorsteirn feck Jófrídar dootter Gunnars Hlifarsonar, moodur hennar var Helgga dootter Olafs Feilands, Sister Þordar Gellis. Jófride hafdi att fyrr, Þoroddur son Túngu Odds: litlu epter þetta andadiz Asgerdur. Epter þad bra Eigill bwe, og selde i Hendur Þorsteini, enn Eigill foor þa til Mosfells sudur til Gríms Maag sijns þviad hann unne mest Þórdise stiwpdoottur sinne þeirra manna er þa vooru a lijfe. Þad var eitt sumar at skip kom wt i Leyruvoge og stijrde sa madur er Þormodur hiet og var Norræñ

og Hwskarl Þorsteins Þorusonar, Hann hafde med ad fara skiolld er Þorsteirn hafde sendt Eigli Skalla-Grimssyne og var þad ꜳ giætur gripur. Þormódur færde Eigli skiolldin, enn hann took vid þackſamlega. Epter um Veturinn orte Eigill Drapu um Skiallda giefina er kollud er Verudrapa, og er þetta upphafed at.

Heire Feners óforsa, Fall hadds vinar stalla hygg þeige til þagnar þinn Lídur Kóngs minna, Opt skal Arnar kiapta Oid god of tod horda, Hrafn stírande hræra, hregna mots ofregna.

Þorsteirn Eigilsson bioo ad Borg, hann ꜳtte ij. lavngetna sonu Hrislu og Hrafn, enn sijdann hann kvongadiz ꜳttu þav Jófrídur x. born, Helga en væna var þeirra dootter, er þeir deildu um Skꜳld Hrafn og Gunlavgur Ormstúnga, Grímur var elldstur son þeirra ij. Skúle, iij. Þorgeir, iv. Kollsveinn, v. Hiørleifur, vj. hiet Halle, vij. Eigill, viij. Þórdur, Þóra hiet dootter þeirra er ꜳtte Þormódur Kleppjárnsson. Frꜳ bornum Þorsteirns er kominn kynslood mikil og margt stoormenne þad er kallad Mijra manna kyn allt þad er frꜳ Skalla-Grime er komid.

## Cap. lxxxj.

Onundur Sióne bioo at Anabrecku þꜳ er Eigill bioo at Borg Onundur Sióne ꜳtte Þorgerde dootter Biarnar hins Digra af Mosfells Strond, Born þeirra Onundar vooru þav Steinar og Dalla er ꜳtte Ogmundur Galltason þeirra syner vooru þeir Þorgils og Kormakur, og er Onundur giordist gamall og lijtt siꜳande, þꜳ sellde hann af Hende bw, took þꜳ vid Steinar Son hans þeir Fedgar ꜳttu avd fiꜳr Steinar var allra manna mestur og ramur at Afle, lióotur madur biwgur i vexte, foothꜳr og midskamur, Steinar var uppodslu madur mikill og ꜳkafa madur, udæll og hardfeingur, enn meste kappsmadur, Og er Þorsteirn Eigilsson bioo ad Borg, þꜳ giordiz þegar fꜳtt um med þeim Steinare.

Fyr-

Fyrer sunnann Hafslæk liggur mijre er heiter Stacksmyre, standa þar yfer votn a vetrum, enn a vorin er Isa leyser, þa er þar wtebeit so good navtum, þviad þad var kallad iafnt og Stackurtodu, Hafslækur red þar Landamerkium at fornu fare. Enn a vorin gengu navt Steinars miog a Stacksmyri er þav vooru rekin utann Hafslæk, eñ Hwskarlar Þorsteins vondudu um, Steinar gaf ad þvi avngvann gavm, og foor so fram hid fyrsta Sumar, ad ecki vard til tijdinda. Annad vor epter hellt Steinar enn beitinne, enn Þorsteirn lagde þa i umrædu vid hann, og rædde þo um Stillelega bad hann Steinar hallda beit bwfiarins sem ad fornu fari hafdi verid. Steinar seiger at se mundi ganga þar sem þad vilde, hann rædde um allt helldur Ferlega, og skiptust þeir Þorsteirn nockrum ordum. Sijdann liet Þorsteirn hneckia Navtunum wt a Myrar yfer Hafslæk, og er Steinar vard þess var, þa feck hann til Grana þræl sinn ad sitia ad navtunum a Stacksmyre og sat hann þar ollum dogum, þetta var enn efra hlut sumars, beittust þa upp allar Engiar fyrer sunnann Hafslæk. Nw var þad einn dag, ad Þorsteirn hafde geingid upp a Borg ad siast um, Hann sa hvar Navt Steinars fooru, hann geck wt a myrar, þad var sijd dags, hañ sa ad Navtin vooru þa komin langt wt i Hoolasundid, Þorsteirn rañ wt a Myrarnar, og er Grane sa þad, þa rak hann navtin oruglega til þess er hann kom a Stodul. Þorsteirn kom þa epter, og hittust þeir Grane i Gardshlidinu, Þorsteirn vo hann þar, heiter þad sijdann Granahlid, þad er a Twngardinum. Þorsteirn hratt gardenum ofann a Grana og huldi Hræ hanns, sijdann foor Þorsteirn heim til Borgar, Enn Konur þær er til Stoduls fooru fundu Grana þar er hann la, Epter þad fooru þær heim til Hws, og sogdu Steinare þesse tijdinde, enn Steinar Heigde hann þar upp i Holltunum. Enn sijdann feck Steinar til annann þræl ad filgia navtunum og er sa ei nefndur, Þorsteirn liet þa sem hann visse ei um beitina, þad sem epter var sumarsins. Þad vard til tijdinda, ad Steinar foor hinn fyrra hlut vetrar wt a Snæfells strond og dvalldist þar um hrijd, Steinar sa þar Þræl er Þrandur hiet, hann var allra manna mestur og sterkastur, Steinar keipte Þræl þann, og bavd vid mikid verd, enn sa er atte Þrælin mat hann fyrer iij. merkur Silfurs, var þad Halfu dyrara

ara enn medal Þræll og var þad kaup þeirra, hann hafdi Þránd med sier heim og er þeir komu heim, þaa ræder Steinar vid Þránd. Nw er so tilfarid, ad eg vil hafa verknad af þier, er her skipad madur til verka allra, nw mun eg verk fyrer þig leggia, og er þier lijted ervide i, þw skalt sitia ad navtum mijnum, þiker mier þad miklu skipta, ad þeim sie vel til haga halldid, vil eg ad þw hafer þar eingis manns hoof vid nema þitt, hvar hage er bestur aa myrum, maa eg ei aa manne siaa ef þw hefur ei til þess hug eda afl, ad hallda til fulls vid einhvorn Hwskarl Þorsteins. Steinar seldi Þrände i hendur exe mikla, nær alnar fyrer munnann, og var hwn. Haar hvoss: So lijst mier aa þig Þrándur seiger Steinar, sem ei sie sijnt hvorsu mikils þw metur Godord Þorsteins ef þid sijaist tveir aa. Þrándur seiger ongvann vanda veit eg mier aa vid Þorsteirn, enn skilia þikumst eg hvor verk þw hefur mier ætlad, muntu þikiast litlu til veria þar sem eg em, enn eg ætla mier vera goodann kost hvad sem upp kemur ef vid Þorsteirn skulum reina med ockur, sijdann took Þrándur til Navta giætslu. Honum hafde þad skilist þoott hann hefde ei lengi verid, hvort Steinar hafdi navtum sijnum hallda lœtid, og sat Þrándur ad navtum aa Stacksmyri, og er Þorsteirn vard þess var, þaa sendi hann Hwskarl sinn til fundar vid Þránd, og bad seigia honum Landamerki med þeim Steinare, Hwskarlin foor og sagdi honum Erinde sijn, og bad hann hallda navtunum annann veg, sagdi ad þad være land Þorsteins Eigilssonar er navtin vooru þaa i komin, Þrándur seiger þad hirdi eg alldrei hvor þeirra land aa, mun eg navt hafa þar sem hagi er bestur, sijdann skildust þeir, foor Hwskarl heim og sagdi Þorsteini svor þrælsins, Þorsteirn liet þaa kyrt vera, enn Þrándur took þaa ad sitia ad navtum nætur og daga Þorsteirn stood upp einn Morgun þegar med Soolu og geck upp aa Borg, hann saa hvar navt Steinars vooru, sijdann geck Þorsteirn wt aa myrar til þess er hann kom til navtana, þar stendur skoogar klettur vid Hafslæk, enn upp aa klettinum svaf Þrándur og hafde leist af sier skoo sijna, Þorsteirn geck upp aa klettinn og hafde eggse eina mikla, og einginn fleire vopn. Þorsteirn stack eggsar skaptenu at Þrände og bad hann vakna, hann spratt upp skioott og hardt og greip tveim Hondum eggsina, og reidde upp, og spurde hvad Þorsteirn vilde, Hann seiger

Eg

Eg vil seigia þier ad eg a Land þetta, enn þier eigid Hagabeit fyrir utann Lækinn, er þad ei undarlegt þoottu viter ei Landamerki her, Þrándur seiger avngu þiker mier skipta hvor land a, mun eg þar láta navt vera er þeim þiker best, Hitt er lijkara seiger Þorsteirn ad eg mune nw rada vilia fyrir Lande mijnu, enn eigi þrælar Steinars. Þrándur seiger Miklu Ovitrare madur ertu Þorsteirn enn eg hugde, ef þw villt eiga næturbool under eggsi minne, og hætta til þess virding þinne, mier synist ad ætla til, sem eg mune hafa tvo ofl þijn, enn mig skorter ei hug, eg em og vopnadur betur enn þw. Þorsteirn mællte a þa hættu mun eg leggia ef þw giorer ei ad um beitina, vænte eg ad mikid skilie hamingiu ockar, so sem Mælefnin eru ujofn. Þrándur seiger Nw skaltu sia Þorsteirn hvort eg hræddumst nockud hoot þijn, sijdann settist Þrándur nidur og batt skoo sinn, enn Þorsteirn reiddi upp eggsina hart og hioo a Hals Þrándi so ad Hofudid fiell a brijnguna, sijdann bar Þorsteirn grioot ad honum og hulde Hræ hanns, geck sijdann heim til Borgar. Enn þann dag komu seint heim navt Steinars, og er þrotin von þootte þess, þa took Steinar Hest sinn, og lagde a Sodul hann hafdi alvæpne sitt, hann reid sudur til Borgar, og er hann kom þar hitti hann mann ad mæle, hann spurdi hvar Þorsteirn være, honum var sagt ad hann sat inne, þa bad Steinar ad Þorsteirn kiæme wt qvadst eiga erindi vid hann, og er Þorsteirn heyrdi þetta took hañ vopn sijn, og geck wt i dyr, Sijdann spurdi hann Steinar hvort erinde hanns være. Hefur þw drepid Þránd þræl minn seiger Steinar, so er vist seiger Þorsteirn, þarftu þad ecki odrum ad ætla. Þa sie eg ad þw munt þikiast hardfeinglega veria Land þitt seiger Steinar, er þw hefur drepid þræla mijna ij. enn mier þiker þad ecki so mikid framaverk, enn nw mun eg giora þier a þessu miklu betre kost ef þw villt med kappi veria land þitt, og skal ecke odrum monnum nw adhluta at reka navtin, enn vita skaltu þad at navtin skulu bædi noott og dag i þijnu Lande vera, so er seiger Þorsteirn ad eg drap i fyrra sumar þræl þinn, þann er þw feckst til ad beita navtunum i Land mitt, enn sijdann liet eg yckur hafa beit sem þier villdud allt til vetrar. Nw hef eg drepid annañ þræl þinn fyrer þier, gaf eg þessum hina somu sok, sem hinum fyrra. Nw skaltu hafa beit hedann i fra i sumar sem þw villt, enn ad sumre

ef

ef þw beiter Land mitt og fær menn til þess ad reka hijngad se þitt, þar mun eg enn drepa fyrer þier einhvorn mann þann er senu filger, so þo at þiw filger sialfr, mun eg so giora œ hvoriu sumre medann þw hell dur teknum hætte um beitina. Sijdann reid Steinar i burt og Heim til Anabrecku, og litlu sijdar reid Steinar upp i Stafaholt þar bios þa Einar, hann var Godordsmadur, Steinar bad hann lids og bavd honum fe til. Einar seiger, þig mun litlu skipta um mijna Lidsemd, nema fieire virdinga menn veite ad þessu mœle. Epter þad reid Steinar upp i Reikiadal œ fund Twngu Odds, og bad hann lids og bavd honum fe til, Oddur took vid fenu og het lidveitslu sinne ad hann skilde efla Steinar ad koma fram Logum vid Þorstein, Steinar reid sijdann heim. Enn um vorid fooru þeir Oddur og Einar med Steinare stefnufor, og Hofdu fiolmenne mikid. Stefndi Steinar Þorsteini um þræla drap, og liet varda Fiorbavgsgard um hvort vijgid, þviad þad vooru log, þar ed þrælar vooru drepner fyrir manne, enda væri eie færd þræsgiolldin fyrir hina þridiu Sool, enn iafnt skildu mœtast ij. fiorbavgs saker, og ein skooggangs sok. Þorsteirn stefnde avngum sokum i moot, og litlu sijdar sende Þorsteirn menn sudur œ nes komu þeir til Mosfells til Grims og sogdu þar þesse tijdinde, Eigill liet sier fatt um finnaz og spurde þo ad i hlioode vandlega um skipti þeirra Þorsteins og Steinars, og so ad þeim monnum er Steinar hofdu styrkt til þessa mœls, sijdann fooru sendimenn heim og liet Þorsteirn vel yfer þeirra ferd. Þorsteirn fiolmennti miog til voorþijngs, og kom þar noott fyrr enn adrer menn, og tiolldudu bwder sijnar, og þijngmenn hanns er þar œttu bwder, og er þeir hofdu umbwiz þa liet Þorsteirn ganga til þijngmanna lid sitt, og giordu þar bwdar vegie mikla, sijdann liet honn bwd tiallda og var hwn miklu meire enn adrar Bwder þær er þar vooru. J þeirre Bwd vobru avngver menn. Steinar reid til Þijngs og fiolmennte miog, þar red Twngu Oddur fyrir lide og var fiolmēñtur. Einar wr Stafhollti fiolmennte miog, tiolldudu þeir Bwder sijnþar, var þijngid fiolmennt, fluttu menn fram Maal sijn. Þorsteirn bavd avngvar sætter fyrir sig, enn svarade þvi þeim monnum er um sætter leitudu ad hann œttlade ad lœta dooms bijda, seiger ad honum þootte mœl lijtils verd þav er Steinar foor med um Drap þræla hañs.

enn

enn talde þræla Steinars hafa noogar saker til giort. Enn Steinar liet stoorlega yfer mœalum sijnum, þootte honum saker loglegar, eñ lids afle noogur ad koma Logum fram. Var hann þvi framgiarn um sijn mœal, þann dag gengu menn i þijngbrecku og mœltu menn mœalum sijnum. Enn um qvolldid skyldu Doomar wt fara til sooknar, var Þorsteirn þar med flock sinn, hann red þar mest þijng skopum, þviad so hafdi verid medann Eigill foor med Godord og manna forrœad, þeir hofdu hvorutvegge alvæpne: Menn sœau þœa af þijnginu ad mikill flockur manna reid med Gliwfurœa, og blikudu þar skilder vid, og er þeir ridu œa þijngid, þœa red þar Madur fyrer i blœarre kœapu, Hafde Hiœalm œa Hofde Gullrodin, enn skiolld œa hlid gullbwen og kroka spioot i Hende, var þar œa gullrekinn falurinn, hann var sverde girdtur, var þetta þœa Eigill Skalla-Grímsson þar komin med lxxx. manna alla vel vopnada, so sem til bardaga være bwner, þad lid var valid miog, hafde Eigill haft med sier hina bestu boondasonu af Nesium sunnann, þœa er honum þoottu vijglegaster, Eigill reid med flockinn til bwdar þeirrar er Þorsteirn hafde tiallda lœatid og œadur var avd, stijga þeir af Hestum sijnum, og er Þorsteirn kende ferd fodur sijns, þœa geck hann i moote honum med allann flock sinn, og fagnade honum vel, lietu þeir Eigill bera fegiorfe sijna inn i bwd, enn reka Hesta i Haga. Og er þetta var sysslad geck Eigill og Þorsteirn med flockin allann upp i þijngbrecku, og settust þar sem þeir vooru vaner ad sitia, Sijdann stood Eigill upp og mœllte hœatt: Hvort er Önundur Sióne her i þijngbreckunne? Önundur qvadz þar vera; Eg em feigin ordin Eigill er þw ert komin: mun þad allt bœta til um þad er her stendur mille mœala maña: Eigill seiger hvort rœdur þw þad ad Steinar son þinn sœker Þorsteirn son minn, og hefur dregid samann fiolmenne til þess at giora Þorsteirn ad urdarmanne, þvi velld eg ei seiger Önundur ad þeir eru usœatter, hef eg þar til lagt morg ord, og bedid Steinar ad sœttaz vid Þorsteirn son þinn, þviad mier hefur verid i hvorn stad Þorsteirn sonur þinn, synt til Osœmdar, og velldur þvi sw hin forna œast vinœatta er med ockur hefur verid, sijdann er vid fœddumz her upp sœamtijdis, brœatt mun þad seiger Eigill lioost verda, hvort þw mœler þetta af alvoru eda af hegooma, þoott eg œtla þad sijdur vera mune, Man eg þar



daga

daga ad hvorutveggi ockar mundi þikia ulijklegt ad vid mundum sokum sækiast, eda stilla ei sonu ockrá ad þeir fare ei med sijslsku slijkri, sem eg heyri ad þar horfist til, synis mier þad raad medann vid erum aa lijfe og so nær stadder deilu þeirra, ad vid tøkum maal þetta under ockur, og setium nidur, enn laatum ecki þaa Twngu Odd og Einar etia samann sonum ockar sem vijghestum, laatum þaa hafa annad hedann i fraa til fiaarvaxtar sier, enn taka aa slijku. Þaa stood Ønundur upp og mællte, rett seiger þw, og þad er ockur Ofallid, ad vera aa þvij þijnge er syner ockar deila, skal ockur og alldrei sw skom̃ henda ad vera þeir vanskorwngar ad sætta þaa ei. Nw vil eg Steinar ad þw selier mier maal þessi i hendur, og laater mig med fara sem mier lijkar: Eige veit eg þad seiger Steinar hvort eg vil so koma nidur maalum mijnum, þviad eg hefi aadur leitad mier lidsemdar af Stoormenne. Vil eg nw so ad einu lwka maalum mijnum ad þad lijki vel Odde og Einare sijdann ræddu þeir Oddur og Steinar sijn i mille, seigir Oddur so: efna vil eg Steinar vid þig lidsemd, þaa er eg het ad veita þier þad til laga eda þeirra maalalykta, er þw villt taka þier til handa: muntu mest aabirgiaz hvorn veg maal þijn eru komin ef Eigill skal um dæma. Þaa mællte Ønundur ecki þarf eg ad eiga þetta under Twnguroctum Odds, Hefe eg af honum haft hvorke gott nie illt, enn Eigill hefur margt stoorvel giort til mijn, trwe eg honum miklu betur enn ødrum, enda skal eg þessu raada, mun þier þad hæfa ad hafa ei alla oss i faange þier, Hefe eg enn her til raadid fyrir ockur, og skal enn so vera. Steinar mællte, aakafur ertu um þetta maal fader, og opt ætla eg ad vid ydrumst þess: sijdann selldi Steinar i Hendur Ønundi maalid, og skilde hann þaa sækia edur sættast aa so sem Løg qvedid er til. Og þegar er Ønundur red fyrir Maalum þessum, þaa geck hann til fundar vid þaa Fedga Þorsteirn og Eigil, Þaa mællte, Ønundur, Nw vil eg Eigill ad þw skaper einn og skiper um þesse maal, so sem þw villt, þviad eg trwe þier best til ad skipa þessum mijnum maalum og øllum ødrum. Sijdann tookust þeir Ønundur og Þorsteirn i Hendur, og nefndu sier votta og þad med votta nefnunne, at Eigill Skalla-Grímsson skylde einn giora um maal þesse so sem hann vill allt Oskorad þar aa þijngenu, og lauk so þessum maalum, ganga menn so heim til bwda, Þorsteirn liet leida til

bwd-

bwdar Eigils iij. yxn og liet hoggva til Þijngmatar. Og' er þeir Twngu Oddur og Steinar komu heim til bwdar, þa mællte Oddur, Nw hefur þw Steinar og þid Fedgar rædid fyrir yckar mææ lalykt, Nw teliumz eg laus vid þig Steinar, um lidveitsluna þa er eg hiet þier er var mælt med ockur, ad eg skilde veita þier so ad þw kæmer Mæalum þijnum fram, eda til þeirra lykta er þier hugnadiz, hvorn veg sem þier gefz sættargiord Eigils: Steinar seiger ad Oddur hafe honum vel veitt, og dreingelega og skal nw þeirra vinaatta vera miklu betri enn ædur, vil eg kalla ad þw siert wrlaus vid mig um þad þw varst i bundin. Um qvolldid fooru doomar wt og er ecki getid ad þar yrde til tijdinda.

# Cap. lxxxij.

Eigill geck i Þijngbrecku um dagin epter, og med honum Þorsteirn og allur flockur þeirra, þar kom og Önundur og Steinar, Twngu Oddur var og þar komin og Einar, og er menn hofdu þar mælt Logmæalum sijnum, þa stood Eigill upp og mællte so, Hvort eru þeir Önundur og Steinar her fedgar so ad þeir meige skilia mææl mitt, Önundur seiger ad þeir vooru þar, þa vil eg lwka upp sættargiord þeirra æ mille Steinars og Þorsteirns: Hef eg þar upp mææl, ad Grímur Fader minn kom hijngad til Lands og nam her Loud oll um Myrar, og vijda um Herad, og took sier Bwstad ad Borg og ætlade þar Landeign til, enn gaf vinum sijnum Landakosti þar wt i fra so sem þeir byggdu sijdann. Hann gaf Ana bwstad æ Anabrecku, þar sem Önundur og Steinar hafa bwid, vitum vier þad aller samann hvar Landamerke eru æ mille Borgar og Anabrecku ad þad rædur Hafslækur. Nw var ei þad Steinar ad þw giorder þad Ovitande ad beita land Þorsteins og lagder under þig eign hanns, og ætlader ad hann munde vera so mikill ættlere ad hann munde vera Landrænijngi þinn, þviad þid Steinar og þw Önundur meigid þad vita ad Ane þa land af Grime Fodur mijnum; Enn Þorsteirn drap fyrir þier þræla ij. Nw er þad ollum vitanlegt ad þeir hafa fallid æ verkum sijnum, og eru þeir Obotamenn

menn., og ad helldur þo þeir være frialser þaa være þeir þo Oboo-tamenn. Enn fyrir þad Steinar, er þw hugder ræna munde Þor-steirn son minn landeign sinne þeirre er hann took med mijnu raade og eg took i arf epter fodur minn, þaa skaltu laata lavst þitt land ad Anabrecku og hafa þar ei framar fe: skal og filgia ad þw skalt ei hafa bwstad nie vistarveru her i Herade fyrer sunnann Laangaa, og vera i burtu fraa Anabrecku, aadur Fardagar eru lidner eñ falla Oheilagur fyrir ollum þeim monnum er Þorsteini vilia lidveita þeg-ar epter Fardaga ef þw villt ei i burt fara edur nockurn hlut ei halldaþañ er eg hefe aa lagt vid þig. Enn er Eigill settist nidur þaa nefnde Þorsteirn sier votta ad giord hanns: þaa mællte Onun dur Sióne, Þad mun maal manna Eigill ad giord siaa er þw he-fur giort og uppsagt sie helldur skock. Nw er þar fraa mier ad sei-gia ad eg hefi allañ mig vidlagt ad afstijra vandrædum þeirra, enn hedañaf skal eg ecki af spara þad er eg maa giora til Oþurftar Þor-steine: Hitt mun eg ætla seiger Eigill, ad hluter yckar fedga, mu-nu æ þvi verre er deilder voorar standa lengur, Hugda eg Onund-ur ad þw munder þad vita ad eg hefe halldid hluta mijnum fyrer þvijlijkum monnum sem þid erud fedgar, eñ Oddur og Einar er dregizt hafa so miog til þessa maals, hafe her af fengid skapnadar virding.

# Cap. lxxxiij.

Þorgeir Blundur var þar aa Þijnginu Sisturson Eigils, og haf-di mikid lidveitt Þorsteini i þessum maalum. Hañ bad þaa fedga gefa sier land nockud wt þar aa myrunum, hann bioo aadur fyrer suñañ Hvijtaa fyrir nedañ Blundsvatn, Eigill took vel aa þvi, og fysti Þorsteirn ad hañ lieti Þorgeir þangad fara þeir settu Þor-geir nidur ad Anabrecku, enn Steinar færde bwnad siñ wt yfer Laang aa og settist nidur ad Leirulæk, Enn Eigill reid heim sudur aa Nes, og skildust þeir fedgar med blijdu. Madur saa var med Þorsteini er Ire hiet hvorium Manne Foothvatare og allra maña skignastur, hann var Utlendur og lavsingi Þorsteins, enn þo hafde hann fiærgiæslur, og þær mest ad safna gelldfe upp til Fialls aa vo-

xum,

rum, eñ a Havst ofañ til Rettar. Eñ nw epter Fardaga liet Þorsteirn safna gelldse, þvi er epter hafde verid um vorid og ætlade ad læta reka þad til fialls, Jre var þa i fiaar rettunum, enn Þorsteirn og Hwskarlar hanns ridu upp til fialls og voru viij. samann. Þorsteirn liet giora gard um þvera Grijsatwngu mille Langavats og Gliwfr a, liet hann þar ad vera marga menn um vorid, og er Þorsteirn hafdi litid yfer verk Hwskarla sinna, þa reid hann heim, og er hann kom gegnt Þijngstad þa kom Jre þar hlavpande moote honum og seiger ad hañ vill mæla vid Þorsteirn einmæle. Þorsteirn mællte ad forunavtar hanns skildu rijda undañ medañ þeir toludu. Jre seiger Þorsteini ad hann hefde farid upp a Einkeñur um dagin og sied til Savda, enn eg sa seiger hann i skooginum fyrer ofañ vetrargotu ad skein a skillde og xij Spioot. Þorsteirn svarar hatt so ad forunavtar hanns heyrdu so. beint: Hvij mun honum so ant ad hitta mig, ad eg meige ei rijda heim leidar minnar, Eñ þo mun Avallda þikia Ovænlegt ad eg synia honum mals ef hann er siwkur, Jre hlioop þa sem mest mætte hann til Fialls upp. Þorsteirn seiger Forunavtum sijnum, leingia ætla eg nw leidina, ef vier skulum fyrst rijda sudur til Aulvaldstada, Aulvalldur sende mier ord ad eg skilde finna hann, mun honum þo ecki þikia miklu lavnadur uxen, er hann gaf mier i fyrra havst, þo ad eg hitte hann ef honum þiker mæle skipta. Sijdañ ridu þeir Þorsteirn sudur um myrar, fyrer ofañ Stæangarhollt, og so sudur til Gufaar og ofañ med Añe Reidgotur Og er hann kom nidur fra Vatne, þa sau þeir fyrer suñañ Ana navt morg og mann hia, var þar Hwskarl Olvallds, spurde Þorsteirn hvorn veg þar være heilt, hann sagdi ad þar var vel heilt, og Aulvalldr være i skooge ad vidarhogge, þa skaltu seiger Þorsteirn seigia honum ef hann a vid mig skilt erinde, ad hann kome til Borgar, eñ eg mun rijda heim, og so giorde hann. Eñ þad spurdist þo sijdañ ad Steinar hafde þañ sama dag setid upp vid Einkeunur med xij. menn. Þorsteirn liet sem hann hefde ecki spurt og var þad sijdann kyrt.

## Cap. lxxxiv.

Þorgeir er madur nefndur hañ var Frænde Þorsteins og hinn mesti

vin hanns, hann bioo i þann tijma a Alftaneſe, Þorgeir var vanr ad hafa Havſtbod hvort Havſt, Þorgeir foor til fundar vid Þorſteirn Eigilsſon, og bavd honum til ſijn, Þorſteirn hiet Ferdine og foor Þorgeir heim. Enn ad aqvednum dege, biooſt Þorſteirn til ferdar vid ſiøtta mann, Grímur hiet ſon Þorſteins hann var x. vetra gamall, og foor hann med þeim, ridu þeir wt til Foſs, og þar yfer Laangaa, og ſo wt ſem leid liggur til Aurrida aar, enn fyrer utann aana er ſkoogarhollt laangt og mioott, þar liggur gatann efter, enn veſtur fraa holltinu vooru eingiar af nockrum bæum, þar var Steinar ad verke og Ønundur Sioone og Hwskarlar þeirra, enn er þeir ſaau for Þorſteins kendu þeir hann giorla, og hlupu þegar til vopna ſinna og efter þeim Þorſteine, enn er Þorſteirn ſaa for þeirra Steinars, ridu þeir inn af holltinu, þar var holl eirn haar, hiaa gøtunne, og Ovijdur nockud, þeir ſtijga þar af bake og ganga uppaa hollinn, Þorſteirn mælte vid Grím ſon ſinn, ad hann ſkillde fara i ſkoogenn, og vera ei vid fund þeirra, enn þegar er þeir Steinar komu ad holnum ſoktu þeir ad þeim og tookſt þar bardage, þeir Steinar vooru vij. þar var og ſon hanns x. vetra gamall, fund þennann ſaau þeir menn er aa veigenum vooru af ødrum bæum, og fooru þeir til ad ſkilia þaa, enn er þeir vooru ſkilldir voru fallner ij. menn af Þorſteine enn j. af Steinare, enn ſumer ſaarer þaa leitade Þorſteirn ad hvar Grímur ſonur hanns være, þeir finna hann og var ſaar miog, enn ſonur Steinars laa þar davdur hiaa, enn er Steinar ſaa ad þeir Þorſteirn ſtigu aa heſta ſijna, þaa kalladi hann og mælte, rennur þw nw Þorſteirn Hvijte? Þorſteirn ſæger leingra ſkalltu renna aadur enn Vika er lidinn, efter þad rijda þeir Þorſteirn wt og hofdu med ſier Grím, enn er þeir komu aa hollt eitt er var hiaa gøtunne þaa andadiz Grímur, og grooſu þeir hann þar hiaa holltinu, og heiter þad ſijdann Grijmshollt, enn þad heiter Oruſtu holl er þeir borduſt. Þorſteirn reid um qvølldid aa Alftanes, og ſaatu þar ad veitſlu iij. nætur, ſijdann bioo hann ſig til heimferdar, menn buduſt ad fara med honum, enn hann villde þad ei, og rijda þeir ſamann ij. enn þann dag er Steinar viſſe ad Þorſteirn munde heim rijda, þaa rijdur hann heim med Sioo, enn er hann kom

kom a mel nockurn þa settist hann þar nidur, hann hafde Sverd þad er Skrimner hiet allra vopna best, hann stood a melnum med brugdid Sverdid, og horfde a er hañ sa reid Þorsteins er hann reid utanum sandenn. Lambe Boonde a Lambastødum sa hvad Steinar hafdist ad, hann gieck heimánn og ofann a melbackann, enn er hann kom ad Steinare, greip hañ um hañ aftañ, og undir hendur honum, Steinar snaradiz vid, og villde slijta hann af sier, Lambe hiellt fast, og foru þeir upp af melnum, þa rijda þeir Þorsteirn id nedra um gotuna, og inn um til Siafar, Steinar hafdi ridid Stoodheste sijnum, og hafde bundid hann, hesturinn vard lavs og hlioop inn med Sioo, þad sau þeir Þorsteirn og undrudust þad, þvi þeir hofdu ecki ordid varer vid Steinar, Steinar þverradist frañ a melinn, þvi hann sa ei ad Þor steirn hafdi um ridid, enn er þeir koma a melinn framann verdann, hratt Lambi honum a melinn ofann, Steinar rasade ofann a sandeñ enn Lambe took hlavp heim ad bæ sijnum, enn er Steinar komst a fætur, hlioop hann efter Lamba, enn er Lambe kom ad dyrunn, hlioop hann inn og rak aftur hurdina, Steinar hioo efter honum so Sverdid stood fast i hurdinne, og skildu ad þvi, og gieck Steinar heim, enn Þorsteirn foor leid sijna til þess er hann kom til Borgar. Enn um daginn efter sende Þorsteirn Hwskarl sinn þess erindis til Steinars ad hann færde bwstad sinn, og ei nær hijngad enn fyrir utann Borgarhravn, og vera i buktu annann aftañ med allt sitt, enn ad odrum koste mun Þorsteirn Eigilsson koma og veita honum heimsokn, og ad þa skal skifta um med þeim; mun þa ei kostur burtferdar ef vier meigum rada. Hwskarl foor og seiger Steinare erindi sijn, og foor heim sijdann, Enn Steinar bioo ferd sijna og foor wt a Snæfells Strond og sette þar bw samann og heiter ad Ellida, og bioo þar leingi sijdann. og lijkur so vidskiptum þeirra Þorsteirns. Þorgeir Blundur bioo leinge ad Anabrecku, hann veitte Þorsteine illar bwsifiar i ollu þvi er hann matte, þad var eitthvort sinn er þeir fedgar hittast Eigill og Þorsteirn ad þeir ræddu um Þorgeir Blund frænda sinn, og komu allar rædur asamt med þeim, þa qvad Eigill:

Feste eg Eid med ordum endur Steinare úr hende, eg
þóttest þá aka þarfar geirs til meire, mier brást minar

sijnr

sifkur, megri hiekust þei fegri, mátte ei bols af bindast, bluudur eg hlykt ofundrust.

Þorgeir Blundur foor i burt fraa Anabrecku, og foor sudur i Floka-dal, þviad Þorsteirn þootteft ecki meiga vid hann eiga, ad hann villde vægiaft þar vid, Þorsteirn var madur oreſiuſamur, riettlaatur og oaa-leitenn, enn hiellt hlut ſijnum ef adrer menn leitudu aa hann, enda veitte þad helldur þwngt fleſtum ad etia kappe vid hann. Twngu Oddur var þaa hofdijnge i Borgarfirde fyrir ſunnann Hvijtaa, hann var Hofs-gode, og riedi fyrer Hofe þvi er aller menn gulldu Hoftolla til fyrer ſunnann Skardsheide.

# Cap. lxxxv.

Eigill Skalla-Grimsſon vard madur gamall, enn i elli hañs gior-dist hann þwngfær, og glapnade honum bædi heirn og ſyn, hann gior-dist og footſtirdur. Eigill var þaa ad Mosfelle med Grime og Þórdíſe. Þad var eirn dag ad Eigill gieck wt med vegg ad hann drap vid fæte ſijnum og fiell, Konur nockrar ſaau þad og hloou ad og mælltu, farenn ertu nw Eigill med ollu er þw fellur einſamall. Þaa ſeiger Grimur Boonde, midur hæddu konur ad ockur þaa er vid vorum Jngre, Þaa qvad Eigill:

Vafs hef eg va for heftis, vá fullur em eg ſkalla, blavt ur er unſt berge fótur, borgenn lavſt enn Þorrenn.

Eigill vard med ollu ſioonlavs, þad var einhvorn dag, er vedur var kallt um veturinn, og Eigill foor til Ellds ad varma ſig, Matſelia ræd-de, ad þad var undur mikel ſlijkur madur ſem Eigill hafde verid, ad hann ſkillde liggia fyrer footum kvenna, ſaa ad þær mættu ei vinna verk ſijn, vertu vel vid ſeiger Eigill þoott eg bokunſt vid ellde, og midlunſt vier vid um rwmid, ſtatt upp ſeiger hwn, og gack til rwms þijns og laat oſs vinna verk vor. Eigill ſtood upp og geck til rwms ſijns og qvad.

Hvarf eg blíndur af brande, bid eg Eirar ſín geira, þañ veg eg harma hravma, hvít vollum mig ſitia, er Jard-

argof=

argofugum ordum, ordum qved eg ferdum, hafde gramur ad gamne, geir hamdis leik framde.

Þad var enn eitt sinn ad Eigill gieck til ellds ad verma sig, þaa spurde madur hann hvort honum væri kallt aa footum, og bad hann ei rietta ofnær elldinum, so skal vera seiger Eigill, enn eigi verdur mier nu hæg styrt footunum er eg sie ei og er ofdavst Sioonleised, þaa qvad Eigill.

Langt þiki mier ligg eg einsamall Kall af gamall, i klædum óvormum, eigenn reckiur all kalldar tvær, enn þær Konur þiggia blossa.

Þad var aa ondverdum dogum Hákonar Jalls ens rijka, þaa var Eigill Skalla-Grimsson aa nijundatige aara alldurs sijns, og var hann þaa hress madur ad odru enn sioonleise, ad Mosfelle var Selfor, og var Þordis i Sele um Sumarid; þad var eitt kvolld sijd, er menn biwggust til reckna, ad Eigill kalladi til sijn þræla ij er Grimur aatt, hann bad þaa taka sier hest, og vil eg fara til lavgar, og skulu þid fara med mier, enn er hesturinn var bwinn gieck Eigill wt og hafde med sier kistur sijnar, hann stie aa bak, og fara þeir ofann efter twne, og fyrer brecku þaa er þar var, er menn saau sijdast til þeirra, enn um morguninn er menn rijsa upp, og verkmenn gengu wt, þaa saau þeir fyrer avstañ twngard aa hollte einu ad Eigill var þar eirnsamall, og leidde efter sier hest, þeir fara til fundar vid hann og filgdu honum heim, enn hvorke komu aftur þrælarner nie Kisturnar, og eru þar margar getur aa, hvar Eigill mune hafa folged fe þad, fyrir avstann Mosfell geingur gil mikid ofann wr fialle, enn þad hefur ordid þar til merkia, ad i braada þeirum þaa er þar vooru Snioofar miklir, vooru þaa mikil vatnsfoll efter gilino, hafa fundist i gilino, enskir Silfurpeningar, geta sumer meñ þess ad Eigill mune þar hafa fied folged, enn sumer menn ætla ad Eigill mune hafa folged fied fyrir nedañ gard aa Mosfelle mille haña og Ariñar, þvi þar eru fen stoor, og furdu diwp, og mune Eigill hafa laatid þar nidur fara fied og þrælana med. Eigill seiger ad hann hefde drepid Þrælana, og so folgid fie sitt, enn þad villde hann þo avngvum seigia hvar hann hefde folged.

## Cap. lxxxvj.

Eigill took sott um havstid eptir, þaa er hann leiddi til bana, enn er



hann

hann var andadur, þaa liet Grímur færa hann i klæde good, síjdann liet hann flitia Eigill ofann i Tialldanes, og liet þar giora havg mikeñ, og var Eigill þar i lagdur, og vopn hanns, og þikir ei meire afreks madur vered hafa i fornum sid oteyeñ enn Eigill Skalla-Grímsson. Eigill var priimsigndur madur enn blotade alldrei, Grímur ad Mosfelle var skijrdur þaa er Christne var løgtekenn aa Islande og Þordís Kona hanns, og øll hion hanns og heimamenn, hann liet þar Kirkiu giora, enn þad er Søgn sumra manna, ad Þordís hafe laated flitia Eigil til Kirkiu, og þad til Jardtegna ad þaa er gior var Kirkia ad Mosfelle, enn ofann tekenn sw er Grímur liet giora, þaa var grafinn Kirkiugardurinn, og fundust þar mannsbein og Sverd hiaa, enn þavg bein vooru so mikil, ad ecki var lijkt annara Christinna manna beinum, þeim er þaa vooru i Jordu, þikiast menn þad vita, efter søgn gamallra manna og froodra, ad þad hafe vered bein Eigils Skalla-Grímssonar. Þar var þaa vidstaddur Skafti Prestur Þorarinsson vitur madur, hann took upp havs Eigils og setti aa Kirkiugardinn, og þootte undarlega mikill, eñ hitt þootte hønum mest fraa lijkindum hvørsu þwngur var upp ad hefia, havsinn var baarogttur allur utann sem hørpuskiel þaa villdi Skafte Prestur vita um þikleik havssins, og took upp handøxe vel mikla, og reidde upp annare hende sem hardast, og lavst hamrinum aa havseñ og villde briota, enn þar sem aa kom hvijtnadi vid havsenn, enn ecke dalade hann nie brast, og maa af slijku raada og marka, ad havs Eigils munde ecki avdskiærdur fyrir høggum Smaamennis medann Svordur og holld filgde hønum, bein Eigils vooru nidurløgd ad utann verdum Kirkiugarde aa Mosfelle. Þorsteinn Eigilsson tok Skijrn þaa er Christni kom i Island, og hann liet giora Kirkiu aa Borg, hann var madur trwfastur og vel sidadur, hann vard gamall og vard soottdavdur og var jardadur aa Borg, ad þeirre Kirkiu er hann liet sialfur giora. Fraa Þorsteine er mikill ætt kominn, margt stoormeñe og mørg Skaalld, og er þad kallad Myramanna kyn, og so þad allt er fraa Skalla-Gríme er komid, Leingi hiellst þad i ætt þeirra, ad menn vooru stoorir og sterkir, og vijgamenn mikler, enn sumer spakir ad vite, þvijad i ætt þeirra hafa fædst þeir menn, sem frijdastir hafa verid aa Islande sijnum, sem er Þorsteinn Eigilsson, og Systurson hanns

Kiartan

Kiartan Olafsson, og Systerson Kiartans Halldor Gudmundsson, so og Helga hin fagra doottur Þorsteins Eigilsonar er þeir deilldu um Gunnlaugur Ormstúnga og Skaalld Hrafn, enn fleiri mijramenn vooru manna liootastir. Þorgeir son Þorsteins var sterkastur þeirra brædra, enn Skúle var mikilmenne mest og bioo ad Borg efter fodur sinn, Skúle var leinge i Vijking med Eirike Jalle er hann bardest vid Olaf Koong Tryggvason og hann vann Ormenn langa med honum, Skúle hafdi haft i Vijking vij orustur og þootte hann vera hinn mesti kappe og fullhuge, foor hann eftir þad wt til Islands og settest i bw ad Borg og bioo þar til elle og kom margt manna fra honum. Og lijkur þar þessare fraasogu.



Þryckt ad Hrappsey 1782 af Magnúsi Moberg.

